# DIPLOMATARIUM ISLANDICUM.

---

# ÍSLENZKT FORNBRÉFASAFN,

SEM HEFIR INNI AÐ HALDA

BRÉF OG GJÖRNINGA, DÓMA OG MÁLDAGA,
OG AÐRAR SKRÁR,

ER SNERTA

ÍSLAND EÐA ÍSLENZKA MENN.

---

GEFIÐ ÚT AF

HINU ÍSLENZKA BÓKMENTAFÉLAGI.

TÓLFTA BINDI

1200—1554

REYKJAVÍK.

Í FÉLAGSPRENTSMIÐJU.

1923—1932.

Að tilmælum stjórnar félagsins tók eg að mér að lúka bindi þessu. Eru á minni ábyrgð bls. 145 og þaðan af, til loka, þar með lagfæringar og registr. Uppskriftir allar af afgjaldsreikningum Eggerts Hannessonar (bls. 384—434 og 561—98) eru frá minni hendi, en aðrar uppskriftir, sem fyrir hendi voru og greindar eru við hvert skjal, hefi eg borið saman við frumritin, nema þau, sem eingöngu eru í brezkum söfnum. Af því, sem prentað var, áðr en eg tók við verkinu, þókti mér hlýða að bera afgjaldsreikninga Kristjáns skrifara saman við frumritið, og eftir því eru lagfæringar prentaðar aftan við. Eru bæði þeir reikningar og afgjaldsreikningar Eggerts Hannessonar svo illir viðfangs, að mikillar athugasemi þarf þar við til uppskrifta; má með engu móti draga dæmi af þessu við uppskriftir venjulegra skjala.

Registrinu er að mestu hagað sem registri við síðasta bindi.

*PÁLL EGGERT ÓLASON.*

# Efni.

# DIPLOMATARIUM ISLANDICUM.

---

**1.** **um 1200.**

SKRÁ Páls biskups Jónssonar um kirkjur þær í Skálholtsbiskupsdæmi, er presta þarf til að fá.

AM. 214. 8vo. þrjár afskriptir: *a*, með hendi Björns á Skarðsá 1619 („Nu er datum 1619“); þar með fylgir afskript Árna Magnússonar. Hér vantar upphafsorð skrárinnar. — *b*. brot af gamalli afskript frá c. 1600—1620, og þar með fylgir afskript Árna Magnússonar, eins og þessi gömlu blöð voru þá. Ritar Árni svo um þau: „Þetta innlagt er ritad epter gômlum fordiörfudum pappirsblôdum, sem vida voru ólæs orden, og hier og hvar burtu rifen styeke. Ecki var hônden miög gómul þar ä, enn er, óefad, ritud epter elldra Exemplare, þvi hier standa i margar kirkiur, sem fyrer laungu eru urfallnar. Ætla eg þetta document mune sidar i skriftenne interpolerad vera, þvi hier finnast og ein eda tvær kirkiur, sem yngre eru enn Reformatio Lutheri (ex gr. Breidebolstadur ä Skogarstrônd). Leingra hefr þad alldri vered i þvi Exemplarenu sem þetta er epter skrifad, enn hier finnst. Þvi aptan vid var óskrifud half sida og var þetta document ä fiorum blôdum in 4to. Upphaf þeirra blada var trosnad og ólæselegt orded. Annars ætla eg eigi muni framan vid vanta nema litid eitt. Villde eg til geta, ad upphafed hefdi þannig vered, eda ä þvilikan hätt: *Skalhollltz biskupsdæmi byriazt ä Langanesi nordur.* Eda og kannske: *Skalhollltz biskupsdæme byriast ä Langanese. Þad nes horfer i austur af landinu og utnordur.* Þa gengr Helkunduheidi fram ä *neset.*“ — *c*, brot af afskript frá 1665 („Epter þessum Annal ero nu ä þessu äre Anno 1665“) með hendi síra Helga Grímssonar á Húsafelli. Þessi blöð fékk Árni „fra Snæfuglstôdum 1708,“ og stendur það heima, því að síra Helgi á Húsafelli átti systur síra Björns Stephánssonar á Snæfuglsstöðum. Þetta brot byrjar í Árnessþingi, einmitt á *Snæfuglsstöðum.* — JSig. 390. 8vo (= Miscellanea Jóns Árnasonar I.), afskript frá c. 1750, en gerð eptir annari, sem verið

hefir eldri en 1699. Í þessari afskript er skrá þessi heil. — Kirknatal í Þjóðskjalasafninu frá e. 1730 (að vísu gert eptir 1699), sem haft hefir þessa gömlu skrá til afnota og hliðsjónar, og vitnar í hana. — Öllum höfuðhandritunum er meira eða minna raskað, þó mest 390, sem að öðru leyti er náskylt *a*; *b* og *c* eru mjög svipuð.

Skrá þessi er prentuð hjá Kr. Kålund í Bidrag til en hist.-topogr. Beskrivelse af Island II, 380—395. Heldr Kålund, að skrá þessi muni vera frá síðara hluta 16. aldar, en það er misskilningr. Skrá þessi er í rótum sínum mjög forn, en henni hefir verið raskað nokkuð smám saman eptir því, sem breyzt hefir um kirknaskipanina, bætt inn í skrána nýjum kirkjum, er klerka þurfti til að fá, og aðrar, að vera má, feldar úr skránni, sem annað hvort voru af fallnar eða þá orðnar að útkirkjum. Þó standa enn í skránni margar kirkjur, sem um 1600 voru fallnar niðr fyrir langa laungu, svo sem að Knappafelli, Rauðalæk, Svínafelli, í Hörgsdal, í Eyjunni há (Pétrsey), í Arnarbælum tvennum, á Jólgeirsstöðum, á Esjubergi. Munu því vera minni brögð að úrfellingum á því, sem í skránni hefir staðið í öndverðu, heldur en innskotum nýrra kirkna, og mætti vel vera, að svo sem ekkert sé úr skránni felt, og það er mér nær að halda, að það sé svo sem innskotin ein, er raska henni.

Árni Magnússon hefir séð það, að stofn skrárinnar er forn, og auðsætt er af orðum skrárinnar sjálfrar, að hún er gerð á biskupsstólnum í Skálholti, enda biskupinum skyldast að vita, hverjum kirkjum honum bar skylda til að fá presta. Skrá þessi hlýtr og að hafa fylgt biskupsstólnum leingi, og sennilega verið aukin einmitt þar biskupunum til minnis.

Eins og skráin kemr nú fram hér, eptir afskriptum þeim, er vér nú höfum, þá eru kirkjurnar orðnar 242, er presta þarf til, en í öllum þeim afskriptum, sem elztar eru og mest mark er að, hefir haldið sér óbreytt í niðrlagi skrárinnar hin upphaflega samlagða tala kirknanna alls, hversu miklu sem búið var að bæta af nýjum kirkjum inn í skrána sjálfa. Tala sú hefir altaf staðið óhögguð, — og hún er 220 tírætt, *einmitt sama talan sem í skrá þeirri, er Páll biskup Jónsson lét gera, og getr í sögu hans.* Þar stendr svo: „Páll biskup lét telja í þeim þrimur fjórðungum lands, er hann var biskup yfir, kirkjur þær, er at skyldu þurfti presta til at fá, ok hann lét presta telja, hve marga þyrfti í hans sýslu, ok voru þá kirkjur xx ok cc tírætt, en presta þurfti x miðr en ccc tírætt“ (Bps. I, 136). Prestatalan hefir og í merkari afskriptum skrárinnar að niðrlagi haldizt óbreytt, en verið mislesin einhvern tíma ij^c oc xl“ fyrir „ij^c oc xc,“ svo að úr því hefir orðið „240“ fyrir „290“, og kemr þá alt heim, þegar þessa er gætt, og er skrá þessi að stofni kirknaskrá Páls biskups Jónssonar, sú er höfundr Páls-sögu hefir fyrir sér haft; er hún gerð á árabilinu 1195—1211, eða sem næst um 1200, enda er mjög fornlegr keimr að henni sumsstaðar. Hverju sé raskað hér í skránni frá því í öndverðu, skal

hér ekki farið út í. Það gæti verið rannsóknarefni í heila ritgerð út af fyrir sig. Hefi eg nokkuð kannað um það mál og um prestsskyldur (tölu presta) á hverjum stað, en það yrði of langt mál hér inn að færa. Verðr hér að láta þar við sitja að gefa skrána út eptir þeim faungum, sem fyrir liggja, og er hún færð hér til nokkurn veginn stöðugs ritsháttar, þótt ekki sé öllu snúið til römmustu fyrnsku, né alt alsamræmt. Sbr. Fjarðatalið forna. Dl, III, Nr. 9.

[Registr staðanna oc kyrknanna um Skálaholts[1]) biskupsdæmi.

Sjá[2]) fróðleikr er til þess skrifaðr, at þeir menn viti gjörr[3]), er óvíða[4]) fara, hvat við [sic er[5]) um skipti[6]) fjarða, eðr[7]) héraða, eðr nökkurra hinna virðuligustu bæja, á Íslandi, [ef þeir lesa þetta[8]).

Langanes er norðast í Austfirðingafjórðungi, litt[9]) bygt, oc horfir í landnorðr[10]). Þar geingr Helkunduheiðr[11]) eptir nesinu fram. Hon skilr fjórðunga Austfirðinga oc Norðlendinga, oc er[12]) þar settr upp hamarr Þórs í heiðinni[13]), sem fjórðunga skilr.

Bót er kölluð suðr frá Langanesi, oc er þar í bótinni Finnafjörðr oc Miðfjörðr.

[Bakkafjörðr.

Kirkja at Skeggjastöðum[14]).

[Þá eru Voknafirðir[15]) ij, oc kirkjur ij í[16]) hinum syðra at Hofi oc

at[17]) Refstöðum[18]).

Fyrir sunnan Voknafjörð[19]) er Smjörvatzheiðr[20]) á millum[21]) [oc[22]) Fljótsdalshéraðs[23]).

Kirkja [í Möðrudal[24]).

Þessar eru graftar[25]) kirkjur í Fljótsdalshéraði:

í[26]) Jökulsdal [í Hofsteigi[27]),

---

1) [390, sem ritar: Skálholts; vantar í *hin.* — Hér byrjar *a.* 2) Sá *a;* þessi 390. 3) sl. 390. 4) 390; óvíðar *a.* 5) [snýr 390. 6) skipan 390. 7) og 390. 8) [sl. 390. 9) þétt 390. 10) Hér hefst *b.* 11) *a;* — heiði 390; Hoolkunduheidi *b.* 12) *b;* var *a,* 390. 13) Svo *öll,* en í 390 síðan gert úr því „heiðninni". 14) [390; sl. *a. b.*; mun þetta síðari viðauki. 15) *b;* Vopna- *a.* 16) *b;* ad *a.* 17) *b;* á, *a.* 18) [sl. 390. 19) *b;* Vopna- *a,* 390. 20) -heiði b, 390. 21) milli *a.* 22) *b;* sl. 390. 23) [Fljótsbakka ok Héraðs *b.* 24) [*b;* á Möðrudalsheiði *a,* 390. 25) *b;* graftrar 390; greptrar *a.* 26) á 390; Kirkja at *b.* 27) [*b;* í Hofteigi *a;* Hofteigr 390.

í Tungu í[1]) Kirkjubæ[2]),
[í Ási[3]),
at[4]) Hjaltastöðum,
at Eiðum,
í[5]) Þingmúla,
at[6]) Vallanesi,
[á Valþjóf(s)stöðum,
á[7]) Hallormsstöðum[8]).

Fljótsdalr[9]) geingr fyrir ofan alla Austfjörðu[10]) í[11]) millum[12]) Voknafjarðar[13]) oc Berufjarðar, oc horfa allir fjarðarbotnar[14]) á þveran dalinn[15]), oc liggja heiðar á milli allra fjarða[16]) oc Fljótsdals[17]).

[Næst[18]) Fljótsdal[19]) [er Njarðvik, oc þar kirkja[20]).
[Þá (er) Borgarfjörðr[21]). Kirkja[22]) á[23]) Desjarmýri.
Kirkja[24]) í[25]) Húsavík[26]).
Þá er Loðmundarfjörðr. Kirkja á Klipp(s)stöðum[27]).
Seyðarfjörðr[28]). Kirkja á[29]) Dvergasteini.
Mjófafjörðr. Kirkja í[30]) Firði[31]).
Norðfjörðr. Kirkja á[32]) Skorrastöðum[33]).

[Þá er[34]) Hellisfjörðr oc Viðfjörðr. Þeir ganga báðir suðr af[35]) Norðfirði.

Þá er fjall mikit, er heitir Gerpir[36]), oc er Sandvík fyrir norðan þat, en Kr[ossa]vík[37]) fyrir sunnan, oc [byggjast[38]) hvárt[veggi][39].

---

1) sl. 390. 2) Kirkjubær 390. 3) [í Fellum Ás 390; sl. *b*. 4) á, *a*. 5) sl. *b*. 6) í *a*. 7) at 390. 8) *b*; [skiptir sætum í *a* og 390. Hér skýtr og 390 inn: „(Ad. Skridu Clöstre).“ 9) Fljótsdalshérað 390. 10) fjörðu 390. 11) sl. *a*, 390. 12) milli *a*. 13) *b*; Vopna- *a*, 390. 14) botnarnir *a*, 390. 15) „(héraðið)“ b. v. 390 (milli sviga). 16) fjarðanna *a*, 390. 17) héraðs b. v. 390. 18) Fyrir sunnan *b*. 19) [Austast af þeim 390. 20) [*a*, 390; oc kirkja í Húsavik *b*. 21) 390; [sl. *a*. *b*. 22) og kirkja *b*; sl. *a*. 23) *a*, *b*; at 390. 24) sl. *a*. 25) at 390. 26) [tekið eptir 390; *b* hér skaddað. 27) Klepstod . . . *b*. 28) Sudeyiafiordur *a*. 390; fúið úr *b*. 29) at 390. 30) at 390. 31) 390; óskrifuð eyða í *a*; rotnaður kafli hér úr *b*. 32) at 390. 33) Skorastad 390; Skárastöðum *a*. 34) [b. v. 390. 35) frá 390. 36) 390; Greper *a*; . . eyper *b*. 37) Vöðlavik 390; fúið úr *b*. 38) [bygð í *a*, 390. 39) hvorritveggi *a*; hvorutveggjum 390.

Þá er Eskifjörðr[1]), er geingr norðr af Reyðarfirði. Kirkja á Hólmum [í Reyðarfirði[2-3]).

Þá er Skrúðsfjörðr[4]). Kirkja á[5]) Kolfreystöðum[6]).

[Þá[7]) Stöðvarfjörðr. Kirkja í Stöð.

[Þá er[7]) Breiðdalsfjörðr. Kirkja at Heydölum.

Berufjörðr. Kirkja á[8]) Berunesi [oc Berufirði[9]).

[Þá eru[7]) Alptafirðir ij. [Kirkja í þeim enum[10]) eystra at Hálsi[11]), oc kirkjur tvær í enum[12]) syðra at Hofi oc Þváttá.

Þá er Lón, oc kirkja at[13]) Stafafelli. Í Lóni var fjórðungsþing Austfirðinga.

[[Þá er Vopnafjarðarhorn.

[Þá er[14]) Skarfjörðr.

Þá er Hornafjörðr[15]). Kirkja í[16]) Bjarnarnesi[17]) oc í Hofsfelli[18]) oc í Einiholti[19]).

Þá er Fellshverfi fyrir vestan Heinabergsá. Kirkja at Kálfafelli.

Þá er Ingólfshöfðahverfi. Kirkja at Knappafelli, at Rauðalæk oc[20] at Svínafelli.

Þá er Fljótshverfi. Kirkja at[21]) Lómagnúpi oc Kálfafelli oc[22]) Hörgsdal.

Þá er Kirkjubær [á Síðu[23]).

[Kirkja[23]) í Skál [oc[23]) í Svínadal oc[24]) á Búlandi, í Ásum, [at Skarði[25]).

[Þá[23]) í Veri í Þykkvabæ.

At Höfðabrekku, at Reyni, at Dyrhól(m)um, [í Eyjunni há[25]) [oc[23]) at Sólheimum hinum [vestrum[25]).

[Þessir eru allir firðir oc[25]) kirkjubæir[26]) í Austfirðingafjórðungi, sem nú eru taldir[27]).

---

1) Eykefiorðr *b;* Eskjufjörðr 390. 2—3) [í Reyðarfirði *a,* 390; þá er Reyðarfjörðr *b.* 4) „(Fáskrúðsfjörðr)“, b. v. 390. 5) at 390. 6) *b;* Kolfreyjustöðum 390; Kostreyjustöðum *a.* 7) [b. v. 390. 8) at *a,* 390. 9) [390; sl. *a, b.* 10) b. v. 11) [390; sl. *a, b.* 12) þeim *b.* 13) á *a.* 14) [b. v. *b.* 15) [[Þá er Horn oc Hornafjörðr 390. 16) á *b;* at 390. 17) Bjarnanesi 390. 18) Hoffelli 390. 19) *a;* Einholti *b,* 390. 20) sl. *a.* 21) sl. *b.* 22) í *a.* 23) [*b;* sl. *a.* 24) oðr *a.* 25) [fúið úr *a.* 26) kirkiur *b.* 27) taldar *b.* — Alt frá Fellshverfi og hingað að er skráin mjög röskuð í 390 (sem skrifuð mun af manni kunnugum á þessum

Jökulsá á Sólheimasandi, [hún[1]) skilr fjórðunga, [Austfirðinga oc Sunnlendinga.

Þá[2]) er kirkja í Skógum.

Þá í Hólum.

[Í Arnarbælum tvennum[3]).

[Á Borg[4]).

Í Steinum.

Í Holti, [oc
at Ásólfsskála[5]).

Í[6]) Dal.

Þessar eru kirkjur undir Eyjafjöllum.

[En[7]) þessar í Eyjasveit[8]):

Á Vámúlastöðum.

At Krossi.

[A Skúmstöðum[9])

[Fljót[10]).

Í Vestmannaeyjum[11]).

[Þessir eru kirkjubæir[12]) í Fljótshlið:

Eyvindarmúli.

Hlíðarendi.

Teigr.

Breiðabólstaðr.

[At Hváli[13]).

[Þá eru Rangárnar[14]).

---

slóðum): „Þá er Fellshverfi i sömu sveit. Kirkja að Kálfafelli fyrir vestan Heiðnabergsvötn. Þá er Breiðamerkursandur og Ingólfshöfði i Öræfum. Kirkja að Knappavelli og Rauðalæk, Hofi og Sandfelli. Þá Skeiðarársandur og Siða að vestan. Kirkjur að Núpstað, að Kálfafelli, að Kirkjubæjarclöstri, að Skál. Þá er Skaptártunga. Kirkjur að Ásum og Búlandi, en i Meðallandi kirkja að Skarði, en i Álptaveri kirkja að Þykkvabæjarclöstri. Þá Mýrdalur fyrir vestan Mýrdalssand og jökulinn. Kirkjur að Höfðabrekku, Reynir, Dyrhólum og Sólheimum. — Þessir áður sagðir staðir og kirkjur eru i Austfirðingafjórðungi summa 49.“ 1) [*b;* sl. *a,* 390. 2) [*b;* Austast i Sunnlendingafjórðungi *a,* 390. 3) [*a,* 390; og Miðbæli *b.* 4) [*b;* sl. *a,* 390. 5) [*b;* at Sólskála *a;* sl. 390. 6) sl. *b.* 7) sl. 390. 8) [sl. *b;* „(i Landeyjum tvennum),“ b. v. 390. 9) [sl. *b.* 10) [*a;* sl. *b,* 390. 11) „Landakirkja,“ b. v. 390. 12) [sl. 390. 13) [Í Hvolhrepp kirkja at Stórólfshvoli 390. 14) [*b;* Rangá *a;* á Rangárvöllum 390.

Kirkja[1]) í Odda.
Í[2]) Gunnarsholti.
At Keldum.
Í[3]) Skarði hinu austara[4]).
Í Næfraholti[5]).
[Þá er syðri[6]) Rangá[7]).
[Kirkja at Leirubakka[8]).
Í Klofa.
Í[9]) Skarði hinu ytra.
Í Fellsmúla.
A[10]) Völlum[11]).
Í Tungu[12]).
Í Haga.
Á Jólgeirsstöðum.
Í Ási.
Í Háfi[13]).
At Snjallshöfða[14]).
[At Á[15]).
Í Kálfaholti[16]).
Þá er[17]) Þjórsá. Hún skilr[18]) Rangárþing oc Árnessþing.
Þá er[19]) fyrir utan Þjórsá at[20] Gnúpi.
Í Steinsholti.
[At Hofi[21]).
Í Tungufelli.
Í Reykjadal[22]).
Í Hruna.
At Hólum.
[Á[23]) Ólafsvöllum.
Í[24]) Hraungerði.

1) sl. *a*. 2) at 390. 3) at *b*. 4) vestra *a*, *b* (hér leiðrétt); [„ad Skora hinum vestra“ 390. 5) *b*; Næfurholti *a*, 390. 6) [*b*; sl. *a*. 7) [sl. 390, sem er mjög raskað á þessum slóðum. 8) [Leirubakki *a*. 9) at *b*. 10) at *a*. 11) „Stóruvöllum“ 390. 12) Tungum 390, og heldr svo áfram: „Í Holtamannahrepp kirkjur að Marteinstungu, Haga og Árbæ, að Kálfaholti, Ási og Háfi, Jólgeirstöðum og Snjólfshöfða.“ 13) Hofi *a*. 14) *b*; Snjálfhöfða *a*. 15) [*a*. (= Árbær í 390); sl. *b*. 16) *b*; Kálfholti *a*, 390. 17) [tilgáta AM. í skalla eða gat í *b*; sl. *a*. 390. 18) fjórðunga (!), b. v. 390. 19) í Hreppum b. v. 390. 20) á *b*. 21) [í Háfholti *b*. 22) — hlíð(!) 390. 23) [á Skeiðum kirkja á 390. 24) [í Flóa kirkja að 390.

Í Hróarsholti.
Í Villingaholti.
[Í[1]) Oddgeirshólum[1]).
Í Gaulverjabæ.
[Í Gegnishólum[2]).
Á[3]) Stokkseyri.
Í Laugardælum.
Í Kallaðarnesi[4]).
[Þá er[5]) Hvítá[6]).
Kirkja i Tungu.
Í Haukadal[7]).
Í Hlið.
Á[8]) Torfastöðum.

Þá er Skálaholt[9]), sem [er æðstr staðr[10]) oc dýrðligastr á Íslandi. Þar hvílir [hinn heilagi Thorlákr byskups[11]). Þar er byskupsstóll, oc liggja [þar til[12]) iij fjórðungar landsins. Einn var veittr til byskupsstólsins at[13]) Hólum.

Þá er Brúará, oc kirkja í Laugardal[14]) hinum efra oc svá hinum ytra.
At Mosfelli.
At Hômrum.
At Búrfelli[15]).
At Snæólfsstöðum[16]).

Á[17]) Þingvelli. Þar er Alþingi[18]). En undir Ármannsfelli[19]) var fjórðungsþing Sunnlendinga. [Hjá[20]) Þingvelli liggr Aulvosvatn[21]), [oc á fellr úr Ölfusvatni oc[22]) í sjó út.
Kirkja at Ölfusvatni, oc
at Reykjum.
Í[23]) Arnarbæli.
Á[24]) Hjalla.

1) b. v. (vantar i 390); frá [390; sl. *a*, *b*. 2) [*a*, *b*; sl 390. 3) ad *b*. 4) Kalldaðar- *a*, *b*, 390. 5) kemr 390; frá [sl. *a*. 6) og Biskupstungur b. v. 390. 7) 390; Höfðadal *a*, *b*. 8) At *b*. 9) Skálholt *a*, *b*, 390. 10) [*b*; erkistaðr er *a*, 390. 11) [*a*, 390; Þorlákr biskup hinn helgi *b*. 12) [*a*, 390; sl. *b*. 13) *b*; á *a*, 390. 14) Langadal *b*. 15) Hér hefst *c* (sýnist vera skrifað eptir *b*). 16) *b*; Snæfolksstöðum *a*; Snæfellzstöðum 390. 17) At *b*. 18) Alþing *a*, *b*, 390, c. 19) *a*, 390; Mosfelli *b*. c. 20) tilgáta AM. i eyðu í *b*, *c*. 21) Vlusvatn *b*. *c*; frá [Aulvosvatnz á *a*; Ölvesvatn 390. 22) [alt *a*; á alt 390. 23) at 390. 24) at 390.

Þá er Selvágsheiðr[1], oc kirkja á[2]) Strönd. [Á Strönd í Selvági[3]) slitr Árnessþing[4]).

Þá er kirkja í Krýsivík. Önnur[5]) í Grindavík.

Þá er Reykjanes, oc horfir[6]) [framanvert í útsuðr[7]).

Kirkja í Vági[8]).

Þá er Rosmhvalanes[9]).

[Kirkja á Hvalsnesi[10]).

[Kirkja á Kirkjubóli[11]) [oc önnur[12]) á Útskálum.

Þá er Stakksfjörðr[13]).

Kirkja at Kálfatjörn.

Þá er Hafnarfjörðr, oc[14]) þá er Álptanes.

Kirkja í Görðum oc á Bessastöðum.

Þá er Skerjafjörðr.

Kirkja at Seltjarnarnesi oc í Vík.

Í Laugarnesi.

Í Viðey[15]).

Á[16]) Gufunesi[17]).

Í Þerney.

At[18]) Mosfelli.

Þá er Kollafjörðr.

Þá er[19]) Kjalarnes.

[Kirkja at Esjubergi[20])

[At Hofi[21]).

Í[22]) Brautarholti.

Í Saurbæ.

[At Eyri[23]).

Á[24]) Reynivöllum[25]).

---

1) *a*. 390; -heiði *b*, *c*. 2) at 390. 3) [þar *a*; þá 390. 4) *b*, *c* Þórsnessþing *a*; Þórnessþingi (Árnessýslu) 390. 5) ad Stad *b* (yfir línu og undirpunktað). 6) fer 390. 7) [*a*; til útsuðr *b*, en yfir línunni: þvert í útsuðr; til útsnðr *c*: í útsuðr 390. 8) Kirkjuvogi 390. 9) Rosmalanes *b*, *c*. 10) [*b*. *c*; sl. *a*. 390. 11) [*a*, 390; sl. *b*, *c*. 12) [*b*, *c*; sl. *a*, og 390. 13) *a*; Stocksfjörðr 390; Stagsfjörðr *b*, *c*. 14) sl. *a*, 390. 15) Viðeyjarclöstri 390. 16) í *b*. 17) oc b. v. *b*. 18) á *b*, *c*. 19) sl. *a*, 390. 20) „Gutberge“ ritað fyrst í *b*, en svo leiðrétt yfir línu; frá [tekið eptir *b*, *c*; vantar í *a*, 390. 21) [*b*, *c*; sl *a*, 390. 22) At *b*, *c*. 23) [*b*, *c*; sl. *a*, 390. 24) At *b*, *c*. 25) oc, b. v. *b*. *c*.

At Meðalfelli.
[Á Ingunnarstöðum[1]).
Þá er Hvalfjörðr.
Kirkja í[2]) Saurbæ.
Þá er Akranes.
Kirkja at innra[3]) Hólmi oc í Görðum.
Þá er Grunnafjörðr oc[3]) kirkja at[4]) Leirá oc at[5]) Melum.
Þá er Borgarfjörðr, gott hérað oc mikit.
Á milli[6]) Reykjaness oc Snæfellsness [heitir Faxaóss[7]).
[Þá er kirkja at Hvanneyri oc at[8]) Fitjum í Skorradal[9]).
At Lundi.
Í Bæ.
[At Kroppi[10]).
Í Reykjaholti[11]).
At Húsafelli.
Þá er Hvítá. Hún skilr fjórðunga[12]), [Sunnlendingafjórðung oc Vestfirðingafjórðung.[13]).
Fyrir vestan Hvítá er kirkja í Kalmanstungu.
Á Gilsbakka.
Í Síðumúla.
Í Norðrtungu[14]).
Í Hvammi.
[Í Hjarðarholti[15]).
Í Stafaholti[16]).
At Borg.
Á Alptanesi.
Þá er Straumsfjörðr[17]).
Kirkja í Hitárdal oc
undir Hrauni.

1) [*a*, 390; sl. *b*, *c*. 2) at *b*. *c*. 3) sl. *a*, 390. 4) á *c*. 5) *b*; á *a*. 6) millum. *a*. 7) [*b*, *c*; sl. *a*. 390. 8) [fúið úr *a*. 9) Skoradal *öll*. 10) [sl. 390; fúið úr *a*. 11) í *c* er ritað á spássíu „vantar Ás." En *Ás* stendr í eingri afskriptanna, sem er vottr þess, að skrá þessi sé eldri en 1258. Sbr. Dipl. Isl. I, Nr. 148. 12) sl. *b*, *c*. 13) [*b*, *c*: sl. *a*, 390. 14) 390; Norðtungu *a*. *b*, *c*. 15) [*a*, 390; sl. *b*, *c*. 16) *b*; Stafholti *a*, *c*. 390. 17) Straumfjörðr *a*. 390.

Í Álptártungu.
Í Hjörsey[1]).
At Ökrum.
Á[2]) Hitárnesi.
Í Krossholti.
At Kolbeinsstöðum.
[Á Rauðamel[3]).
[Í Haffjarðarey[4]).
Kirkja[5]) í Miklaholti.
Þá er Straumsfjörðr[6]).
[Kirkja at Stað.
At Knerri.
Þá er Snæfellsnes oc Snæfellsjökull.
Kirkja at Laugarbrekku.
Í Lóni[7]).
[Kirkja at Saxahváli[8]).
[At Ingjaldshváli.
Þá er Gömluvík.
Kirkja at Fróðá.
Þá er Breiðafjörðr[9]).
Kirkjufjörðr.
[Grundarfjörðr[10]).
Kirkja at Setbergi oc[11]) á öndverðri[12] Eyri.
Þá er Urthvalafjörðr[13]).
Kolgrafafjörðr[14])
Hraunsfjörðr.
Kirkja í Bjarnarhöfn.

1) Hersey *a*, 390. 2) í *a*, 390. 3) [*a*, 390; sl. *b*, *c*. 4) [*b*. *c*; sl. *a*, 390. — Hér virðist auðsæ röskun í *a* og 390: Rauðamelr er kominn fyrir Haffjarðarey (eptir 1563). Hér eru kirkjurnar og í nokkuð annari röð í *a*, 390. 5) sl. *a*, 300 6) Straumfjörðr *a*. 390. 7) [Kirkja at Staðarstað og í Lóni. Þá er Snæfellsnes. Kirkja ad Knör. Þá er Snæfellsjökull *b*, *c*. 8) [*b*. *c*; sl. *a*, 390. 9) [*a*. 390; Þá er Breiðifjörðr. Kirkja at Ingjaldshvoli, at Rauðamel, at Fróðá *b*. *c*. Hér í Þórsnessþingi er skránni mjög raskað, og stafar það frá kirkjuskipunarbréfinu frá 1563. 10) [sl. *b*, *c*. 11) b. v. *b*, *c*. 12) Öndverðar *b*, *c*, 390. 13) Urthólafjörðr *b*, *c*; Úthvalafjörðr *a*; „Miklafjörður (Luthallufjörður)" 390. 14) *a*, 390; Kolgrafar- *b*, *c*.

Hofstaðafjörðr[1]).
Þórsnessþing var fjórðungsþing Vestfirðinga.
Kirkja at [Helgafelli oc klaustr[2]).
Þá er Mjófafjörðr[3]),
Vigrafjörðr oc[4])
Álptafjörðr.
Kirkja at Geirreyðareyri[5]) oc[6]) [á Breiðabólstað[7]).
Í Snóksdal.
Á Sauðafelli.
At Kvennabrekku.
At Vatzhorni.
Í Hjarðarholti.
Í Asgarði.
Í Tungu.
Þá er Hvammsfjörðr.
Kirkja í Hvammi.
Undir Staðarfelli.
At Skarði.
Í Búðardal.
Þá kemr í Saurbæinn.
Kirkja at[8]) Hóli)[9]).
At Hváli.
Þá er Gilsfjörðr oc[10]) Króksfjörðr[11]).
Kirkja í[12]) Garpsdal[13]).
Berufjörðr oc Reykjanes.
Kirkja á Reykjahólum[14]).
Á Breiðabólstað.
Þá er Þorskafjörðr.
Djúpifjörðr[15]).
Gufufjörðr.
Kirkja í Gufudal.

---

1) *b. c;* Hofstaðfjörður *a;* Hafstaðafjörður 390. 2) „til forna," b. v. 390; frá [*a*, 390;Helgafellsklaustri *b, c.* 3) *a.* og bætir við „og"; Mjóifjörðr *b, c,* 390. 4) sl. *a,* 390. 5) *b, c;* Geirraðar — *a;* Geirrauðar- 390. 6) *b, c;* sl. *a,* 390. 7) [Svo *a, b, c,* 390, og er þetta sýnileg röskun frá bréfinu 1563. Hér mun hafa staðið í öndverðu: at Dröngum 8) *b, c.* 390; sl. *a.* 9) *a;* Staðarhóli *b, c,* 390. 10) sl. *b, c.* 11) „Krossfjorðr" 390. 12) ad *c.* 13) *a,* 390; Garðsdal *c:* Jarsdal *b.* 14) *a;* Reykhólum *b, c,* 390. 15) Svo *a,* 390; sl. *b, c.*

[Þá er[1]) Kollafjörðr.
[Þá er[1]) Kvigandafjörðr.
Skálmarfjörðr.
Vattarfjörðr.
Kirkja at Skálmarnesi[2]) undir Múla[3]).
Kerlingarfjörðr[4]).
Kjálkafjörðr.
Vatzfjörðr.
Flatey, oc þar kirkja.
Briamslækr[5]) oc þar kirkja.
Kirkja í Haga.
Kirkja í Saurbæ á Rauðasandi.
Þá er Barð, oc[6]) horfir í vestr.
Þá er Breiðavík, Keflavík[7]), Kollsvík[8]), Hænuvík, oc eru þær allar bygðar.
[Þá er[9]) Patreksfjörðr.
[Kirkja í Dal[10]).
[Þá er[9]) Tálknafjörðr[11]).
Kirkja í Laugardal.
Þá er Arnarfjörðr.
Kirkja í Selárdal[12]) oc[13]) í Otrardal[14]).
Fossfjörðr.
Reykjarfjörðr[15]).
Trostansfjörðr[16]).
Geirþjófsfjörðr.
Kirkja á Hramnseyri[17]) oc á Álptamýri.
Dýrafjörðr.
Kirkja í Keldudal[18]).
Undir Hrauni.
Á[19]) Söndum.
A Mýrum.

---

1) [sl. *a*, 390. 2) og, b. v. b, c. 3) [fúið úr *a*. 4) fúið úr *a*, nema „fjörðr.“ 5) *leiðr.*; Brandslækr *a*, 390; Brimslækr *b*; Brimneslækr *c*. 6) *b*. *c*; þat *a*, 390. 7) Kálfavik *b*, en leiðrétt yfir línu. 8) *a*, 390: sl *b*, *c*. 9) [sl. *b*, *c*. 10) [*a*. 390; sl. *b*, *c*. 11) Talnafjörðr *b*. 12) Seladal *b*. 13) sl. *a*. 390. 14) Otrudal *b*. *c*. 15) Reykjafjörðr *b*, *c*. 16) Trostamsfjörðr *b*. c; Trostransfjörðr 390. 17) Hrafnseyri *a*: Hrafnsey 390; Straumseyri *c*; Hraunz Eyre *b*. 18) og b. v. b, *c*. 19) at *b*.

At Gnúpi.
Á[1]) Ingjaldssandi.
Önundarfjörðr.
Kirkja í[1]) Holti.
Súgandafjörðr.
Kirkja at Stað.
[Þá er[2]) Keflavík [oc[2]) Skálavík [oc byggjast hváru-tveggju[3]).
[Þá er[4]) Bolungarvík[5]).
Kirkja at Hóli.
[Þá er Ísafjörðr[6]).
Skutulsfjörðr.
Kirkja at[7]) Eyri.
Álptafjörðr.
Seyðisfjörðr.
Kirkja at[7]) Eyri.
Hestfjörðr.
Skötufjörðr.
Kirkja í Ögri.
Mjóifjörðr.
Vatzfjörðr, [oc þar kirkja í[8]).
Reykjarfjörðr.
Ísafjörðr.
Kirkja í Langadal [at[9]) Kirkjubóli[10]).
[Þá er[4]) Kaldalón.
Kirkja at Snæfjöllum.
Jökulsfjörðr.
Kirkja at Grunnavík[11]).
Leirufjörðr.
Hrafnsfjörðr.
Lónafjörðr.
Ranghali[12]).
Veiðileysa[13]).

---

1) At *b*. 2) [sl. *a*, 390. 3) [hvor(u)tveggi(a) bygð *a*, 390. 4) [*b*. *c*; sl. *a*, 390. 5) er i Ísafirði, b. v. *a*, 390. 6) [*b*, *c*; sl. *a*; 390. 7) á *a*, 390. 8) [*a*; þar i kirkja 390; oc kirkja at Vatzfjarðarstað *b*. *c*. 9) *c*; sl. *b*. 10) [*b*, *c*; sl. *a*. 390 (ef til vill frumlegra). 11) Stað i, b. v. *b*, *c*. 12) Ranghalafjörðr *a*, 390. 13) Veiðileysufjörðr (Veiðilausfj.) *a*. 390.

Norðfjörðr[1]).
Ritagnúpr[2]).
Aðalvík, oc [kirkja í[3]).
Þá eru Hornstrandir hvártveggja veg[4]) frá Horni, oc horfir þat[5]) [í norðr[6]).
Þá er Furufjörðr oc Þaralátrsfjörðr.
Reykjarfjörðr[7]).
Bjarnarfjörðr.
Drangar[8]).
Eyvindarfjörðr.
Ófeigsfjörðr.
Ingólfsfjörðr.
Norðfjörðr.
Trékyllisvík, oc[9]) kirkja í Árnesi.
Reykjarfjörðr[10]).
Veiðilausfjörðr[11]).
Bjarnarfjörðr.
[Kirkja í Kallaðarnesi[12]).
Steingrímsfjörðr[13]).
Kirkja á[14]) Breiðabólstað[15]) oc[16] í[17]) Tungu.
Kollafjörðr, [oc kirkja undir Felli[18]).
Þá er Bitra, oc[19]) kirkja á Eyri.
Guðlaugsvík oc Hrútafjörðr, oc[19]) kirkja at[20]) Bakka.
Á sú, er fellr í innanverðum Hrútafirði, skilr [Vestfirðingafjórðung oc Sunnlendingafjórðung[21]).

Þetta er alt í sýslu[22]) Skálaholts[23]) biskups, sem nú er talt[24]), oc eru hér kirkjur þær[25]), sem presta þarf til að fá, xx oc ij hundruð[26]). En presta þarf í þessari sýslu ijc og xc[27]).

1) sl. *b, c.* 2) *a,* 390; Rita, fáið úr *b, c.* 3) [þar kirka í, oc *b, c.* 4) megin *b, c.* 5) sl. *b, c.* 6) [til norðrs *b, c.* 7) Reykjafjörðr(!) *b. c.* 8) Hrangarfjörðr(!) *b.* 9) sl. *b. c.* 10) Reykjafjörðr *b, c,* 390. 11) Veiðileysa *b, c.* 12) [Kaldanes *b, c;* Kaldárnes 390; Kaldaðarnes *a.* 13) [*a,* 390; Steingrimsfjörðr. Kirkja í Kaldanesi *b, c.* 14) at 390. 15) *a,* 390. 16) sl. *b, c.* 17) sl. 390. 18) [Kirkja at Undirfelli *b, c,* 390. 19) sl. *b, c.* 20) *b, c;* á *a.* 21) [Skálholtsstikti og Hólastikti(!) *b, c.* 22) *a,* 390; umdæmi *b· c.* 23) Skálholts, *öll.* 24) *a,* 390; talið *b, c.* 25) *a*; sl. *hin.* 26) 220 *a, c*; xx og ij hundruð *b.* Kemr þetta svo merkilega heim við sögu Páls biskups (Bps. I., 136), að þessi gamla tala stendr hér óhögguð, þó að búið sé að raska sjálfri skránni, og kirknatalan sé eptir henni orðin meira en 240. 27) 240 *a, c*; ijc

*2 **24. Júlí 1273.** **í Björgvin.**

Erkibiskupsdómr um Odda og Vatnsfjörð.

AM. 242. 4to bl. 65b, bréfabók Guðbrands biskups i frumriti um 1570. — Bréfabók Guðbrands biskups Nr. 284, bls. 292—294. Sbr. DI, II, Nr. 39.

Vrskurdur um Odda og Vatzfiord vr stadamalum.

Ad tilsettum deigi ]dus Julij[1]) voru fyrir oss virduligur brodur vor Arne biskup af Skálhollti af halfu kirkiu sinnar og sa leikmadur er Siguatur heiter Halfdánarson. af sinni álfu og brædra sinna. og €inar Þorualldzson fyrir sijna haund.

Þa bar fram̄ þessi hinn sami biskup ] dom fyrir oss sijna beidzlu med þeim hætti sem hier seiger.

Virduligur minn herra Jon Erkibiskup. €g Arne biskup af Skalhollti kiæri þad fyrir gudi og ydur vppa Siguat Haldanarson. hann helldur og kallar sier kirkiu hins helga Nicolai ] Odda til forráda og allrar aftekiu og sijnum brædrum. Nu fyrir þui ad Siguatur á suör ad hafa fyrir alla þa hier vm. þa beidunzt eg ad þier dæmid heilagri kirkiu aull þau riettindi af þeim sem hun a ad hafa enn mier og mijnum laugligum epterkomendum frialzt valld og forrád kirki-

oc xl. *b*. Þessi tala er alveg efalaust afbökuð úr: „ije oc xc," eins og saga Páls biskups sýnir (Bps. I, 136). Þaðan stafar og afbökunin „240" í *a* fyrir „290". Bæði 390 og c eru röskuð og um snúin hér í niðrlaginu. Um *b* ritar Árni: „Kirkjurnar, sem í þessu documenti upp reiknast, eru nærri 230, að meðreiknuðum circiter þeim, sem hér vantar, eða og nokkrum mun fleiri." En um *a* segir hann: „Þessir numeri eru að vísu corrupti. Kirkjurnar, sem hér upp teljast, eru 229, eða nokkru fleiri, því sumstaðar er um þær óskýrt. Nú eru í Skálholtsbiskupsdæmi 221 kirkjur, því nokkrar eru úr fallnar. Prestar eru nú í Skálholtsbiskupsdæmi 130, og hafa þeir aldri stóru fleiri verið." Þetta er undarlegr misskilningr. 1542 voru prestar alls í Skálholtsbiskupsdæmi 150 (DI, XI, 186). Hafa um 1200 sjálfsagt verið miklu fleiri. Þá voru flestir virðingamenn vigðir. Í Hólabiskupsdæmi, sem var meira en helmingi minna, voru 1429 alls 135 prestar og að auk 1 ómagaprestur. Þar voru þá og 44 djáknar (DI, IV, 414). Um 1461 voru og 138 prestar, auk 3 ómagapresta, í Hólabiskupsdæmi, og enn fremur 42 djáknar (DI, V, bls. 359—361). — 390 segist sjálft telja 227 kirkjur. 1) þ. 15. Júlí. — Árna biskups saga segir „ii;. cal. Julij„ (= 29. Júní). Bps. I, 692. Sbr. Dipl. Isl. II, Nr. 39.

unnar slijkt sem til Skalholltz biskups heyrer epter gudz laugum.

Þessi andsuðr hafdi Siguatur moti Arna biskupi ad hann byggur ad þad skilord meigi standa sem Sæmundur Sigfus[1])son giordi fyrir Oddastad ad hann skyl'di forråd og vardueitzlu fyrir hafa og sijner erfingiar æfinliga. Sijdan var Siguatur spurdur huert Oddastadur var[2]) kirkiueign kalladur, hann suaradi ad hann mundi ecki ȷ moti tala. suo þo ad Oddaveriar skylldu vardueita. Suo gieck Siguatur vid fyrir erkibiskupi ad Steinuðrr[3]) moder hans keypti Oddastad ad Birni Sæmundarsyni[4]) og Sæmundi Hara'lzsyni[5]) og sıjdan toku þeir Siguatur og brædur hans ȷ erfd epter hana og ad hann[6]) åtti suðrum hallda[7]) vppi fyrir brædur sijna um þetta mal og þeir hafi þat samþyckt.

Med sama hætti beiddist Arni biskup af Joni erkibiskupi. ad hann dæmdi honum valld slijkt sem til Skalholltz byskups heyrer ad gudz logum fyrir kirkiunne ȷ Vatzfirdi vndan Einari Þorualldzsyni er sier kallar kirkiuna til forrada og altekiu.

Þad voru suor Einars ad Þordur faudurfader[2]) hans liet giora kirkiu ȷ Vatzfirdi og liet vijgia med þeim skilmala ad hann og hans retter erfingiar huer efter annan skylldi eiga forrædi fyrir og vardueitzlu.

Arne biskup seiger suo af badum þeim Siguati og Einari ad hann kalladi þui a þa vm kirkiur þessar ad honum synist ad þeir meigi eigi ad riettindum þær hallda eiga nie bæla. Baud og Jon erchibiskup honum suo ȷ skyllda hlydne vid gud og sig ad med valldi sins biskupslegs embættis leidretta og einkanliga slika hluti med audru þui hann sier er vmbota þurfi a Jslandi ȷ Skalholltz biskupsdæmi. Suo hefur [och[8]) Arna biskupe skilist sem iura seiga[2]) ad biskup[9]) a valld yfer kirkium og aullum þeirra eignum enn leikmenn eda olærder menn meigi þær med aunguu moti ad erfdum eignast.

---

1) óskrifuð eyða í hdr. 2) Svo. 3) Steinun. hdr. 4) óskrifuð eyða í handritinu fyrir: Sæm. 5) Hallzsyni, hdr. 6) hun hdr. 7) halldi, hdr. 8) [z och. hdr. 9) biskups, hdr.

Vrskurdur Erchibiskups.

Nu af þui ad heilagrar kirkiu log volta ad liotligur kaupmale og ad rettindum omattuligur ma ecki band fullkomna med retti og þad sem j fyrstu er einskis veit þa ma þat ei sijdan fyrir nockru standa þo ad stunder lijdi og forrædi og vardueitzla þessara stada matti eingin biskup vndan sinum epterkomendum gefa og eingin leikmann matti helldur eignast og ei meiga þar og skildagar til ganga. ei ma og kirkiu kaupa eda selia vid verdi vtan mikils saluhaska og þui fær sa ei retteliga halldit þær nie haft er suo kenist ad. af slikum skynsemdum beiddist herra biskup af oss ad vid dæmdum af Syguati og brædrum hans suo og af Einari [Þorualldzsyne[1]) forrædi og alla aftekiu og vardueitzslu allra eigna þeirra kirkna sem fyrr voru nefndar ad onytum þeirra vornum suo ad alldrei sijdan eigi þeir nie þeirra erfingiar nockud tilkall kirknanna. Nu af þui ad þetta mal er til vors doms komit þa giorum vier þenna vrskurd j nafni faudur og sonar [og anda heilags[1]) ad valld og skipan. forrædi og vardueistzla Oddastadar og Olafskirkiu j Vatzfirdi med aullu þui sem þar liggur til huort sem þad er tekid edur otekid. neytt eda oneytt nema þad eitt sem til kirkiu þarfinda hefur haft verit og þo skynsamliga tært verit þa dæmum vier Arna biskupi j Skalhollti og hans logligum epterkomendum honum og þeim eilifliga til forrada. Og fyrirbiodum vier Sýguati og brædrum hans og suo þeirra orfum. Einari og hans orfum nockud akall vm þetta mal ad veita. Datum j Biorguiñ anno domini m. cc. lxx. iij Sancte Jacobs voku aptan.

---

**3. 23. Júní 1309. á Skörðum.**
**1499.**
**5. Júní 1800. við Kálfatjörn.**

Ágrip af tveim gömlum bréfum og landamerkjagerð milli Vatnshlíðar og Gils í Svartárdal.

---

1) [et cetera, hdr.

Eptir staðfestu eptirriti með eiginhendi Ísleifs sýslumanns Einarssonar meðal Vatnshlíðarbréfa í Þjóðskjalasafninu. — Eldra bréfið, sem hér er vitnað til, er frá 23. Júní 1309, og er prentað í Dipl. Isl. III, Nr. 7. og er þar talið „víst óyggjandi," og þó með nokkrum athuga. Er erfitt við bréf það að eiga nú, af því að það er ekki til öðruvísi en í afskript, ekki gamalli. Svo er að sjá af þessari landamerkjagerð þeirra Ísleifs sem bréfið hafi fram fyrir þá komið í einhverskonar frumriti, er þeim hafi þótt ótryggilegt. Verðr nú við það að sitja. — Bréf það frá 1499, sem hér er skírskotað til, þekkist nú ekki.

Aared 1800 þann 5 Junii mætte vid Kálfatiörn hiá Stóra Krókskarde Syslumadur Jsleifur Einarson og 2 adrer underskrifande giördarmenn, Jon Oddsson búandi á Bessastödum og Ejolfur Jonsson Bóndi á Eirekstödum til ad álijta og fastsetia landamerke millum jardanna Vatnshlijdar og Gils, til þess nefnder af S. T. preste til Glaumbæar Sira Eggert Ejrekssyne, og Jónase Jonssyne ábúanda og Eiganda Gils í Svartardal. Velnefnder vidkomendur voru og á sögdum þrætustad til stadar, og framlögdu skilrike er þeir grunda á sitt Tilkall, nefnelega Sira Eggert Dómsbref af 1309, án Jnsigla og sem oss fyrir kom vafasamt, hvert so gamallt være sem Datum. J þessu Documente eru Vatnshlijdar landamerke mote Gile talen: Ur Kalfatiörn og so i Stóra Krokskard; hveriu samqvæmt og eirn prestsins formadur hefur lögfest. Af Gilsmannsins álfu var framlögd fidimerud Transscript af gömlu kaupbrefe, dat. 1499, med gamaldags hönd og a pappir þricktum Signetum, hver þo voru losnud. Dito framlagde Jonas lögfestur þinglystar 1753 og 1790. J þessum skiölum er Gili eignad land: Ur Kalfatiörn uppi Merkelaut i Saurahlijd; og so beint á Fiall upp sem Vötn ad draga. Nu ágreinde þar ad auk, hvar þesse Landamerkia laut væri; þar ein Lágin liggur nockurn veg beint upp undan Tiörnenne, enn hinar 2 til hlida. — Vard Samkomulag vidkomenda, ad Landamerke mille Gils og Vatnshlijdar skýldu her epter haldast: Ur Kalfatiörn, og so epter ýtstu Lautenne af tilteknum þremur, hver ed er glöggvust og nær leingst upp i áminsta Saura- eða Sauda- hlijd; og þá beint á Fiall upp, i Stein er vid upp settum skamt vestur undan Hrossagile, nálægt nordur Fialls Eggenne þar giled fellur nidur i Stora Krókskard. Lofade Jonas ad fra falla öllu Tilkalle Lands

yfer ted Hrossagil, so ad Vatnshlyd eignast austur þadan, til þess annara Lönd taka vid. Actum ut supra.

Isl. Einarsson. Jon Oddsson. Ejolfur Jonsson.

Samhlióda Original-giördenne, vitnar

Isl. Einarsson (L. S.).

---

*4 [um 1310].

Alþingissamþykt um rekamark.

Ritgerð Bárðar Gíslasonar í Vatnsdal (d. 1670) um tvíræðar lagagreinar í Jónsbók, Rekab. 1. kap. (Landsbókasafn 50. 4to bl. 110). Sbr. DI, VII, Nr. 3; XI, Nr. 1; Alþbb. I, bls. 378.

. . . . ä dögum H(akonar) k(ongs) var þad lögteked Rekamark ä Alþinge. sem flöd geingur. þä eigi[1]) æste siör. brim. eda vindur.

J annare gamallre Bök hef eg sied skrifad. ad Brandur lögmadur dæmde þad Rekamark ä Alþinge. sem flöd geinge til. þä ei æste siör. brim edur vindur. og er þad sömu meiningar[2]).

---

*5 1311.

Skrá um skattbændr á Íslandi.

Add. British Museum 11, 242. 4to (FM. 206 4to). bl. 45a, syrpa síra Gottskálks Jónssonar í Glaumbæ 1543—1590. Sbr. DI, II, Nr. 205; IV, Nr. 7. Þar hefir hrokkið úr ein tala í prentan, og er því skráin prentuð hér aptr eptir sömu afskript sem í IV, 7.

Vm mantal æ Islandi. skattbændr.

Anno domini[3]) ꝏ. ccc. xj æ xij are rikis vorz herra Hakonar Noregz konungz Magnussonar. var svo micit mantal æ Islande.

j Nordlendinga fiordungi. ix^c manna oc. lxx.

---

1) b. v.; vantar í hdr. 2) Þessi samþykt Brands lögmanns þekkist nú ekki. 3) domine hdr.

þar af lavkz konvngenum j skatt nivtiger hvndrvd oc. vc. oc tietiger alna.
j Avstfirdinga fiordungi. cccc. lxxx. oc. iiij. menn. skattr. xlc. oc. vijc.
j Svndlendinga fiordungi. viijc. xxx. oc. viij. menn. skattr. lxxxc. oc. ijc. oc. xx. alner.
j Vestfirdinga fiordungi. dxxxx[1]. oc. xx. menn. skattr. lxxxx. c. [halft annat[3]. c[3].) oc. xx. alner.
ꝗ sama are j millum Hrvtafiardarar oc Siglufiardar. d. manna oc. xx. manna.
mille Siglufiardar oc Helkunduheidar. cccc. oc lx. manna.
Mille Helkvnduheidar oc Lonsheidar. cc. oc. xl.
mille Lonzheidar oc Jokulsar. ccxx. oc. iiij. menn.
millum Jokvlsar oc Þiorsar. cc. xx. oc. viij. menn.
millum Þiorsar oc Bozar. d. oc. lx.
millum Bozar oc Langar halft þridia. c. manna.
millum Langar oc Þorskafiardarar. d. xl. menn.
millum Þorskafiardarar oc Hrvtafiardarar. cc. oc nivtiger.

---

6 **1360.**

Ágrip af kaupbréfi um Mástaði í Vatnsdal,

Máldagabók Guðbrands biskups í frumriti (bl. 16b) í Þjóðskjalasafninu.

Anno 1360 þa Mæstader voru sellder vndan klaustrenu[4]). þa stendur so j þui kaupbrefi ad aboti skildi kyreldi vpp j jordina a Mæstodum. arlega fyrir stadin enn jatadi ix aurum voru Mæstada kirkiu j tiund medan stadurinn a þær jarder iiij er þar ero jnnan þijngær. Enn ef hann selur tiundi sæ ed kauper.

[Nu er ecki tiund golldin. end(a) er og ecki kyrin alen[5]).

---

1) þannig. 2) halfc ā at, hdr. 3) FM. hefir lesið úr þessu s., en það er rangt. 4) þ. e. Þingeyraklaustri. 5) [frá Guðbrandi biskupi.

7. 8. Maí 1363. á Torfalæk.

**Ágrip** af kaupbréfi um Móberg í Langadal og Harastaði í Dölum.

JSig. 607. 4to nr. 48, „Nota“ „frá Mr. Jone Arnasyne i Bolstadahlid“ send Magnúsi sýslumanni Ketilssyni, skr. c. 1785—90.

Líklegre er þeirra meining er hallda ad Sira Marteinn (Bessason) hafe verid sonr Bessa b(onda) Einarssonar, sem var á Móberge i Lángadal, og selde med samþicke konu sinnar Þorgerdar Þorleifsdottur Harastade i Dölum, fyrer Móberg. Datum þess brefs er 1363 mánadagen næstan effter festum Apostolorum Philippi et Jacobi ad Torfalæk, hvar líklegt er Besse hafe þá búed. Nefndt kaupbref sá eg á kálfskinni med 5 hángande jnnsiglum illa lesande, hiá sáluga Mr. Jone Arnbiörnssyne á St(oru) Giliá, hvar sem nú er nidur komid, þvi ei kom þad fram i sterbúe effter hann[1]).

---

*8. 16. August 1363. í Odda.

**Dómr** um rekamörk milli Breiðabólstaðar í Fljótshlíð og Holts undir Eyjafjöllum.

AM. 703. 4to, V, með hendi Orms Vigfússonar í Eyjum 1608. — Prentað áðr í Dipl Isl. III, Nr. 157 (eptir AM. Apogr. 2054).

Gamallt domz Breff sem Sera Arñe medtok med
Hollttí. Enn er jnnciglalaust. adalbrefid hafdi
brunnid med kirkiunni æ daugum Sera
Jons heitinz Gijslasonar faudur
Gudnýiar[2]).

Ollum monnum sem þetta Breff siæ edur heyra giaurer Eg prestur Ole Suartthofdason kunnigt[3]) ad sub anno domini Mo ccco lxiij ad suo sem þeir Sera[3]) Haflidi Magnusson og Sera Ormur Hauksson wrdu eigi asatter wm maurk millum fiarnanna kirkñanna Breidabolstadar og Holltz skipadi

---

1) Jón Arnbjarnarson andaðist 1785. 2) Dómr um kirkjubrunann í Holti frá 7. Marts 1530 er prentaðr í Dipl. Isl. IX, Nr. 432. 3) 2054; sl. 703.

minn virduligur herra herra Þorarinn med Gudz nád Biskup ȷ Skalhollti mier med sȷþu brefi ad tacka proff æ saugdu mali og giaura sȷdan veg æ suo ad wel nægdist. Og suo sem bref Biskupz kom til mȷn giaurda ec þeim badum Haflida og Ormi aheyrendum endiligañ dag hinn næsta eptter Olafsmesso hina sȷdari þangad æ fiöruñar huorum med aullu þui proffe og skilʀȷki sem þeir kynni fremst til ad föä. Oc sem vier komum aller samt og marger adrer dugandis menn j nefndañ stad og dag woru þar fimm prestar Þosteinn Hallsson. Niall Þosteinsson. Þosteinn Gudmundsson. Þosteinn Jonsson og Helgi Ɛinarsson. Enn medur þui ad brast hinn siautti. samþykttu þeir med mier Hafflidi oc Ormur ad Oddur bonde Gijslason wæri þar j stadinn. nefnda ec þessa menn sex til medur mier ad meta og dæma proff þeirra og mala Ɛffni slȷk sem þar wæri fram borin og fiörunum til heyrdi. leiddi Ormur fram ij wotta skilrijka. annan Helga Biarnarson gamlan mann er maurg aar hafdi geymt fiauruñar stadarinz j Holltti. nefnandi fyrir sier Magnus bonda Haflidason. Philippum Arnason. Hall Hallsson og marga adra dugandis menn ad honum hefdi sagt at[1]) þat wæri maurk millum fiarnana þeirra sem Haflida og Orm optnefnda greindi æ wm sem HestƐyra bryddi wñdañ ƐllidaƐy. Annañ Þorgeir Helgason sem eptter faudur sȷnz ordum sagdi þetta sama mark millum fiarnana ad Hesteyra skylldi brýdda wndañ ƐllidaƐy. haufdu þeir bader fedgar lañga tijma geymt þessarar fioru stadarinz ȷ Holltti. Og medur þui ad Sera Haflidi syndi ecki skilrijki fyrir sier wm̃ þetta fiorumark tok ec med ʀadi og samþycki þeirra sex manna sem ec hafdi til nefnt medur mier Ɛida af þeim Helga og Þorgeiri. soru þeir suo fallinn eid epter þeirra manna saugn og ordum sem þeir haufdu adur vpp nefnt ad þad væri mark millum fyrr sagdra fiarna sem HestƐyra brýddi wndañ ƐllidaƐy og ad þad mark hugdu þeir ʀiett vera ef kirkian ȷ Hollti skylldi orænt wera og ad þeir hefdi aunguañ mann heyrt seigia annad mark millum þessara fiarna adur þetta mal byriadist. og sȷdañ er þessi Ɛidur var geinginn giaur-

1) 2054; sl. 703.

um wier aller samtt staudugligt med domz atkuædi Ad kirkian j Hollti skylldi þetta fiorumark hafa og hallda fyrir huorium manni alla tijma nema þad wæri af borid medur laugligum Eignarwottum. Oc til sanninda og meiri stadfestu wm þetta mal settu fyrr nefnder prestar oc Oddur Gijslason sijn jncigli medur mijnu jncigli fyrir þetta bref er giörtt war j Odda in crastina assumptionis beate Marie virginis[1]).

---

*9. **14. December 1382. í Vatnsfirði.**

Testamentisbréf Einars Eiríkssonar, í transscripto tveggja presta og tveggja leikmanna, og segjast þeir hafa séð testamentisbréfið „með hans secreto insigli" í Vatnsfirði 17. Apríl 1382, en Einar drukknaði 29. Marts sama ár.

Eptir frumriti á skinni meðal Vatnsfjarðarskjala í Þjóðskjalasafninu í Reykjavík. Innsiglin eru glötuð, en 1. og 4. innsiglisþveingr eru eptir. — Bréf þetta er áðr prentað í DI, III, Nr. 314 eptir afskript frumritsins, sem þá (1891) var að eins komið eða ókomið til Landsbókasafnsins. Texti bréfsins er þar í heild sinni réttr, en þar urðu vandkvæði á því að koma saman ártali annála og ártali bréfsins og dagsetningu, því að eg varaði mig ekki á því, að rímbók sú útlend, sem eg hefi jafnan notað við slík efni, og talin er áreiðanleg, kannaðist ekki við Ambrosiusmessu aðra en þá, sem er 4. Apríl, og þó hafði önnur og verið haldin. Þetta kemr og fram, sem mér hugkvæmdist þá ekki að athuga, í messudagatalinu gamla, sem er í mörgum fornum afskriptum af Kristinrétti hinum eldra og eins í þeim yngra, að Ambrosiusmessa á jólaföstu hefir verið haldin hér á landi 7. Dec. Kemr þá alt vel heim, og er transscriptum klerkanna frá 14. Dec. 1382.

[Vatnsfiardar brief[2]).

[Testamentis bref Einars Eirikssonar[3]).

Jn nomine domini amen.

gerum wer Skeggi Elldiarnsson. Hellghi Einarsson. prestar. Þorualldr Snartarson. Þoruardr Gudmundarson. leikmenn. kunnekt. ath sub anno[4]) gracie. Mº. cccº. lxxxº. ijº.

---

1) anno ut supra, b. v. 2054. 2) Þetta er og endrtekið utan á bréfinu með hendi frá 15. öld 3) [Utan á bréfinu með samtíða hendi og bréfið sjálft. Utan á bréfið hefir og síra Jón Arason ritað ákvæði bréfsins um hundraðsgjöf til fátækra árlega í kosti úr Vatnsfirði. 4) anna(!), frbr.

j Watzfirde fimta dagin næsta epter phaskawiku sæm wer testamentum Einars bonda Eirikssonar godrar minningar med hans secreto ȷnsigle ok sidan iferlasum sua uattanda ord efter ord sem her seger.

Ek Einar Eiriksson gerir sua fellt testamentum sem her seger. kiosandi likam minum legstad at kirkiu heilaghs Olafs ȷ Watzfirde. gefande þar til jord æ Hælshusum. ok ȷ Wægum. Miþhusum ok Eyre halfua j Miouafirdi. ok þuilik hualgięde sem profaz at ek ok fader minn hafua ætt ȷ Fliote ok her til kalek gylldan er wegr tuær Merkr.

Skal sa madr sem kirkiunnar goz helldr lata gefua her firer ærliga æ minn ærtidardagh fatękum monnum hundrat ȷ koste ok láta segia sælumessv firer minne sæl.

kirkiu heilags Laurencij æ Grvnd gefr ek fimm hundraht.
Hrafnagils kirkiu. ij hundrat.
til Munkaþueræar. ij. hundrat.
til Holastadar. v. hundrat.
til Reynissnesstadar cc[1]).
til Þingeyra. ij. hundrat.
til Kirkiubeiarklaustrs. v. hundrat.
til Þyckabeiarklaustrs. iij. hundrat.
til Helgafellz. c.
til Gufudals kirkiu. c.
til Stadar kirkiu ȷ Steingrimsfirdi. c.
til Skalhollltz kirkiu tiv hundrat.
Aarness kirkiu. ij. hundrat.
Adaluikr kirkiu sęttung ȷ hualreka ȷ Hofn.
til Grvnnavikr kirkiu fiordung ȷ hualreka i Hlǒduuik.
kirkiunne at Sniofiollum. iij. hundrat.
Kirkiubols kirkiu ȷ Langadal. c.
kirkiu ȷ Augre. c.
kirkiu æ Eyre ȷ Seydissfirdi. c.
kirkiu æ Eyre ȷ Skutilsfirdi. c.
kirkiu æ Hole. c.
kirkiu æ Stad ȷ Sugandafirdi c.
kirkiu ȷ Holte ȷ Onundarfirdi tolftungh ȷ reka ȷ Sigluuik.
land æ Draungum ok tuæ hlute ȷ reka skal taka Biorn

1) Svo heldr en. c.

son minn til eignar. ok skal hann feda þar firer einn ölmósumann. mer skylldan. efiñliga ok æ þui goze odru sem ek hefer honum gefit.

presti þeim er mik syngr til molldar gefr ek. ij. hundrat.

prestum til salumessna. x. hundrat. skal sira Eindriþe kópe taka þar (af). ij. hundrat.

fátækum monnum. v. hundrat ȷ koste ok se gefit ȷ sio nættum fra andlæte minu.

fætækum frendum gefr ek. xx. hundrat. skal Valgerdr Nicholasdotter eiga þar af. v. hundrat. Cecilía syster hennar iij. hundrat. Jngigerdr. ij. hundrat. ef Brigith modir þeirra erbir mik eige. ella taki þeir er meiʀ þurba af minum frendum.

Ok til sannynda her um settum ver fyʀ sagder menn vaar ȷnsigle firer þetta wtskriptum er gior(t) var sunnvdaginn næsta post festum sancti Ambrosij et confessoris ȷ sogdum stad ok ære.

---

**10. 1382 — c. 1600.**

Máldagi Akrakirkju í Blönduhlíð eptir gömlum gjafabréfum og máldagaskrám.

AM. Apogr. Nr. 4103 „ex transscripto« með hendi Jóns Magnússonar bróður Árna. „Brefed er a kalfskinn med fimm Jnnsiglum," og er innsiglunum lýst — Afskript er og í Þjóðskjalasafninu, staðfest í Héraðsdal 10. Okt. 1742 af Skapta Árnasyni og Gunnlaugi Ólafssyni. Máldagi sá, sem fer hér á eptir, er samsteypa frá tímum Guðbrands biskups af máldögum Akrakirkju og gömlu gjafabréfi frá 1382 ofl. Sbr. DI, III, 398.

Þetta er mǻldage kirkiunnar ad Sydre Økrum i Blønduhlijd: epter þui sem gamlar mǻldagaskrǻr og jnnsiglud brief til votta.

J fẏrstu er kirkian æ Sẏdre Økrum i Blønduhlijd helgud gude oc enum heilaga Petro postula. Þar er sungid huorn helgann dag. skal iafnan sem messa er sungen brenna lios vmm alla messu fyrer vorar frur lijkneski. Enn firir lijkneski Peturs postula og Jons baptistæ og Jons Holabiskups skal

brenna lios vpp fra gudsspialle og fram ẏfer berging. ef einginn gleymska þionustumansins meinar. atti kirkian fẏrr meir eitt hundradz hross.

Jtem gaf Bryniulfur Bondi kirkiunni iij kẏr med þeim skilmala. ad þar skylldi lukast af fatækum mønnum árliga xij alner j kosti þrisuar. Mariumessu j føstu. skijrdag og paskadag. riettlukt i øllum mat.

þetta j fastaeign oc jtaukum er Biǫrn Bryniulfsson lagdi til kirkiunnar.

fyrst teig þann er Suidningur heiter. og liggur fyrer Økrum. med gardgiǫrd oc þerrivollum.

Jtem gaf nefndur Biǫrn Akrakirkiu smájǫrd þa er Grøf heiter. og liggur á milli Alfgeirsvalla. Kirkiuhols. og Gegnishols. er nu kallast Krẏddholl. med þui skilordi ad sambeit skẏllde vera med jǫrdunum Grøf og Gegnisholi vetur og sumar huǫrtueggiu ad skadlausu.

Jtem á Akrakirkia beit vpp i Gegnishol. þá er þǫrf beider. hundrad gamalla sauda. og þar til husstǫdu med hlǫdugiǫrd á Þorfinnsstǫdum og so vidurlijkre hvsagiǫrd á Holsgierdi vt fra bænum. og so beit. skulu og geymslumenn sagdz fienadar. kallmadur og kuinna. hafa þar friáls herberge á Gegnisholi. elldibrand. hvs og geymslu á þijngum sijnum.

med samri grein æ Akrakirkia fiárhalld. ʀegstra. beit. selfør. edur jardareign vestur vmm Lágafell og Smiǫrdali. sem profast ad Gegnisholl hafi átt motz vid Kirkiuhol Vijdimyrarjørd. og Alfgeirsvǫllu.

Jtem æ þesse kirkia gielldfiar regstur. lamba og elldra fiar. vtan gielldneyta. æ Tiarnagil slijkan sem Gegnisholl og Grøf hafa átt. Gaf adurgreinda jardareign og jtǫk til Akrakirkiu Biǫrn Bryniulfsson anno domini m. ccc. xcij. vnder vitni Lytings Hialltasonar. Einars Bǫdvarssonar. og Vigfvs Arasonar. hefur greindur Biørn j þann tijma átt þessar jarder Akra. Grǫf. Gegnishol. Velli. Midgrund. sẏdri Grund. og adrar fleire. sem á má merkia.

Jtem gaf tijttnefndur Biǫrn Bryniulfsson opthermdri Akra kirkiu þetta j ʀekum.

þria hluti i vidreka. j Basum eda Basareka. vestan framm

ấ Skaga. Enn hvalreka.þridiung vr þridiunge j halfum hual. fyrer aullum Vijkalöndum. sem þa voru suo köllud. vestur frá Hrauni til Laxar. hefur kirkian erdit eigandi þessara itaka. x. arum fyrre. en hinum. sem adur telur. þad er Anno [1382 [m. ccc. lxxxij. m. ccc. xxcij][1]).

Jtem eiga Akrar allt vpphöggvid gras med teigum sijnum á Mÿcklabæiarbockum motz vid Vijdevelli. epter þui sem til vottar Mÿcklabæiar máldage og Holadomkirkiu Registrum.

Enn eiga [Akrer[1]) skogarpart framm ấ Øxnadalsheidi. hrijs og grafagiörd vpp ad reidgötum. fram ad Kuskerpishuammi og ofan ad ármotum.

Jtem allan gielldneyta Regstur á Øxnadalsheidi fram frá Vödum til Kallbaksár.

liggur Akra kirkia til Mÿcklabæiar med tiundum og liostollum. vtan bonda og hvsfreÿo og barna þeirra.

Hafa máldaga skrőrnar og innsiglud briefin hier ad huijgandi og vm þenna fyrrskrifadann kirkiunnar máldaga vottandi. sied (og) yferlesid þeir epter skrifader menn. sem til sanns merkis þar vm hafa sijn nöfn hier vnder skrifad. og sijn innsigli festa latid fyrer þessa maldaga transcript.

Sijra Sigurdur Einarsson.
Þorbergur Hrolfsson.
Jsleifur Þorbergsson.
Kolbeinn Hialmsson.
Jon Jonsson.

---

**11. 24. Febrúar 1391. í Vík í Sæmundarhlíð.**

Rekaskrá Espihóls í Eyjafirði, þegar Bjarni Brynjólfsson seldi Benedikt Brynjólfssyni jörðina.

Eptir afskript Jóns sýslumanns Jakobssonar, gerði á skinn c. 1770—80, kominni í Þjóðskjalasafnið 28. Okt. 1916 frá Kristni prófasti Daníelssyni. Sbr. Dipl. Isl. III, Nr. 386. Þar er prentað ágrip af þessu bréfi eptir lélegri afskript, því að betra var þá ekki fyrir hendi. Hér er bréfið í frumlegu formi.

Copium af rekaskræ Stoorahools.

Ollum monnum sem þetta Bref siá eðr hejra senða

1) [þannig.

Gvðbiartr Ejulfsson. Jon Biarnarson. prestar. Biörn Brinjvlfsson. Olafur Sigurdsson. Giszur Þorbiarnarson. Benedict Giszurarson. Helgi Arnason[1]). Haraldr Audunarson oc Augmundr. . . . .[2]) q(uediu) g(udz) oc sina kunnigt giorandi at anno dominj M ccc lxxx(x)i[3]) in festum Sancte Mathie[4]) apostoli á Vik i Sæmundarhlið varo vier i hiæ. sæom oc heyrdom at Biarne[5]) Brinjulfsson selði Benedict Bónda Brinjulfssyni jördina Espehool i Eyafirdi. oc keipti Benedict B(ondi) þar med i rekum fyrir utan lanð[6]) vestr fra Biarn(ar)æ oc til Hafragiár i Senningarvik. eigor Benedict halfan fimta attung i hval. vidreka hálfañ eñ Mukar hálfañ. oc heiter þat Langareke. en vestr fra Hafragiæ til Ejrarstúfs eigor Benedict tva luti vidreka oc hvalreka. en þridiung um Ejrarstúf i hvali oc vidi. þá er fiordungr or hálfum Ejrarreka. ȷ Þorgeirsfirdi fra ose enom forna fyrir Þænglabacka oc fell hann þá fyrir vestan Daudsmansskála. er Lofftssyner átto. oc til mots vit Fiardarbotnzreka á Vallastaðr attung i hvalreka. eñ Benedict allt annad hval oc vid. en þadan ut til Torfdælar á Vallastaðr attung i hval. eñ Benedict hálfañ hval oc vid. eñ landi filgir halft at Fiarðarbotni. [eñ þadan ut til Sulna á Vallastaðr fiordung en annan Höfdamenn. eñ þá sinn fiordung hverier sagðer menn of fiörð oc fiarðarbotn . . . med Latra reka eigo nefnder menn eñ . . . . hvalreka oc þui minna af stórhvölum ef iij^c vętter ero á. eiga þá Svalbardsmenn vij fiordunga. hálft hvert spik oc rengi. eñ þui minnr sem hvalr er minni[7]). eigor Benedict allan vidreka fra Stöpum in til Fossár. en fra Fossa inn til Skridulækiar halfan vidar reka. eñ inn þadan til Ejlifsær allan vidar reka. eñ inn þadan til Refzær eigor Benedict hálfan hval oc við. fra Gunnolfzæ i Olafsfirdi oc

---

1) líklega réttara: Arason. Sbr. DI, III, Nr. 382 og 384. 2) eyða fyrir föðurnafninu. 3) Ártalið er hér Mccclxxxi (= 1381), en á að vera 1391. Sbr. DI, III, Nr. 383, 384, 386. 4) Svo rétt, og svo ætti að standa í DI, III, bls 459 neðanmálsgr. 5) Svo, og mun rétt, en ekki tilgátan í DI, III, bls. 459, neðanmálsgr. 3. Björn er hér vottr, en það sást ekki af bréfinu eins og það lá þar fyrir. 6) Hér er stryk í afskriptinni. Ekkert sýnist þó vanta. 7) [þetta vantar alt í afskript þá, sem eptir er farið í DI, III, Nr. 386.

ut til Deildarskers eigo sagðer menn allan hvalreka oc vidreka oc flutningar med öllum þessum rekum.

Oc til sannnenda her um setium ver fyrr nefnder menn vor incigli fyrir þetta bref.

Anno Mdlxxx og ux[1]) seldi Sira Þorsteirn Jllugason Benedict B(onda) Haldorssyni halfa jordina Espehool i Ejafirdi. tilskilið geldfiarganga á Gardzárdal fyrir v^c og halfur Vatnsleisuskógur fyrir v^c[2]) og þad i rekum fyrir utan land. sem hanz qvinna mátti frekaz med lögum eiga.

---

*12. 1391.

Ágrip af kaupbréfi um Meyjarhól á Svalbarðsströnd og Hróastaði í Fnjóskadal.

Máldagabók Ólafs biskups Hjaltasonar í Þjóðskjalasafninu í Reykjavík, bls. 33, og er þetta ritað með hendi Guðbrands biskups. Sbr. Dipl. Isl. III, Nr. 381.

Sualbardzkirkia og vm Meyiarhol.

Anno 1391. selur Asa Eireksdotter Sæmundi Þorsteinssyni til fullrar eignar Hol a Sualbardzstrond og Hroastadi j Hnioskadal. med ollum gognum og giædum. Þar j mote gaf Sæmundur Asu halfan þridia tug hundrada med þeim skilmala, ad hann skylldi luka kirkiunne a Sualbardi þann halfan þridia taug hundrada. oc[3]) Asa var kirkiunne skylldug j sitt gotz. þui handlagdi hun Sæmund kuittan af sogdu jarda verdi. enn hann Asu af so mýklu kirkiunnar godse.

---

*13. 31. Janúar 1399. á Ökrum.

Kaupbréf fyrir Hofi í Vatnsdal, Vatnsenda og Hálsum í Skorradal.

Bréf þetta er áðr prentað í III. bindi safns þessa sem Nr. 201, eptir stafréttri afskript af frumriti þess með ártali 1369, og jafnframt höfð hliðsjón af tveim lausari afskriptum frá 17. öld með ártali 1399. Þar með var bréfið af vangæzlu prentað með dagsetning 1. Febrúar í

1) Svo; það ætti að vera 1585, ef ekki 1588 (u mislesið eða misskrifað fyrir ii = 1588), og svo mun það vera. 2). Sbr. upphafið að Nr. 386. í DI, III. 3) Svo.

staðinn fyrir 31. Janúar. Þá voru, er bréf þetta var prentað, bréfagerðir frá því um 1400 ekki rannsakaðar svo til grunna sem síðan er orðið, og var því ekki þorað þá að víkja frá því um ártalið, er stóð í hinni harðnákvæmu afskriptinni Jóns Magnússonar (AM. Apogr. 753), sem þá lá fyrir og fylgja varð um útgáfu bréfsins. En eptir að skjöl enna næstu áratuga komu fram, hefir verið sýnt fram á það með rökum og í sambandi við önnur gögn, að tímans vegna kemr ártalið 1399 betr heim heldr en 1369 (Sýslumannaæfir IV, 381—382). Þar með hafa og feíngizt til Þjóðskjalasafnsins fyrir fáum árum tvær stafréttar og staðfestar afskriptir bréfsins eptir sjálfu frumritinu, sem ekki voru áðr kunnar. Er bréfið því prentað hér á nýjaleik eptir þeim gögnum, sem nú liggja fyrir, og eru þau þessi: *a*, transscriptum Jóns Magnússonar (bróður Árna), gert stafrétt eptir frumritinu, og staðfest af honum og Eyvindi Jónssyni (duggusmið) á Reynistað 19. Aug. 1729. Er afskript þessi mjög samhljóða þeirri afskript Jóns, sem fylgt er í DI, III, 201, og hefir ártalið 1369, eins og hún; — *b*, transscriptum Jóns Ólafssonar frá Grunnavík, einnig stafrétt eptir frumritinu, og staðfest af honum og Haldóri djákna Jónssyni á Þingeyraklaustri 29. Dec. 1746. Er það einnig mjög samhljóða transscripto Jóns Magnússonar, hefir sama ártal (1369), og um stafsetningu ber þeim fátt á milli, sem á neinu stendr. Stöku uppleysingu á skammstöfunum hjá Grunnavíkr-Jóni er hér farið eptir, sem ekki eru leystar hjá Jóni Magnússyni; — *c*, afskript frá 1653 í bréfabók Brynjólfs biskups (AM. 268. Fol., bl. 243; Landsbókasafn 1077. 4to, bls. 367—369) af transscripto þessa bréfs, gerðu við Öxará 1. Júlí 1646. Hér er ártal bréfsins skýlaust 1399, og hér er bréfið eyðulaust, og bætir þessi afskript því upp afskriptir þeirra Jónanna; — *d*, transscriptum frá 27. Júlí 1655, einnig í bréfabók Brynjólfs biskups (AM. 269. Fol. bl. 240—241; Landsb. 1078. 4to bls. 431—433) af transscripto frá 1. Júlí 1646, og er auðvitað ekkert á henni að græða, en ártalið er hér svo misritað, að úr því verðr „þúsund þrjú hundruð XI (= ellefu, fyrir: IX) tigir og níu," eða 1419. — Afskriptirnar af transskriptinu frá 1. Júlí 1646 eru miklu lakari í heild sinni en afskriptir þeirra Jóna, en hafa það til síns ágætis, að þær eru komnar frá frumritinu á meðan það var enn heilt og allæst. Þegar Jón Magnússon skrifaði eptir frumritinu 83 árum síðar hefir það verið orðið skemt og ártalið gallað, og vitanlega ekki betra 100 árum seinna, þegar Jón Grunnvíkingr skrifaði bréfið upp. En alt sýnist frá einu og sama frumriti komið.

[Kaupbref[1]) fyrer [Hofe i Vatnsdal[2]). [[Vatnsenda [og Hälsum[3]) ] Skorradal[4]). 1399[5]).

Þeim godum monnum sæm þetta bref sæa ædr[6]) hæyra

1) [Copium af KaupBrefe c. 2) [*b*; sl. *cd*. 3) [*d*; sl. c. 4) [[sl. *b*; *a* sleppir allri fyrirsögninni. 5) *b* eitt hefir ártalið, og ritar það „1369." 6) æda *b*.

sænda Solmundr prestr Jonsson. Ormr Kætilsson. Hælghi Hælghason. Gudmundr Þorstæinsson. Jon Vilhialmsson. Arnghæir Sigurdarson qvedio guds ok sina kunnight gerandi ath þa ær lidit var fra hinghat burd vors herra Ihesu Christi þushundrat þriu hundrut ix[1]) tigir ok niu ar in profesto Brigide virginis a Okrum a Myrum vorum ver j hia. sam ok hæyrdum vppa ath Snorri Thorfason sællde Joni Jonssyni jordina at Hofi j Vatzdal med ollum þæim gôghnum ok gædum sæm jôrdinni hafa fylght at fornu ok nyiu ok hann vard fræmst æighandi at. her j moti gaf adr nefndr Jon fyrr næfndum Snorra tuær jardir j Skorradal ær suo hæita Vatzændir ok Halsar medh ollum þæim gôghnum ok gædum sæm þessum jôrdum hafa fylght ath fornu ok nyiu. ok hann varð[2]) fræmzt æighandi at. jtem skogh ær liggr [j millum[3]) Griotgils[4]) ok Arnarlækiar[5]) fyrir sunnan Skorradalsvatn ok[6]) æinn hæst. skildi opt næfndr Snorri æ fyrgræindan Jon ath hann skylldi suara ôllum kirkiu spællum æf nockor[7]) hæfde æ vordit siðan[8]) Þorny Guduardzdottir vard æighandi at jordinni[9]) ok hann. Suo ok skylldi Snorri suara þuilikum spællum sæm æ hæfdi vordit bænhusinu æ Vatzænda ok þui sæm þi[10]) til hæyrdi jnnan sigh. kŷnni [nockurar laghariptinghar[11]) at[12]) koma vpp æ þessar fyrsaghdar jardir þa skylldi huor vm sigh hallda þæim til lagha. æn huer sæm brighdazt kynni med lôghum ædr nôckut af þæim. þa skylldi huór ganga aptr at þeirri jôrdu sæm adr hafdi[13]) ætt. Samþyckti Gudrun Styrsdotter husfru Snorra þetta kaup. kændizt[14]) ok Þornŷ Gudvardzdotter ath hun hæfdi sællt þrattnæfnda jôrd ath Hofi sôghdum Snorra æptir þui sæm þar vm gert bref vóttar. Reiknadi Snorri ath jordin ath Hofi ætti þessi jtôk j adrar jardir. torfskurd j Brusastada jord og Gislstada[15]) jôrd halfan huôrt æptir þui sæm sa þarf sæm ath Hofi bŷrr. jtem sælfor ŷfir æ Mula-

---

1) *c*; xi(!) *d*; vi, *a*, *b*. 2) *b*, *c*, *d*; var, *a*. 3) [mille, *d*. 4) Grotgilz(!), *d*. 5) [*c*, *d*; eyða í *a*, *b*. 6) *b*, *c*, *d*; j, *a*. 7) *b*; nôckr *a*. 8) *b*; sidan *a*. 9) — unni *b*. 10) Svo *a*, *b*. 11) [*a*, *c*, *d*; nockur laghariptingh. *b*. 12) b. v. b. 13) hefdi *b*. 14) kænndiz *a*. 15) *a*, *b*; Gilstada *c*, *d*.

vatzheidi til[1]) Hafavæggia ok æinghitæigh ȷ Knuks ȷördu ok ræit[2]) ȷ Saudadal. Saghdi ok Jon ath Vatzændir ætti æinghi þat sem Orla[3]) hætir ok liggr medh kirkiuæinghi a Huanneyri. Jtem skogh[4]) ȷ nædra Suangha ok krokshaulld tuô a Mörsvambarridi. ȷtem ath Halsar ætti tuau æinghi ȷ Skæliabrækku ȷordu hinni æÿstri. Ok til sanninda her vm sættu[5]) fyr[6]) næfndir mænn sin ȷnzsighli fyrir þetta kaupbref. skrifath ȷ stad. dæghi ok ari sæm fyrr[6]) sæghir.

Þad medkennum vid vnderskrifader ad vid höfum sied og yferlesed suo latandi Bref med fiőrum ȷnnsiglum sem hier fyrir ofañ skrifad er. til merkis ockar nofn hier vnder skrifud vid Oxara þann 1 Julij 1646.

(Vnderskrifud nofn)

Arne Teitsson Eh. Gȷjsle Olafsson Eh[7]).

Þetta er ordriett skriffad effter handskrifftudu Brefi af Arna Teitzsyni og Gijsla Olaffsyni. til merkiz ockar noffn er saman lǻsum. Skalhollti 1655. 27 Julii.

Þorleiffur Arnason m. e. h. Oddur Eiolfsson meh[8]).

Wid underskrifader höfum sied og yferlesed fimm gömul bref[9]) ǻ kalfskinn, so hliődande ord fyrer ord sem framan og ofan skrifad stendur, ad öllu þvi leite sem vid gǻtum lesed. Voru sum ȷnnsigle fra brotiñ, enn sum epter. Þetta vitnum vid med ockar Eigin handskrifftudum nöfnum ad Reinestad, þann. 19. Augusti, Anno 1729.

Jon Magnusson Eivindur Jonsson.[10]

Ad þetta Document sie ordriett űtskrifad epter sijnum Original, sem er ǻ kǻlfskinn, med sex hǻngande ȷnnsiglum, af hverium þriu eru ősködduð, (fÿrer utan þǻ Eÿdu, sem er nær midiu Brefenu fÿr nockrum ordum,

1) og *c*, *d*. 2) ræтt, *b* (= rétt). 3) *a*; æyr-lá *b*; æla. *c*, *d*. 4) *b*; skog *a*. 5) sætti *b*. 6) Svo *a*, *b*. 7) Þetta er vottorðið í *c*. 8) Vottorðið í *d*. 9) Auk þessa bréfs eru í þessu transscripto Dipl. Isl. IV, Nr. 372; V, Nr. 196 og 684; IX, Nr. 500. 10) Þetta er vottorðið í *a*.

sem ei urdu leseñ i Originalen, er i þeim stad var roteñ, enn ad ôllu ôdru vel læselegur) vitnum vid underskrifader, sem þetta bref vid fÿrrnefndañ Orginal med adgiætne saman lđsum, ad ÞijngEyra Claustre, þann 29da Decembris, Anno 1746.

Jőn Olafsson SS. Theol. & Antiqtt. Studiosus. (L. S)

Halldor Jonsson Diakni til ÞingEÿra Clausturs. (L. S.)

Lesid fyri manntalsþingsrétti á Breidabólstad þann 23. Jun. 1812, en mótmælt af administratore B. Olsen ad þvi leiti sem umtaladañ Torfskurd snertir — testerar.

S. Snorrason.

---

14. fyrir 1400.

Bréfságrip um sölvareiðslu úr Saurbæjarfjöru til Hjarðarholts í Laxárdal.

Visitazía Brynjólfs biskups í Hjarðarholti í Laxárdal 18. Sept. 1639. — Skýrsla um Þjóðskjalasafnið, Rvík 1917, bls. 131, 133—135. — Þetta ítak um sölvareiðslu (= sölvareitslu) í Saurbæjarfjöru hefir ekki komizt inn í neina máldaga Hjarðarholtskirkju fyrri en Brynjólfur biskup rakst á þetta bréf. — Saurbæjarfjara hefir verið metin út af fyrir sig til dýrleika svo sem sérstök eign. Af því að „Saurbæjarfjara“ hefir á 14. og 15. öld sýnilega verið bæði í eigu Vatnsfjarðar- og Skarðsmanna, og svo í eigu niðja Guðmundar ríka Arasonar, eða Saurbæjarmanna á Rauðasandi, hefir mönnum verið nokkur vafi á, hvort Saurbæjarfjara sú, sem opt er nefnd í máldögum, væri heldur fjara, er kend væri við Saurbæ á Rauðasandi, eða fjara sú, sem liggur fyrir Saurbænum í Dalasýslu[1]). Í skiptum eptir Kristínu Björnsdóttur 1458 er Saurbæjarfjara talin xx hundruð að dýrleika[2]). Hefir Björn sonr hennar hlotið fjöruna, að eign eptir móður sína. Þó er svo að sjá, að þetta hafi ekki verið nema hálf fjaran, og hafi hún því öll verið xl hundruð eða meira, því að í skiptunum eptir Björn 23. Okt. 1467 er að eins „hálf „Saurbæjarfjara“ talin eign búsins[3]) Slíkt hið sama er og gert í skiptum eptir Ólöfu Loptsdóttur 15. Apr. 1480[4]), og hrepti hana þá Einar Björnsson. En alveg samtímis (c. 1479) er talið, að Solveig Þorleifsdóttir eigi „í Saurbæjarfjöru xx hundruð“[5]).

1) Sbr. registur við VI. og VII. bindi Fornbréfasafns. 2) Dipl. Isl. V, Nr. 149 (bls. 163). 3) DI, V, Nr. 441 (bls. 500). 4) DI, VI, Nr. 240 (bls. 255). 5) Dipl. Isl. VI, Nr. 197 (bls. 198).

Og rétt um sama leyti er Andrés Guðmundsson einn af eigendum fjörunnar, því að 2. Dec. 1481 gefr hann kirkjunum á *Felli í Kollafirði, í Stóraskógi* og á *Brekku í Hvolsdal* „sex manna íferð í Saurbæjarfjöru," og ítrekar að nokkru leyti þá gjöf 10. Ágúst 1494[1]). Á síðara hluta 14. aldar hefir Ormr lögmaðr Snorrason verið einn af aðaleigendum fjörunnar, og gjöf hans um fjöruna til *Hjarðarholts* mun án efa gerð, eptir að Jón langr Ormsson, sonr hans, var orðinn þar prestr, og líklega eptir 1397, úr því að gjafarinnar er ógetið í Vilchinsbók. En auk þessa átti fjöldi kirkna ítak í Saurbæjarfjöru. 27. Sept 1327 og síðan átti *Sælingsdalstungu*kirkja þangað „xij manna" íferð[2]). Í Jóns máldaga skalla 1360 á *Mel í Miðfirði* segir svo: „Ormr Snorrason gaf tveggja manna íferð í Saurbæjarfjöru," sem eykst í „þriggja" manna íferð í Ólafs máldaga Rögnvaldssonar 1461 og i Sigurðarregistri 1525[3]). 1363 og síðan átti *Staðarkirkja á Reykjanesi* „þriggja manna íferð" í fjöruna[4]). 1401 og síðan átti *Skarðskirkja á Skarðsströnd* „iiij og xx manna íferð í Saurbæjarfjöru"[5]), og hefir Ormr Snorrason án efa gefið henni það ítak. Í máldaga einum frá dögum Stefáns biskups (1491—1518) er *Búðardalskirkju á* Skarðsströnd talin „sex manna íferð í Saurbæjarfjöru"[6]). Um eða litlu eptir 1495 á *Staðarhólskirkja* í Saurbæ „fjögurra manna og xx íferð í Saurbæjarfjöru"[7]) eða jafnt og Skarðskirkja. Þá á *Holt í Saurbæ* 1523 „xij manna íferð" í fjöruna[8]). Alls hafa því á þessum öldum 10 kirkjur átt ítak í Saurbæjarfjöru til sölvatekju. Og getr, þegar alt er rannsakað, hér ekki um aðra fjöru verið að ræða en þá, sem liggr fyrir Saurbænum í Dalasýslu. Þar er einmitt snemma á öldum getið um sölvanám, að vísu nálægt 1148[9]). Og til Saurbæjar liggja hinar svo nefndu *Sölvamannagötur.*

Giaffabreff Orms heitens Snorrasonar med ȷnsigle uppa fi[mm] manna ȷferd til sölffareidslu i Saurbæiarfiöru.

[Þetta bréf er nú glatað, og hefir verið glatað fyrir daga Árna Magnússonar].

---

15. 1405.

31. December 1622. á Hólum.

Máldagi Miklabæjarkirkju í Blönduhlíð í transscripto Guðbrands biskups og þriggja manna annara.

---

1) DI, VI, Nr. 375; VII, Nr. 281; sbr. IX, Nr. 170 (bls. 196). 2) DI, II, Nr. 383; IV, Nr. 334; V, Nr. 92; VII, Nr. 137. 3) DI, III, bls. 166, 535; V, bls. 338; IX, bls. 326. 4) DI, III, bls. 196; IV, bls. 156; V, bls. 591. 5) DI, III, bls. 657; VII, Nr. 144 (bls. 74). 6) DI, VII, bls. 73. 7) DI, VII, Nr. 332 bls. 288). 8) DI, IX, Nr. 169 (bls. 195). 9) Sturl Oxf. I, 42; Kålunds útg. I, 56.

Frumritað transscriptum á skinni í Þjóðskjalasafninu, komið frá Miklabæjarkirkju 25. Sept. 1903. Öll (4) innsiglin eru dottin frá. Transscriptum þetta er gert meðan frumritið að máldagabók Péturs biskups var enn til á Hólum, og er skjal þetta hér sumsstaðar lesið betr en í uppskriptum þeim síðar frá 17. öld, sem nú eru til af máldagabókinni. Sbr. Dipl. Isl. III, bls. 564—566.

Anno domini ꝏ° qvadringentesimo qvinto var þesse kirkivnnar eign a Myklabæ j Blonduhlijd er Hoskolldur prestur Hakonarson tok med.

j fyrstu er þar[1]) Olafz kirkia. a hun allt heimaland er Þoruardur prestur Grimsson gaf med þessum vmmerkium ad landfall ʀædur fyrir sunnan oc geingur hagagardur ofan vr fialle fyrir vtan Vidiuallagierde oc ʀiettsyni yfir j Raudaskridu sudur fra Arnarbergi stendur steirn a melnum vppi fyrir ofan skriduna so vt til þuergarda oc vpp ad Akraslýum. Rædur þa akbraut vtan til modz vit Mosagrund. eiga hier j vpphogguid graz med teigum sijnum Akrar oc Videveller. fiskveide j Jokulza æ Ꝋyklabæar kirkia alla med Krosse j Holme. þa sem er eda verda kann. oc til modz vidur Reyke. hrijs a Øxnadalsheide fra fiallz enda fyrir ofan ʀeidgotur oc fram̃ til Griothryggz til modz vidur Videvollu. Krossland hálft fyrir framan Valagilzá oc til Seliadalzar. nauta ʀekstur mille Krakuær oc Kallbakzær mille Reidslugilz oc Griotar.

hualreka a Skaga mille Holknár oc Fornuvarar ij hlute vr þridiunge enn vestur þadan til Deilldarhamarz halfu minna. enn suo skal hual deila ad landzhluta skal skipta j þridiunga. tekur eirn þridiung Holastadur. annañ þridiung Flatatunga oc Holastadur. hinum þridia þridiungi skal skipta j þria stade. skal ij hluti þess þridiungz taka Myklabæarmenn. enn hinn þridia þeir sem eiga. enn vestur fra Fornovor oc til Deilldarhamarz þa eiga þesser menn halfu minna.

Þetta j vidrekum nordur fra læk þeim er fellur ofan fra bænum Kiellduvijk j siő oc til þess jardkross. er sudur er fræ bænum Þangskala. stendur þar oc steirn mikill j fiőrunne jafngiegnt jardkrossinum.

hier lijggur vnder Akra kirkia med tijundum oc lios-

1) þad, transscr.

tollum vtan bonda oc hvsfreyu oc barna þeirra. tekur prestur þar fiorar merkur. sungid huorn dag helgan.

Bænhvs fimm. j Solheimum oc Midskytiu. j Dal og Vallholltum tveimur med forne skylld half mork af huoriu. fylgd med veturmessum enn eigi med sumarsong.

tijunder. liostollar oc heytollur af viij bæum.

[kirkian a Myklabæ beneficium. hun a eydekot a Skaga. heiter Backe[1]).

Vier epter skrifader menn Gudbrandur Thorlakzson biskup a Hőlum. Þorbergur Asmundzson kirkiuprestur. Þorkiell Gamlason Hola rádzmadur oc Jon Jonsson hofvm sied oc yfer lesid Myklabæiar kirkiu maldaga j Holadomkirkiu maldagabok so hliodande ord epter ord sem hier fyrir ofan skrifadur stendur. Oc til sanninda hier vm setium vier vor Jnnsigle fyrir þessa maldagz[2]) copiu er skrifud var a Holum j Hialltadal þann sijdasta dag þess árz er skrifadist fra Christi hingad fædingu 1622.

Upplesed fyrer Rettenum, a Sidre Økrum, ad settu Manntalsþijngi, þann 4 Maij 1735 Testerar

Jens Madssen Spendrup.

Upplesed og Protocolleret fyrer Manntalsþings Rettenum a Skievilstodum a Skaga þann 26 Aprilis Anno 1738 Testerar

Skule Magnusson.

[Upplesed og uppaskrifad fyrer Manntalsþings Rette ad Aukrum Dag 16da Maji 1767 Testerar

J. Snorrason[3]).

---

**16. 1. September 1408. á Breiðabólstað.**

**„Gjörningr“ um máldaga og landamerki Möðrudals á Fjalli.**

Eptir málsakt i skjalasafni Landsyfirdómsins frá 1891—92 í landamerkjamáli milli Möðrudals og Arnórsstaða á Jökulsdal. — Þetta bréf

1) [Þetta stendr ekki í máldagabók Pétrs biskups. 2) Svo. 3) [Illa máð, og að sumu leyti óvíst.

er að öllu formi og orðalagi *falsbréf*. Mannanöfn eru og mörg varasöm, þó að nafn biskupsins geti staðið heima við tímann (Jón biskup frá Munklífi 1406—1413). Sbr. DI, IX, Nr. 525.

A Egidıjus messudag ad Breidabolstad i Fliotshlid voru tilstadar ad sofeldum giörningi a alminn(e)legri Presta Stefnu offisıjalis Skaulholtz Stadar umdæmiss a Austfiördum Þorarin prestur Jonsson[1]) i umbodi Jons Biskups i Skaulholti er veitt(e) messudiakn Olafe J[onssyni stad]inn[2]) Mödrudal [æ] fialle med öllum . . . . . . skilrikum . . . . . . xxxvjc fasta [eign. M]ariu kirkia þar og H(eilags) Peturs Apost[oli æ] alt heimaLand med gögnum og giædum. Hun a alt Egg-Varp og Dún m[illu]m̃ Vatnsleisana fyrir nedan̄ Grimstade. Skogarpart i Vidivalla m[erki]um̃ ęnum fremrum og Sturlafleti millum̃ Læk(i)a tveggia og kallast Peturstunga. Þad skilur Land millum Mödrudals og Bustarfells og so i Læk þan̄ sem fellur i Krokunum i Holkna til Hofsar. sionhending i Eikarnipu[1]). allann Gestreidar Hals austur til Þrıjvördu. Halft Sænautavatn [mot þesser[3]) adrir menn eiga Lönd i moti þangad sem heita Bruardrættir. og a Hestleid a Þrıjhirnings fiallgard til Þrıjvördu og beint i Jökulsa. (Enn) fremur a kirkian vij hrossa gaungu yfir um Jökulsa og taka ęıj folöld undann. Omerkinga alla i Herdubreidstungum[1]). tolf trogsödla högg i Skaptafel(l)s skog[4]) og en̄fremur Skogarhögg i Sturlaflatar Skogie. (enn) fremur eiga Kiolstadir fiögra Hrossa gaungu um Arnardal og gialdi þar firir Mödrudals kirkiu xx alnir.

Af stadnum skal messudiakne Olafur Jonsson gialda Skaulholtsstadar umbodsmanni xv fiordunga arlega i Smiörum og standa þar fyrir fullann Reikning.

Egidıjus Messudag (a) Breidabolstad i Fliotshlıjd.
Offıjsialis Þorarin prestr Andrésson[1])
Ar(um) ęftir Krists Burd Mccccviij.
Jon Prestur Eıjgilsson.
Oddur Prestur Jonsson.
Gudmundur Prestur Þorsteinsson.

1) Svo. 2) . . . um̃, afskr. 3) [Svo. 4) Þetta ítak er og talið i Gíslamáldaga.

Jon prestur Wygfusson.
Hallur prestur Ormsson.
Gudmundur prestur Stygsson.

Framlagður í aukarétti Norður-Múlasýslu 18. September 1885.

Einar Thorlacius.

---

***17. 5. Mai 1424. á Móbergi.**

Vitnisburðr um torfskurð frá Hofi í Vatnsdal i Brúsastaðajörð.

Eptir tveim transscriptis á pappír meðal Hofsskjala i Vatnsdal í Þjóðskjalasafninu i Reykjavík, sem hvortveggja eru gerð beint eptir frumritinu á kálfskinni: *a*, transscriptum með hendi Grunnavíkr-Jóns, gert á Þingeyrum 29. Dec. 1746, og er bréfið þar lesið skallalaust orði til orðs; *b*, transscriptum með hendi Jóns Magnússonar (bróður Árna), og staðfest af honum og Eyvindi Jónssyni (duggusmið) á Reynistað 19. Aug. 1729, og er sú afskript nákvæmlega eins, og með sömu sköllum og mislestrum, og sú afskript Jóns frá sama ári í safni Árna Magnússonar (Apogr. 755), sem bréf þetta er prentað eptir i Dipl. Isl. IV, 372.

Vitnisburder um Torfskurd frá Hofe í Vatnsdal 1424[1])

Ollum mönnum þeim sem þetta brief sia eda[2]) hæÿra[3]) sender Jon Jonsson kongs um̄bodsmadr[4]) Hunauazþingi kuediu guds ok sina. kunnigt[5]) [giorande at ek kenniz[6]) med þessu minu brefi[7]). at Þorsteinn[8]) Sveinsson[9]) ok [Einar Ketilsson[10]) sóro[11]) firer[12]) mier j Ase a[13]) almennelegu[14]) þingi[15]) ad hafdr hefdi verit torfskurdr fra Hofi[16]) i Uazdal[17]). [fyrir utan ána[18]) i Brűsastada land[19]) sua þeir uissu[20]). ok þa fann eingi ad sua þeir heÿrdu Og til sanninda hier um̄ settu þeir sin inzigli med minu firir þetta brief. giort a[21]) Mobergi i

---

1) *a*; sl. *b*. 2) edr *b*. 3) heyra *b*. 4) umb — *b*. 5) kunigt *b*. 6) [*a*; giora . . . . oss kader!) *b*. 7) *a*; briefi *b*. 8) — stein *b*. 9) *a*; Sigursson *b*. 10) [*a*; arnar kertnsson(!) *b*. 11) *a*; sor *b*. 12) *a*; firir *b*. 13) b. v.; sl. *a*, *b*. 14) all — b. 15) *b*; þijngi *a*. 16) *b*; Hovi *a*. 17) *b*; Vaz- *a*. 18) [*a*; eyða i *b*. 19) iord *b*. 20) *b*.; vissu *a*. 21) ad *b*.

Lángadal. fostudag næsta epter kossmesso á vorit. þá er lidit var fra hollgan Ihesu[1]) Christi þushundrat fiögur hundrat tuttugu uetr[2]) ok fiögur ær.

Ad framanskrifad sie samhliöda sijnum Original (sem er á kálfskinn, og sýnelegt er, ad hefur haft þriu hángande jnnsigle) Testera underskrifader, sem samanlásu, ad Þijngeyra Claustri, þann 29da Decembris, Anno 1746.

Jon Olafsson SS. Theol &. Antiqitt. Studiosus. (L. S.)

Halldor Jonsson Diakne til ÞingeyraClausturs. (L. S.)

Lesid fyrer manntalsþingsrétte ad Breidabólstad þann 23. Junii 1812, en mótmælt af administrator B. Olsen ad þvi leiti Torfskurdinn snertir testerar.

S. Snorrason.

---

18. **1. November 1441. á Möðruvöllum.**
**14. Febrúar(?) 1442. í Arnbjargarbrekku.**

Brandr Halldórsson selr, með samþykki Rögnu Rafnsdóttur konu sinnar, Þorsteini Þorsteinssyni jörðina Ós í Hörgárdal, en Þorsteinn geldr á móti, með samþykki Margrétar Runólfsdóttur konu sinnar, jörðina Yztuvík í Laufássþingum og þar til tíu kugildi og fimm hundruð ófríð.

Eptir afskript síra Þórarins Kristjánssonar, gerðri stafrétt eptir sködduðu frumriti á skinni, og sendri Jóni Sigurðssyni með bréfi dagsettu á Stað í Hrútafirði 28. Júlí 1847. En frumritið var úr eigu Jóns ríka Sigurðssonar á Böggvistöðum (d. 1846).

. . . . . . kuediu guds oc sina kunigt gerandi at þa er lidit war fra hingat burd [wars] herra jhesu christi þushundrut ara fiogur hundrut fiorer tiger ok eitt ar. a allr[a heilagra] messvdag a maudruuollum j horgardal warum wær j hia sæm ok heyrdum a [ord ok handa]band þeirra brandz halldorssonar ok þorsteins þorsteinssonar suo fyrir skilldu kau[pi at greindur] brandr selldi þorsteini jordina alla at osi er liggur j horgardal j modru[ualla kirkiu sokn] med samþycki Rognu Rafnsdot(t)ur konu sinar. her j mott gaf þorsteinn jordina

---

1) jhesu *b*. 2) *b*; vetr *a*.

alla ȷ ýztu vik er ligur ȷ laufas kirkiu sokn. selldi huar þeirra nem[ndar bædar] ȷardirnar med ollum þeim gognum ok gædum sem þeir woru fremzt eigandi at [ordner. at fra skilldum] þeim skogarparti er þorsteinn hafdi fýr sellt steinmodi hoskulldzsyn[e. gaf greindur] þorsteinn nefndum brandi ȷ millum greindra ȷarda tíu kugilldi. luka á næ[stum fardogum.] ok fim hundrut ófrid.

samþyckti margrett runolfsdot(t)er kona þor[steins þessi jarda]kaup ok wpp lagdi mala sinn vr ȷordune ȷ ýztu vik.

Skilldi huarr [ædur] nefndra manna brandur ok þorsteinn hallda [þeirre] ȷordu til laga er keýpt [hafdi. en sá] abýrgiaz laga ʀiptingar er sellt hafdi.

Ok til sanneyñda (her) wm settum [wær fyrr] nefndir menn war ȷnzsigli firir þetta ȷardakaupabref skrifat ȷ arñbi[argarbrecku] ȷ horgardal in festo sancte vttiñi[1]) martyris aıi sidar en fyr segir.

---

19. [um 1451].

Skrá um landskyldargjald af Vestmannaeyjum í tíð Torfa hirðstjóra Arasonar.

Bergsbók 1. Fol, meðal íslenzkra skinnbóka í Ríkisbókasafni Svía í Stokkhólmi, ritað neðst á bl. 1 recto, með skript, sem sambýðr því, að hún sé frá c. 1450—60. Á undan eru Ólafsvísur með annari hendi lakari. — Það fer saman, að Torfi Arason, sem varð hirðstjóri 1450, hafði Vestmannaeyjar að léni[2]) og að hann andaðist í Björgvin 1459 síðla sumars[3]). Kennir þetta mönnum því það, að Torfi hirðstjóri hafi á sinni tíð átt þessa miklu og fallegu skinnbók, sem rituð er á Íslandi skömmu fyrir 1400, að talið er, og að hann hafi haft hana með sér til ánægju á ferð sinni, og síðan hafi hún einhvern veginn orðið eptir í Björgvin af honum dauðum[4]). Síðan var þessi bók í einstakra manna eigu í Noregi alt þangað til 1678, að J. G. Sparfwenfelt náði í hana til eignar, og var bókin þá í Skíðunni. Skömmu eptir 1500 og síðar á 16. öldinni var hún nokkuð notuð af fræðimönnum, og er svo talið, að það sé hún, sem þeir nefna „Biscop Isslleffs, Ares och Biscop Biörns gamle norske krönicke."

---

1) Svo afskr. síra Þórarins. Kynni eiga að merkja að réttu lagi: Valentini. 2) DI, III, 771; VI., Nr. 152. 3) Sbr. DI, V, Nr. 175. 4) Á svipaðan hátt er ekki ólíklegt, að ýmislegt af þeim gömlu íslenzku handritum hafi borizt til Noregs, sem nú eru margar leifar af í Ríkisskjalasafni Norðmanna.

Árið 1589 er stórættaðr maðr, Jón Guðnason, Eiríkssonar, Torfasonar frá Klofa, dæmdr á Alþingi útlægr af landinu um víg, en árið eptir kom hann út með landsvistarbréf[1]). Þenna útlegðarvetr 1589—1590 hefir hann verið í Noregi, og hefir þá hizt svo á, að Bergsbók hefir orðið á vegi hans. Ber hún víða hans merki, og er mart ritað á spássíur og spjöld Bergsbókar, bæði af Jóni og öðrum, svo sem það, er nú fer eptir:

Innan á spjaldinu (á pappír) fremra, er þetta ritað með 16. aldar hendi (Jóns Guðnasonar):

Mín er snillin mjög svo hljóð.
mega það allir skilja,
að færa nokkurn fróðan óð
falda þolls[2]) að vilja.
Þetta er lát, mín þiljan kát,
að þeinkja á sónar smíði,
mæða svo[3]) mig, mín merkilig,
en mætrar fá eigi prýði.
Sæmdin blíð, mín silkihlíð,
sé yður nær á hverri stund,
gæfan hrein, mín gullaz rein,
yður gagnist alt með lukku, sprund.

Vísurnar eru með norsku-bjöguðum ritshætti.

Bl. 2v. í skb. með 16. aldar hendi Jóns Guðnasonar:
Hielp[4]) gud suo Eg nu kinni
þu edle skapari minn
Eg lofa þig medt[5] hiertta og sinne
fyrir guddoms kraptthinn þinn
suo gladliga jeg þad upp bijria vil
um[6] þina nad ath sijngia
o herra gud hielp mier þar thill.

Þessi vísa er einnig með íslenzkri 16. aldar hendi innan á eptra spjaldi (á pappír) = *b*.

Bl. 23r. ísl. 16. aldar hönd:
hielp gud. Nv Ęru naumar Sthunder Gotth folk sem þier withid wel sialfur Besth j allañ Matha Gud gu
Bijarne O.ts.

Bl. 99v. Johñ Gudna son (16. öld).

Bl. 143r. Johann Gudnaſenn Jſlennder
medt Ęgenn Hanndt. (16. öld, hálfskafið út).

1) Alþingisbækur II, 139—141, 172. 2) Svo. 3) saa, hdr. 4) Hialp *b*. 5) sl. *b*. 6) *b* hættir hér.

Bl. 154v. Þettha ma jeg minnasth om suoddan klogumal.
Johann Gunderſsônn Jslender
Egenn Handt.

Er þetta ritað við kapit.: „Af Eymundi lögmanni Gauta."

Bl. 158r. Grimerus Simundſsenn
medt Egen handt. (16. öld).

Á eptra spjaldi að innan (á pappír 16. öld):

Quid genus affectas vitam mortale perennem
Quum sis momento Bulla caduca breui
Diuina hümanos mens est infusa per artus
Cogitet ut spreto facta superna solo
Si deus est animus nobis vtt carmina dicunt
Hic tibi precipuæ[1]) jn pura mennte colendus
Plus vigela[1]) semper nec somno deditus esto
Nam diuturna quies diciis alimenta ministrat.
Barderus Nicolai
propria manu.

Þá er þetta með 16. aldar fljótaskript:

Thill wilge och thiennistuenligheidt
Øſser icg aff mod och sinnde.
Som ieg haffuer lerdt aff theckeligheidt
Thill thacke minn hug ath sende
Effther som thet seg aff rette bôr
Lougligen nogenn mand ath thienne
Biuder ieg mig thill som thet seg hôr.

Og enn með hendi Jóns Guðnasonar:

Denne Bogh Er schriffuit i Norgis Rige, aff ehn hæder
Bergh aabett. Neppelighenn skall findis saadenn Histori
Bogh her neer till stede.
Johann
Gunderſsônn Jslender
Egenn Hanndtt.

Sbr. Dipl. Isl. III, bls. 771; VIII, Nr. 152.

Jn primiss. lest ȷ hofn.
lest ἀ ofanleite.
lest hia ȷone waldasyne oc halsteine.
half lest hia ellende.
half lest hia kat(le).
fiogur hundrud[2]) hia helga.
halft[3]) annat. c. hia sira þorlake.

1) Svo. 2) óljóst. 3) hialft, skb.

þriv. c. hia jone þorkelssyne.
c af dolum.
c. af steinstodum.
halft annat (c.) hia jone[1] gudlavgssyne.
tvo .c. hia kolbeine.
jj. c. hia magnuse oc xxxxxx[2]) betur.
c. hia fvsinvsyne[3]) oc xx[2]) betur.
c. hia kutzsyne[3]).
xij fiska hia fusinvsyne[3]).

---

*20. 1454.
23. Mai 1622. í Hofteigi.

Máldagi kirkjunnar í Hofteigi á Jökulsdal.

Frumritað transscriptum á skinni meðal Hofteigsskjala í Þjóðskjalasafninu. Öll (6) innsiglin eru dottin frá. Sbr. Dipl. Isl. V, Nr. 116.

Hoftejgs kirkia er helgud Mariu Gudz modur.

hun æ heimaland alltt. itǫlulaust. mille Tejgarár. og j vatnzgrőfina. sem er vpp af Strakavade. sem kǫllud er Markgrőf. og vpp þadañ riettsýnis j ős þriggia lækia. oc so þadan til votnum hallar. oc so frañ j Sandfell. oc i Tejgaræ. og so j Jǫkulsǻ. Selfǫr ǻ Grőfarsel. allañ skőg millum Brvarkelldu. og j lækinn fyrir vtañ Gejthűs.

Jtem allañ skőg mille Atlalækiar og Teijgarǻr. nauta lim oc legg vndañ. fra Holgerdislæk oc j Hvsǻ.

Jtem alla Arnorstada jǫrd. mille þessara vim̃erkia. fra Hnuksæ. oc j Gilsǻ. oc űr siǫunda Gijlsár bug. oc j Skialldklofa. og so j ősinn. sem Lǫnguhlijdarlækur keinur j ǫnnur vǫtn. oc so j Eyktarnipu. oc þadan til vǫtnum hallar. oc frañ j Sandvpsernar fýrer nordan Arnorzstada sel. oc so j Lǫnguhlijdar enda. alltt Hnvkzvatn j Hnuksæ og so j Jǫkulsǻ.

Jtem land fyrer austañ æ. fra Valagile oc j lækinn fyrer vtañ Asgeirsmerke.

Jtem allañ reka fyrer Purkufelle a Vopnafiardarstrǫnd. mille Fvluvijkurkambs. oc j Strandhafnaræ.

1) óljóst. 2) Svo. 3) verðr ekki lesið öðru vísi.

Jtem þridiung j vidum og hual fyrer Hamundarstǫdum. fra Tangahorne vtañ. oc til fram̃ koma Huammshvs.

Jtem iiij kluckur. tuenn messoklæde. kalejk lijtinn brakadañ. ij merke. Mariulijkneske.

Anno 1454.

Suo lãtande mãldaga. sem hier fyrer ofañ skrifadur stendur. sãum vier epter skrifader menn. a lijtille kirkiubok j Hoftejge. ord fyrer ord Anno 1622 23 Maij.

| | |
|---|---|
| Olafur p. Einarsson. | Gysle p. Þorbiarnarson. |
| Solfe p. Gotskalksson. | Eirekur Styrbiornsson. |
| Einar Styrbiornsson. | Hialmar Þorsteinsson. |

og hier vppã setium vier vor jnnsigle hier fyrer nedan.

Lagður fram í aukarétti Norður-Múlasýslu 18. Septbr. 1885.

Einar Thorlacius.

---

21. 1461. á Ósi.

Vitnisburðr um landeign Þaralátrsfjarðar í Grunnavík.

ÍBfél. Khd. 439. 4to, bls. 430, með hendi Sighvats Gr. Borgfirðings c. 1873—74. — Bréf þetta sýnist vera *falsbréf*.

Þad giorum vid Gisli Biarnason og Eirikur Jonsson kunnigt med þessum ockrum[1]) vitnisburdi. ad frã þeim tima er vid höfum first heirt þã hafi[2]) verid land i Þaralatursfirdi. land[2]) alt frã Snodswrd hid ytra og alt i Þorbiargarvik. og hefir þad land verid notad og brũkad[2]) frã þeirri jörd ãtolulavst þad sem ellstv menn muna. svo og var þad sagt er Oddr bondi[3]) ãtti þã jaurd ad engi agreiningur hefdi þar ã milli verid. Og til sannenda hér um sættum[2]) vid[4]) hér [naufn okkar[5]) undir þetta brief er giort var á Osi i Bolungarvik ãrum eftir Guds burd þushundrad cd. lxi[6]).

---

1) vorum, hdr. 2) Svo. 3) á sjálfsagt að merkjast fyrir Odd lepp. 4) vér, hdr. 5) [Svo. 6) Eingin dagsetning.

22. 23. Júlí 1466. í Skálholti.

Transskriptsárgip af eyristollabréfi Holtskirkju í Önundarfirði frá 18. Júlí 1444 (DI, IV, Nr. 698).

Visitazia Brynjólfs biskups í Holti í Önundarfirði 17. Aug. 1639. — Skýrsla um Þjóðskjalasafnið, Rvík 1917, bls. 137—138.

Breff Biskup Gottsueins. huors lýsijng adur er skrifud numero tertio med hanganda jnsigle huar hann befalar optneffnda ejristolla millum Kleifa i Seidisfijrde og Kialkafiardar lukast eiga af hvorium skattbonda til kirkiunnar i Hollte. skrifad i Skalhollte in festo S. Appollinaris Episcopi & martyris 1466[1]).

---

*23. 23. Oktober 1467. í Vatnsfirði.

Skiptabréf eptir Björn Þorleifsson.

Landsbókasafn 42. Fol. bls. 146—148, ættatölubók síra Þórðar Jónssonar í Hítardal, með hendi síra Jóns Erlendssonar í Villingaholti 1666. — JSig. 2 Fol., Fitjaannáll, skr. c. 1770, mjög samkynja 42, nema lakari. Samkynja uppskriptir þessa bréfs eru og í flestum afskriptum af ættatölubók síra Jóns Ólafssonar á Lambavatni, og er bréfið þar án efa tekið eptir ættatölubók síra Þórðar. Bréf þetta er í þessari mynd komið frá öðru frumriti en því, sem nú er til, og prentað er eptir í Dipl. Isl. V. Nr. 441. Er hér slept öllum kaflanum um jarðir þeirra Björnssona (DI, V, $501_5$—$502_7$), en í stað þess sett hér inn skrá um jarðir Ólofar móður þeirra, sem ekki hefir komizt að í frumrit það, er nú þekkist, nema örstutt ágrip að bréfslokum, og því hefir annað frumrit verið upp sett. Þessar afskriptir bréfsins eru allvíða smáafbakaðar og fella niðr smásetningar og orð, er í frumritinu standa, en raska litlu þótt úr falli, og er því hér lítt sætt, en leiðréttar eru hér afbakanir í því, sem upp er tekið í báðum textum, frumriti og afskript. — Til eru afskriptir þessa bréfs, er beint eru komnar frá frumriti því, sem enn er til (svo sem Landsbókasafn 787. 4to bls. 86—90, og margvíða), og þær einar höfðu orðið á vegi mínum, þegar bréfið var prentað fyrrum.

Skiptabref hustru Olofar .og hennar barna epter Biörn Þorleifsson.

Þad giorum wier Jon Asgeijrsson. Halldor Hakonarson.

---

1) Þetta transscriptum af eyristollabréfinu 18. Júlí 1444, þekkist nú ekki. Árni Magnússon hefir ekki heldr þekt það. Það hefir þá verið glatað.

Philippus Sigurdsson. Þorarinn Aronsson[1]). Brandur Sigurdsson. Þordur Audunarson. Ornolfur Einarsson. Gijsle Philippusson. [Haralldur Kenekssou[2]). Jon Þorsteinsson. Markus Jonsson. Asbiorn Sturlason godum monnum kunnugt med þessu woru opnu brefe at[3]) þa lidit var frā Guds burd 1467 ār manudaginn fyrstañ j wetre[4]) j Watsfirde j Jsafirde worum wier til nefnder af erligum manne jungkiæra Þorleife Biornssyni j wm̄bode husstru Olofar Loptsdottur modur sinnar. sinna vegna og brædra sinna Arna og Einars og jungfruar Solveigar systur þeirra ad skipta og suñdurdeila alla þa peninga kvika og dauda. fasta og lausa. frijda og ofrijda er þeim hafde til erfda fallit epter Biorn heitinn Þorleifsson faudur þeirra. Enn fyrnefndri[5]) husstru j sinn helming til jafnadar skiptess[6]) vid fyrrgreind sýskin.

Nu saker þess ad fyrr nefnd syskin og husstru Olof lofudu med fullu handabande ad hafa þad og hallda fullt og loglegt eignarskipte hvor vm sig sem wier greinder menn giordum og skiptum þeirra j millum̄.

Jn primis skiptum wier hustru Olufu Skarde a Skardsstrond og ollum þeim jordum er þar med fylgia. þar med halfre Saurbæarfioru. Flatey̋ a Breidafirde og ollum̄ þeim eignum̄ er þar med fylgia og med Skarde epter þvi sem hustru Olofu hafde adur til erfda falled epter sinn faudur og mődur. Og hier til skiptum vier henne Mafahlijd er liggur a millum̄ Haufda og Ennis. og þeim jordum er þar med fylgia. Alftanes a Myrum og þeim jaurdum̄ er þar med fylgia J Borgarfirde. Mosfelle j Mosfellssveit. Ase j Holltum og þeim jaurdum̄ er bondinn atte þar a lañdenu. Her med skiptum vier henne Bæ a Raudasande og ollum þeim jordum sem þar liggia til jnnañ þinga. Briamslæk a Bardastrond og þeim jordum̄ er þar liggia til sudur a Skalanes med [Eyrum og[7]) Hvollatrum[8]) og jaurdum ollum j Kroksfirde inn ad Laxā fratekiñ jaurdiñ Kambar[9]). Kalldadarnes á Strőndum og allar þær jarder þar liggia med nordur ad

1) frb.; Arason(!) 42, 2. 2) [fbr.; Halldor Kraksson 42, 2 3) b. v. frbr. 4) þ. e. 19. Okt. 5) frbr.; fru(!) 42, 2. 6) frbr.; skiptist 42, 2. 7) [eyium, frbr. 8) huallatrum, frbr. 9) kambr, frbr.

Hafnarhől(m)e. Her til hlaut hun Sioarborg ȷ Skagafirde og allar þær ȷarder er þar til heÿrdu. lxxxc ȷ ȷordum ȷ Hunavatsþinge og her til. vc. kugillde og x tiu betur. xlc ȷ wirdingagőtse og einu betur.

Jtem hlutu ȷ sitt hlutskipte ȷ mots vid mődur sina þeir brædurner syner Biorns[1]) Þorleifssonar Þorleifur. Arne og Einar og þeirra syster jomfru Solveig.

Hlaut einn [af þeim Kvlu[2]) ȷ Svinadal og þær[3]) allar ȷarder ȷ Dalnum̄ og þær ȷarder er þar liggia til. Skard ȷ Langadal og Bolstadahlȷd og Eiriksstade og ij. ȷarder ȷ Bug. Watshorn ȷ Lȷnakradal og Mvla þar hia og halfan̄[4]) Stapa a Watsnese. Reiknast þetta iiijcc.

Enn Einar Biornsson hlaut ȷ sitt hlutskipte Borg ȷ Westurhőpe og Þorkelshől. meira Os ȷ Midfirde og allar ȷarder þar til liggia med Borg og Ose[5]) og Hvalsa minne ȷ Hrutafirde. Reiknast þesser peningar iiijcc.

Hinn þridie j sitt hlutskipte Watsfiord og Adalvik og þær ȷarder þar med fylgia. Bodvarshőla ȷ Westurhope og Dugansdal ȷ Arnarfirde fyrer iiijcc.

Og þar til hlutu þeir brædur. Þorleifur ȷ sinn hlut ȷordena Reykhola a Reykianese og allar þær ȷarder þar til liggia ȷ millum Diupafiardar og Laxa̋r med ȷordunne Skaleyium.

Enn Arne ȷ sitt hlutskipte Nup j Dyrafirde og allar þær ȷarder þar til liggia vtan̄ Alvidra. War Arna skipt Medaldal [og Klofa[6]) ȷ Arnarbilisdal. Kirkivbol[7]) ȷ Onundarfirdi ut fra Breidadal og halfa siőundu jőrd ȷ Steingrimsfirde.

Hlaut Einar Biornsson Alvidru ȷ Dyrafirde og allar ȷarder ut fra Medaldal og [firir Slettanesi[8]) frateknu Hraune ȷ Kielldudal. þar til hlaut hann Kirkiubol ȷ Arnarbilisdal. jarder ȷ Arnarfiardardőlum̄ og ij ȷarder ȷ Talknafirde. þær sem bondinn atte þar.

Her til hlutu þeir xijcc hvor wm̄ sig ȷ wirdingagőtse. Lxxx kugillda annars hundrads hvor þeirra med hestum og audrum kauplum̄.

1) Biarnar 2. 2) [2; af (strykað og sett i staðinn: Avd) Kvlu 42. 3) Svo 42, 2; þar, frbr. 4) halfa, frbr. 5) Ase, frbr. 6) [Holum og Klofi, frbr. 7) frbr.; Kyrnarbol (Kirknarbol) 42, 2. 8) [frbr.;fra Sliettadal(!) 42, 2.

Enn jungfru Solveig syster þeirra hlaut Hol j Bolungarvik og þær jarder er þar eru wm̄ kring og[1] j Skalavik og bondinn Biorn atte. Arnardalena bada. Reiknudust þessar jarder ij^c^. og vij^c^. betur. Hest j Onundarfirde og allar þær jarder sem þar ero jnn j fiordum̄[2]) frateknu Kirkiubole ut fra Breidadal. her til hlaut hun vj^c c^[3]) j wirdingargotse. xtiu kugillda med koplum[4]).

Þessum jordum skiptum vier fyrrnefnder menn hustru Olofu Loptsdottur j sitt hlutskipte er so heita.

Skard a Skardstrond fyrer hundrad hundrada.
Hvalgrafer a Myrum.
Halfa Saurbæarfiǫru.
Kross og Reinekielldu.
Frackanes.
Melar.
Lǻngeyarnes.
Langey minne.
Hnukur.
Kvennahǒl.
Stackaberg.
Ormstader.
Dagverdarnes.
Sviney.
Klackar og Einkurhofde[5]).
Wogar[6]).
Vivilstader.
Kiarlakstader.
Galltadalur.
Tunga.
Orraholl.

---

1) b. v. frbr. 2) fiordin, frbr. 3) Svo 42 og er rétt; í DI, V, 501 er „hundrada“ fallið ur í prenti; 6ɔ, 2. 4) Hér hleypa pappírsafskriptirnar úr öllum þeim kafla, sem í frumritinu stendr, um jarðir bræðranna Þorleifs, Árna og Einars (Dipl. Isl. V, $501_5$—$502_7$), en bæta í þess stað við því, sem eptir fer, og er það *full* skýrsla um jarðir Ólofar, sem ekki hefir komizt fyrir í frumritinu, nema í örstuttu ágripi aptan við sjálft höfuðbréfið, eptir að því var lokið (Dipl. Isl. V, $502_3$—$503^2$; sbr. $500^{10}$—$500_9$). 5) 42 (= Emburhofde); Einkur. Hofde(!) 2. 6) Svo.

Flatey a Breidafirde fyrer hundrad hundrada.
Svefneyjar.
Svidnur.
Raudseyar.
Hruteyar. og allar adrar Eyiar a Breidafirde þær hun hafde ædur hloted ȷ erfd epter faudur sinn og mődur.
Mavahlÿd og þessar ȷarder.
Hollt og þridiung ȷ Tungu.
Brimelsveller.
[Hofde[1]).
Vÿk[2]).
Skierdingstader.
tvennar Lær.
Altanes a Myrum̄ og þessar ȷarder med.
Halfur Straumfiordur.
Krossnes.
halft Munadarnes.
halft Arnarhollt.
halft Einefell ȷ Tunguhrepp.
Mosfell ȷ Mosfellssveit.
As ȷ Holltum̄.
halfan̄ Leirubacka a Lande.
halfur Husagardur.
Liotzstader[3]) ȷ Landeyium̄.
xx^c ȷ Wetleifsholte.
Riekur[4]).
Siafarborg ȷ Skagafirde og tvenna Kimbastade.
Skard.
Kalfardal[5]) og Riddhől[6]) og skyllde stan̄da fyrer kirkiufie a Borg.
iij ȷarder ȷ Hunavatzþingi.
Galltarnes.
Vteblikstader.
Tannstadabacke.
Kalldadarnes a Strőndum og þessar ȷarder med.

---

1) *leiðr.*; Hofn 2. 2) [Hofsvÿk 42 (í einu orði). 3) 2; Liotzstadur 42. 4) 42; Riokur 2. 5) 2; sl. 42. 6) Svo 42, 2.

Hamar.
Svidnisvik.
Brecka.
Suddalur[1]).
Skard.
Guddaler.
Klumba.
Reykiarvik.
Bruará.
Eyiar[2]).
Kleyfar.
Kallbakur.
Kambur.
Kios.
Reykiarfiordur.
Naustvikur.
Kesvogur.
Giaugur.
Avik.
Finnbogastader.
Bær.
Eyre.
Jngolfsfiordur.
Ofeigsfiordur.

Bær a Raudasande. Þessar jarder þar med.
Melanes.
Mavaberg.
Hlyfar[3]).
Hvammur.
Klucka.
Gróf.
Steckar.
Lambavatn.
Kieflavik.
iiijc j Sellatrum.
Watnsdalur.

1) Suddal 2. 2) Eyrar 42. 3) Svo.

Saudlaugsdalur.
Geyrseyre.
Briamslækur a Bardaströnd og þessar iarder med.
Hrakstader[1]).
Haukaberg.
xviij^c j Midhlyd og Litluhlyd.
v^c j Hvamme.
[j Raudsdal nedra[2]).
Arnarstader.
Hlyd.
Þverá.
Fossá.
Hamar [halfur audur[3]).
Wattarnes.
Jllugastader.
Myle.
Half Eyre.
Galltargia.
Klaufastader.
Eyarnar Hvallátur[4]).
Þessar iarder j Kroksfirde.
Kluckufell.
Gillastader.
Tunga.
Bær.
Holar.
Klettur.
Tindar.
Jngunarstader.
Gautsdalur.
Walshamar
Backe.
Brecka.
Svarfhólsnes.

Enn fyrer skulldum skal husstru Olof hafa standandi[5]) þessar iarder eptir Biorn heitinn Þorleifsson.

1) Hrókstader 2. 2) [Svo. 3) [halfar Audner 2. 4) Haulátur 2. 5) sl. 2.

Nordurtungu ȷ Borgarfirde.

Asana eystre. og þad meira ȷ fastaeign er Biörn hafde att þar og xxc ȷ Hraune[1]) ȷ Kielldudal[2]).

---

24. 4. Oktober 1473. | 28. Oktober 1474. | í Djúpadal.

Kaupbréf þeirra bræðra Bjarnar og Hálfdanar Einarssona um jarðirnar Eyvindarstaði í Eyjafirði og Kristnes, og greinir bréfið frá ítökum Kristness.

Eptir afskript frá hér um bil 1830, kominni 2. Apr. 1921 úr dánarbúi Stepháns umboðsmanns Stephensens (d. 1919) frá Bjarna bankastjóra Jónssyni á Akureyri. Aptan við afskriptina, — en í henni er og Kristnesbréf frá 11. Apr. 1461 (Dl, V, Nr. 209), — stendr: „Ad tvö framanskrifud kaupbrjef sieu rjett utcopierud eftir sinum Orginaler á Membrana vitnar

John Þorsteinsson. Sigurdur Snorrason.

Ad tvö framanskrifudu kaupbrjef sieu rjett utcopierud af gienpartinum vitnar

Baagöe."

Sigurðr Snorrason var lögsagnari í Vaðlaþingi 1803—1805, og H. Baagöe var faktor í Húsavík fram til 1836; þá fluttist hann til Kaupmannahafnar, en fæddur var hann 1773. — Stafsetning er nokkuð dönsku-bjöguð úr höndunum á Baagöe. Því er hér kipt í lag.

Þad giörum vier Brian prestur Olafsson. Gunnar Olafsson. Jon Gellersson. Jon Gunnarsson. Magnus Snorrason. Þorarenn Kietelsson. leikmenn. godum mönnum vitanligt med þessu voru opnu briefi. ad þa lided var fra hingadburde vors herra Jesu Christi 1473 ar vorum vier[3]) i hia. saum og heyrdum a i ytra Diupadal i Eyafirde manudaginn næstan efter Mich(a)elsmessu ord og handaband þessara manna Biarnar[4]) Einarssonar af eirne halfu. en [Halfdanar Einarssonar[5]) brodur hans af annare halfu. at svo firer skildu ad adur greindur Biorn[6]) Einarsson sellde firr greindum Halfdane brodur sinum ȷördena Eyvindastade[7]) i Eyafirde er liggur i Mödru-

---

1) Hruna(!) 2. 2) Bréfið endar svo. 3) b. v.; vantar í afskr. 4) Biarna, afskr. 5) [Halfdáne Einarssyne(!) afskr. 6) Biarne(!), afskr. 7) Svo

valla[1]) kirkiu sokn med ǒllum þeim gǒgnum og giædum. er greindre jǒrdu[2]) fylger[3]) og fylgt hefur[4]) bæde ad fornu og nyu. og hann vard fremst eigande ad. sagde Biorn til [half-kirkiu skylldar[5]) a Eyvindarstǒdum[6]). Hier i mot gaf þrattnefndur Halfdan tittnefndum Birne jardarpart[6]) i Kristnese i Eyafirde. er liggur i Hrafnagils kirkiu sokn. reiknadest þad vera ellefu hundrud og fiǒrutiu hundrada og fimm aura(r) betur[7]). reiknade Halfdan Kristnes þessi itǒk eiga i annara manna jarder. Selfǒr ǒllu bufie i Kviendesdal fram fra Þreme. og tveimur selhrossum. og vetrarbeit upp ifer Faxakielldu. torfskurd i Aungulstada jǒrdu arliga so miked sem jǒrdunni þarfnast. og torfstǒdu a holnum ofan fra Aungulstǒdum. husa torfveltu ut under hola i Hialmstada jǒrdu. teigar firer handan a. Kirkiuteigar[6]) halfs manadar verk. Kirkiuholmar[6]) fiogurra daga slatta. Skalarteigur vikuverk. Þesser aller teigar liggia vid Skalarpoll. Kirkiuteigur[6]) liggur ut og vestur fra pollinum. þar eiga ýtre Tiarner land. Kirkiuholme[6]) liggur i mille tveggia kýla þar i vestur fra sem skiera sig fram ur Skalarpolle. þar a Kristnes gras og land under. Skalarteigur liggur fram og vestur fra pollinum a arbackann firer nedan Faxakielldu. Kristnes a þar land og gras. er half-kirkiu skylld[8]) a jǒrdunne og lambselde fra Munkaþvera. og æfenlig omagavist kvengilldum omaga[9]). skyllde hvor hallda til laga þeirre jǒrdu er keypte. en sa[9]) svara lagariptingum[10]) a hvorre[11]) er sellde[12]). Og til sanninda hier um settum vier firr greinder menn vor insigle firer þetta kaupbrief er skrifad var i ytre Diupadal i Eyafirde a tveggia postula messo Simonis et Judæ are sidar en firr seiger.

---

1) hér bætir afskriptin við „kl(austurs),“ sem er með öllu rangt. 2) jǒrd, afskr. 3) filgde, afskr. 4) hefer, afskr. 5) [hálfrar kirkju skuldar(!), afskr. 6) Svo. 7) Svo er þessi dýrleiki talinn, og mun rétt, því að Kristnes var að fornu 64 hdr., þótt sumar jarðabækr telji það ekki meira en 50 hdr. 8) skuld, afskr. 9) b. v.; vantar i af-skr. 10) —ingu er,(!) afskr. 11) henni(!), afskr. 12) seldu, afskr.

*25. 7. November 1475. í Dynhaga.

**Reka** og landamerkjabréf Krossaness í Kræklingahlíð.

Eptir fúnu og skemdu pappírsblaði með hendi Magnúsar sýslumanns Ketilssonar nálægt 1770, og hefir hann ritað beint eptir frumritinu á kálfskinni (stafrétt): „. . . er skrifudu kalfskinns brefe eg h[efe] . . hvar fylgt sömu orthographiu. Fyrer þessu brefe hafa [vered] 4. hangande ȷnnsigle, sem öll voru í burtu; enn þ[veinger]ner epter af þremur.“ Sbr. Dipl Isl. VIII, Nr. 60.

[Þat] giorum wier Halldor Brandzson. Sigm[undur Einarsson. Arne] Guttormsson godum monnum viturligt med þessu voru [opnu] brefe ȷ sydra Krossanese ȷ Klæklingahlid[1]) vorum [vier ȷ h]ia. sáum ok heyrdum a ord ok handaband þessara [manna Hel]ga prest(s) Magnussonar af einne alfbu[1]). enn Stulla Mag[nussona]r af annare ath svo fyrir skilldv at fyrnefndur Helge [prestur Mag]nusson lukte og afhente adurgreindum Stulla Magnussyni [brodur s]inum til fullrar eignar ȷ sinn faudurarf ȷördina sydra [Kro]ssanes ȷ Kræklingahlíd er liggur ȷ Hlídar kirkiu sókn at [fra] skilldri ȷardar eign og reka þeim sem fÿr greind ȷörd Krossanes hafde átt ad fornu fyrir innan Gleræ. skylldi þat [vera] æfinlig landamerke mille Krossanes ok Eyrarlandz þar [ept]er sem þá fiell Gleræ en hun fiell þa ut med melunum [ok s]uo utt í sió. hier ȷ moti lagde oppt nefndur Helgi prestvr Magnusson til ȷardarinnar ȷ Krossanesi til æfinligrar eignar [læ]kiar upptauku ȷ Myrarlonz ȷördu ok leggia avngva penninga fyrir en adur atte ad leggia fyrir. xij. alner a hveriu æri. skylldu þeir ath frialsu mega grafa ȷord og stinga sem þeir þÿrtte til lækiar upptaukunar sem ȷ Krossanesi byggi. atti tîtt nefndur Helgi prestur ȷordina Myrarlon þá han giordi þennan giorning. Ok til sanninda hier um settum vier fÿrr nefnder menn vor ȷncigle fyrir þetta bref skrifad ȷ sydra Dynhaga ȷ Havrgardal þridia dagin næsta fyrir Marteins Messo. þa lidid var fra hingatburd vors herra Jesv Christi þusund [fiogur hundrut sio tiger ok fimm ær].

---

1) Svo.

26. 15. Júní 1476. í Lybiku.

Lybikuráð ritar Játvarði Englakonungi hinum fjórða, og beiðist bóta á einhvern hátt, að tilstilli konungs, fyrir rán það, er ánefndir sex menn af samborgurum þeirra hafi orðið fyrir við Ísland á Maríumessu Magdalenu næst liðið ár (22. Júlí 1475) af þegnum konungs frá Brystowe, en skip þeirra Hansamanna hafi verið hlaðið fiski eða öðrum varningi og ýmislegu gagni og gózi, er numið hafi alt að tveggja þúsunda sterlings punda virði.

Bæjarskjalasafnið í Rostock U. R. II, Bd. 7, Nr. 348 (afskript frá E. Dragendorff skjalaverði). Sbr. Hanserecesse 1431—1476, bearb. von Goswin Frhr. von der Ropp, Leipzig 1892 Abth. II, VII, Nr. 348, bls. 581.

Ad dominum Edwardum Anglie regem etc.

Post humillimas deuotissimasque nostrorum obsequiorum exhibiciones grauem conquestionem, rex invictissime, probatissimi viri huius imperialis loci conciues Johannes Rorberg, Johannes Larholt, Hinricus de Vorsten, Theodericus Berninghusen, Lambertus Vruchterbekere et Tylemannus Luringk vna cum suis consortibus ea nobis in concione constituti lacrimose detulerunt, sese post redditam pacem et eiusdem sub nexu perpetue federis vestram inter serenissimam regiam maiestatem atque inclitum Anglie regnum Ausamque nostram diebus superioribus in Traiectensi ciuitate hincinde concordati et conclusi successuque temporis maturius approbati legittimeque et racionabiliter confirmati certa naue aliquot onusta strumulorum piscibus aliisue mercandisis ac diuersarum specierum rebus atque bonis adusque volorem seduum milium librarum sterlingorum extendentibus die sancte Marie Magdalene anni proximo preteriti in Yslandia per nonnullos ex loco Brustouw vestrates[1]) tam innocenter piratica fuisse esseque invasione destitutos[2]) rebus ipsis bonis atque spoliatos ad premencionatum regni vestri locum deductis finaliter comportatisque ac propterea excellentissime vestre maiestati per eius supratacti imperialis loci magistratum optim ... lociores hoc ante redditas litteras quibus ablatorum orabatur

1) Svo. 2) Hér er útstrykað: atque spolio.

restitucio ipsi nobis adhuc quasi infecto negocio consortes antefati obsignare curauerunt vnde, rex illustrissime, nos ea compellit inmanitas, ut a culmine regalis vestre clemencie pro nostratibus qui nulla diffidacione aut aliqua preuia racionabili causa hanc passi sunt iniuriam suffragium imploremus quibus igitur, princeps serenissime, nostris valemus et obsecramus instanciis humilius atque deprecamur quatinus tam iniuste spoliatis oppressisque prefatis nostre confederacionis hominibus ablatorum restitucionem aut eorundem atque illatarum iniuriarum satisfactionem emendam atque fieri rex humanissimus graciose demandare dignetur itaque sua auctoritate prospicere ne si quominus casu quod absit fieret certe nostrorum communione consuetudineque sublatis in regno vestro solitas mercandisas agitandi inde alterutrum communis boni dispendium oriatur ipsis nichilominus premencionatis conciuibus alio remedio de consequenda indempnitate sibi prouidere curantibus set quod iterum iterumque ardencius humiliore prece obsecramur cum ceteris nostris mercatoribus hominibusque pro incremento vtriusque rei publice adeo conseruatos habeat ut se nostris rogatibus vestre cui nos ad vota offerimus sacratissime maiestati commendato sentiant quam altissimus euo longo peroptata prosperitate feliciter cupimus obseruabit. Scriptum sub ipsius Lubicen[sis] ciuitatis sigillo quo ad presens utemur anno Domini mccccIxxvi. die vero sabbati 15. mensis iunii.

Oratores et nunctii communium ciuitatum et op(p)idorum Anse Theutonice in ciuitate Lubicen[si] et eiusdem consulatus ad dietam congregati.

---

27. **[um 1478].**

Bréfságrip um uppgjöf prestskapar í Hjarðarholti.

Visitazia Brynjólfs biskups í Hjarðarholti í Laxárdal 18. Sept 1639. — Skýrsla um Þjóðskjalasafnið, Rvík 1917, bls. 131.

Witnisburdarbreff vppa wppgifft stadarins sira Bǒduars Jǒnssonar wid Biskupenn.

[Þetta bréf er nú glatað, og hefir verið glatað fyrir daga Árna Magnússonar; hefir verið frá c. 1478).

28. [um 1478].

Bréfságrip um prestasamning í Hjarðarholti.

Visitazia Brynjólfs biskups í Hjarðarholti í Laxárdal 18. Sept. 1639. — Skýrsla um Þjóðskjalasafnið, Rvík 1917, bls. 132.

Samnijngsbreff Sira Bóduars Jonssonar wid Sira Hall Þórarinsson med tueggia manna witnisburdum.

[Þetta bréf er nú glatað, og hefir verið glatað fyrir daga Árna Magnússonar; hefir verið frá c. 1478].

29. 30. Júní 1480. í Lybiku.

Borgarstjórar og bæjarráð í Lybiku rita borgarstjórum og borgarráði í Rauðstokki út af mjóum tunnuböndum, sem öldurmenn kopparasamlagsins í Hamborg nota, og vilja nota láta í Hansaborgunum, en sömu menn í Rauðstokki vilja ekki láta nota hjá sér, vegna þess að þeir telja það óhæft í Íslandsförum.

Bæjarskjalasafnið í Rostock U. R. III, Bd. I, Nr. 293 (afskript frá E. Dragendorff skjalaverði).

Denn ersamenn vunde wisenn mannen hernn borgermeisteren vunde raidtmannenn to Rostocke vunsenn bisunderenn gudenn frundenn. Vunsenn fruntlikenn groet myt vormogea alles gudenn touorn ersame wise leue hern bisunderen guden frunde. So gii vns vnder anderen gescreuen hebben, wo dat de ersame raidt to Hamborch myt eren scrifften an juw twee olderlude der bodekers amptes[1]) gesant hebbe begerende gii en mochten mededelen den smalen tunnenbant den se in erer stadt dencken to brukende geliick anderen steden bii juw belegen des denne etlike vth vnser

1) útstrykað: an juw.

stadt des sulfften amptes ock bii juw scholen gewesen syn vmme ene sodanen bant to vorhinderende etc. hebben wii innholt sodanes juwes breues wal vornomen aldus so en beduncket vns nicht raidtsam syn, so vor der hant vmme merckliker sake vnde insage willen vns dar to bewegende de wii juw nu tor tiid so vterliken nicht vorscriuen konen den olderluden van Hamborch vorgescreuen sodanen eergemelten bant to geuende wente vns warafftigen bigekomen is wo dat men in der Kremper marsch roet beer in smale tunnen buure na Rostocker bande gevatet werde vnde vort na Iſslande gebracht vnde gevoret werde to vorkopende vnde forder vth der erscreuen Kremper marsch na Bergen in Norwegen in to komenen tiiden ock gebracht mochte werden dergeliken in deme den erscreuen van Hamborch sodan juwe bant gegunt vnde vorlenet worde to hebbende vnde to brukende welck juw den vam Stralessunde Wismar vns vnde vnser aller borgere to merckliken voruange vnde vorderue wesen wolde wanner dat id mit sodaner nygen brouweringhe eynen vortganck gewinne wente de eerscreuen in der Kremper marsch des korns vnde beers beteren koep hebben vnde tugen konen dem wii so juw brenger desses unses breues wol muntliken ock werden bericktende desset angesehen vnde to herten getogen duncket vns vor vns vorben[omede] stede nutte vnde raedtsam syn gii iuw sodanes tunnenbandes den vorgemelten van Hamborch to vorlouende noch tor tiid entholden beth so lange wii veer stede dar erst vmme tosamende komen handelinge darvan hebben wat deshaluen best gedaen eder gelaten sii juw mit den besten hirane to bewisende dat vorschulden wii vmme juw na gebor gerne. Scr[euen] vnder vnſser stadt secret am vrigdage na Petri vnde Pauli apostolorum anno etc. 80.

Borgermeistere vnde raidtmanne
der stadt Lubeke.

---

30. [1481. á Alþingi].

TRANSSCRIPTUM.

Landsbókasafn 345. 4to, með hendi síra Guðmundar Jónssonar á Ólafsvöllum um 1790.

Þad giðrum vier Rafn Brandsson lögmann nordan og vestan a Jslande. Eyolfur Hialltason. Asmundur Jonsson og Biðrn Oddsson godum mönnum kunnugt med þessu voru opnu brefe. ad vær höfum sied og yferlesed vors herra kong Christians opeñ bref med heilum og oskoddudum hangande Innciglum so latande ord fyrer ord sem hier effter skrifad stendur.

Hér hafa komið í transscripto konungsbréf um skipti á Guðmundar eignum.

1, bréf frá 25. Nóv. 1478. DI, VII, Nr. 9.

2, bréf frá 18. Okt 1480. DI, VII, Nr. 11.

En niðrlag transscripti vantar. Það verðr þó að vera gert á Alþingi 1481. Rafn lögmaðr hefir ekki komið til þings eptir það. Hann var úr því í banni, og lézt 1483.

---

31. 23. Nóvember 1482. í Holti.

ÁGRIP transskriptarbréfs.

Visitazia Brynjólfs biskups i Holti í Önundarfirði 17. Aug. 1639. — Skýrsla um Þjóðskjalasafnið, Rvík 1917, bls. 136.

Medkienningarbref nockurra presta ad þeir hafe yfferlesed bref Biskupz Gottsuin(s) huort streingeliga bydur ad gialldast skule fyrr nefnder Ꝗristollar. skrifad i Hollte i Ønundarfiyrde laugardaginn næstañ fyrir Catrinarmessu Anno 1482[1]).

---

1) Þetta transscriptum er nú ekki til, og Árni Magnússon hefir ekki heldr haft það, svo að það hefir þá verið glatað. Hins vegar er enn til transscriptum þessa bréfs (18. Júlí 1444) frá 10. Febr. 1480 Dipl. Isl. VI, Nr. 235).

32. 1482. í Stafafelli.
BRÉFSÁGRIP um Borgarhöfn.

Visitazía Brynjólfs biskups á Skriðuklaustri 6. Aug. 1641. — Skýrsla um Þjóðskjalasafnið, Rvík 1917, bls. 75.

Kuittunarbref uppa xijc j anduirdi fyrir xv hundrada part j Borgarhofn.Datum Stafafelli 1482[1]). utan jnsigle.
[Bréfið er glatað].

---

33. 26. Maí 1485. á Desjarmýri.
10. Janúar 1486. á Ketilsstöðum.
GUNNLAUGR Teitsson selr Páli presti Grímssyni hálfa jörðina Gilsárvöll í Borgarfirði fyrir lausafé.

AM. Apogr. 4412, transskript sex bréfa frá 13. Júní 1704. Utan á bréfunum stendr, „Gilsárvallarbréf og Gilja til alþingis send eptir tilsögn Commissariorum 1704." Hin bréfin eru Nr. 1. 27. Okt. 1602; Nr. 2 þetta bréf; Nr. 3. 5. Sept 1616 og 30. Ágúst 1618 á Hálsi í Álptafirði; Nr. 4. 16. Marts 1664 í Vallanesi; Nr. 5. 21. April 1667 í Vallanesi; Nr. 6. 5. Okt. 1551 á Bustarfelli (Markús Hemingsson selr Lopti Kolbeinssyni Gil á Jökuldal). Neðan undir bréfunum stendr: Þessi fimm bréf tilheyrandi jörðunni Gilsárvelli hálfri á þremur blöðum hér fyrir framan skrifuð, og eitt Giljum viðvíkjandi hér fyrir ofan skrifað, rétt coperað og sem næst hefur orðið komizt, votta undirskrifaðir. Skriðuklaustri Anno 1704. 13. d. Junii. Páll Högnason m eh. Pétur Ásmundsson m eh. Árni ritar við bréfið „habeo ex or(iginali)," en sú afskript er nú glötuð.

Þath gerum vier Michel Teitzson. Sygurdur Jonsson og Eirekur Hafurbiarnarson godum monnum viturligt med þessu voru brefi. ath þa et lidit war fra gudz burdh þusund fiogur hundrud attatigir og fim ar fimtadaginn j fardaugum a Desiarmýre j Borgarfirde j Austfiaurdum vorum vier j hia. saum (og) heyrdum æ ath Gunnlaugur Teizson sellde Pale preste Grimssyne med fullu handabañde jaurdina halfa Gilsærvaull. er liggur j greindum firde j Myrarstadar kirkiu sokn. til frials forrædis og fullrar eignar med aullum þeim gaugnum og giædum. rekum og hlunnendum og aullum jtaulum

---

1) 1582 hdr.

sem greindri halfri jõrdu fylger og fylgt hafdi at fornu og nyiu. og Gunlaugur vard fremst eigandi ath med vpplagi og samþycki Gudnyiar Þorgilsdottur konu sinuar. hier j mot gaf adurnefndur Pall prestur Grimsson fyrrnefndum Gunlaugi fimtan hundrut med þessum fridleika. atta mãlnytu kugillde. v kyr og iij asaudar kũgilldi. tolf fiordunga smiors fyrer hundrad. fim̃tigi alna vadmals fyrer hundrat. fullroskit hross fyrir hundrat. tolf saude gamla fyrer tuau hundrudh. atta saudi tuævetra fyrer hundrat. fiogra vetra gamlañ vxa fyrer hundrat. lukte optnefndur Pall prestur þa þegar a sama vettfangi suo vier vissum þrattnefndum Gunlaugi j þessa peninga fyrer greinda halfa jõrd ellefu hundrut. skyllde Gunlaugur suara lagariptingu a greindri halfri jordu. enn Pall prestur hallda til laga. Enn þau fiogur hundrud sem epter stodu olukt skylldu gialldast a sama hauste. Kynne og greind jord half at riptast edur brigdazt þa skilde þrattnefndur Pall prestur sier aptur suo maurg hundrud og suo fridvird sem hann vtgalldt af Gunlaughi edur hans erfingium ef hans vid miste. Ok til sanenda hier vm settum vier fyrskrifadir menn vor jncigle fyrir þetta kaupbref er giort var a Ketilstaudum a Vaullum j Fliotzdalshierade fimtadaginn næsta epter hinn þrettanda dag jola are sidar eñ fyrr segir.

---

***34. 1489. á Alþingi.**

Samþykt Magnúsar biskups í Skálholti, Eyjólfs lögmanns Einarssonar og Diðriks hirðstjóra Pinings um Maríumessuhald, óskilamenn, tíundir, Rómaskatt, líksaungseyri, olíunarkaup, heytoll, kirkjugarðsgerð, förumanna flutning, yfirreiðar og ljóstoll.

Landsbókasafn 99. 4to, bls. 45—47, með hendi Jóns prófasts Halldórssonar í Hitardal 1712 eða nokkru síðar. Sbr. Dipl. Isl. VI, Nr. 590. Þar er samþykt þessi prentuð í mörgum textum. Þessi texti, sem hér er prentaðr, er fyllri en hver þeirra.

Gömul samþÿckt um adskilianlegt.

Wier Broder Magnus med gudz nãd Biskup i Skãl-

hollti. Eyolfur Einarsson Lögmann sunnan og austan á Jslandi. Didrich Pining hirdstióre og höfudzmadur yfer öllu Jslandi giörum gódum mönnum kunnugt. ad vier höfum samþyckt og i log tekid æfinliga hiedan af i almennelegre prestastefnu. og á Alþinge.

J fyrstu grein. ad Mariumessa su sem er eirnre nóttu fyrer Præsentationem Mariæ á veturinn skal halldast ad föstu og helgehalldi sem Mariumessa sijdare á haustin. Um Mariæmesso.

J annarre grein. ad taka þa menn ecki i bygder edur vister. sem þeir vita einge deile á. ad þeir sieu skilamenn. Um óskilamenn til vistar.

J þridiu grein ad lukast skule allar tijunder af öllum þeim jördum. sem fiellu under kong og kyrkiu. og fallid hefur fyrer 20 árum æfinliga hiedan i frá. Um 4 tijunder.

J fiordu grein. skal vera xviij alna sekt á Romaskattz halldi. xviij alna sekt ó lıjksongs halldi. og so á oliunar söng. xviij alna sekt á heytolls halldi. og lukist af þeim á jördu bua. fyrer utan þar sem prestzsetur er. xviij alna sekt. hvor sem fornemst kyrkiugardz giörd lögliga ámijntur. Sekt á Romaskattz. lıjksongs. oliunar. heytollz halldi. Kirkiugardz giörd.

Jtem eru aller skyllder ad fylgia fátækum og lifga. þeir sem bygd ból hallda. förumanna flutningur.

Jtem var og samþyckt. ad Biskup skýlldi rijda vid þrettanda mann i sijna visitatiu. og ánefna þá. skylldu þeir taka tvöfalldañ riett. Lögmadur vid tıjunda mann. Hirdstióre vid tijunda mann. nefndarmenn til þings vid þridia mann. Officialis vid siöunda mann. profastur vid fimta mann. Syslumadur vid fimta mann. skulu þesser menn aller ánefnder. og taka tvöfalldañ riett. ef þeim verdur med öfund edur hugmod[1]) misþýrmt. er þetta bodid bædi prestum og sýslumönnum. ad hafa og hallda æfinliga þessar[2]) greiner. seigia og lesa fyrer sijnum undermönnum. Biskups visitatia. umreid Lögmannz. Hirdstióra. Lögriettumanna. Officialis. Profastz og Syslumanns.

1) hugnad, hdr. 2) þesser, hdr.

Jtem ef ei er lukt vax i liősstoll. luke. 12. merkur smiðrs fÿrer mann fyrer sunnan og vestan €nn. 13. merkur fyrer nordan og austan. €yrer ǎ ad giallda presti ad syngia ÿfer daudum mǫnnum. enn. x. alner i legukaup under dauda menn bædi unga og gamla. Halfa mǫrk vax eiga hiőn ad giallda i liőstoll enn €ÿrer lausamenn.

---

35. [1490].

Alþingissamþykt um yfirreiðar lögmanna, um sakferli til þeirra, gjöld til þeirra og hlýðni við þá.

Landsbókasafn 65. 4to, I, 12, með hendi Jóns dans Magnússonar c. 1640. Sbr. DI, VIII, Nr. 73. og 74.

Jnntak vr Alþijngis Dőme Anno 1402[1].

Hvad þǎ var løgmanna fullriette. og hvat miclar fiesekter þeir skyllde eignast þǎ þeir rijda vm land. ad skipa mǎlum manna tilneffnder 24 hellstu menn. aff øllu landinu aff Didrich Pijning høffudsmanni og Finnboga Jőnssyni løgmanni nordañ og vestañ a Jslande.

J fyrstu virdtist oss ad løgmenn skyllde. med riettu. rijda mega vid 10a. mann. sem hirdstiőre þǎ hann rijdur j kongs €rinde. og alla skattbændur skyllduga til vera honum og þeim gődan greijda ad veijta j tvær mǎltijder. enn huor sem syniar þessa greijda. þǎ sekiest 13 mørkum j brieffabrot vid kong. €nn løgmanne sitt fullriette xv merkur.

J annañ mǎta leijst oss. ad løgmadur skyllde med riettu eignast øll sakferle. jnn til xiij marka mǎla. eff þau mǎl eru fyrer honum kløgud. og hann þar dőm yffer seiger. og ecki heffur ǎdur lagaskipun ǎ giord verid. Enn xiij marka mǎl og þadañ aff meira skulu þeir vnder kong sækia. og giðra þar riettan reijkningskap aff[2].

---

1) Þar við er ritað með annari hendi frá 17. öld: „Þetta datum kann ei ad standast vid logmannsdæme Finnboga,“ og athugasemd sama efnis gerir Steingrímur biskup á spássíunni. 2) „NB skattur vijsast og giaftollur,“ á spássíu með sömu hendi.

Jtem j þridiu grein leijtst oss. ad aller skattbændur skylldu geffa løgmonnum xx alner j sinn toll. og almenneligan gődvilia. enn hiner sem minna fie eiga. x alner huør. Enn huørier sem sannreynder eru ad þui (edur yrde) ad þeir veijta ecki løgmőnnum sijnum alla skylldugа hlydne og þriőskast ꝗ̃ mőte vors n(adugasta) herra kongsins Breffum. dæmdum vier fyrrnefnder dőmsmenn þꝗ̃ alla sektuga vera 13 marka vid kong. enn fullriette løgmanni effter þui sem fyrr skrifad stendur. vtan løgmadur med gődra manna rꝗ̃de vilie meire vægd og miskun ꝗ̃ giøra[1]).

---

36. 1493—3. Maí 1739. í Valadal.

Vitnisburðr Árna Egilssonar um Vatnshlíð alt frá því 1493 til 1739.

JSig 542. 4to, frumrit, og stendr framan við „M.“

1493 fiell snióflód miked ꝗ̃ Vatnshlid og gierde mikenn skada ꝗ̃ túni og Eingi tók 2 bæarhús og 3 manneskiur lietust þar inne. Are sijdar var hun nidur sett frꝗ̃ 30 til 20c af Grimi Jonssyni Lőgmanne ꝗ̃ Okrum og 6 monnum ődrum epter forsogn Solveigar Petursdottur (digru so kalladrar) sem þꝗ̃ sat ꝗ̃ Vatnshlijd og ꝗ̃tte hana. enn tunguna vestur ad Arnarvatni hafde hun keipt af Þorbergi Peturssyni frænda hennar a Reikiarholi og þvi filgdi hun sijdañ Vatnshlijd. enn þad heirda ieg Bessa Biornsson mæla ad hann hefdi heirt fődur sinn B(iorn) a Skardsa og marga fleiri menn seigia ad tungañ allt upp ad Arnarvatni hefdi first verid leigd frá Vatnshlijd Jóni nockrum Þordarsyni á Valadal til helmingabeitar og brukunar fyrir 5 aura arlega og hiellst su bigging þꝗ̃ngad til Teitur Þorleifsson var dæmdur og hrakinn frá Glumbæ[2]) og bædi Vatnshlijd. Vatnsskard og allt hañs fasta goss var af hőnum dæmt á Seilu. mig minnir 1528[3]). Þetta hef eg bædi lesid og alltid frꝗ̃ unga alldri heirt mier

---

1) Á spássíu með 17. aldar hendi: „Løgmenn hafa nu vijst kaup 45 dale. hitt aftekid vm løgmanna toll.“ 2) Svo. 3) *rétt* 1527.

elldri menn mæla. Þessum vitnisburdi til stadfestu legg eg af minn saluhiálpar Eid nær hlut ad eigendum sýnist naudsin til reka. skrifad á Valadal d. 3 maj 1739.

Arni Eigilsson.

Þessum ofañ teiknudum vitnisburdi erum vid undirskrifader ad öllu leiti eptir heirn og frásögnum ockur Elldri frődra manna samhlioda.

Þorlakur Gislason. Biorn Gislason. Jon Olafsson.

---

## 37. 1500.

Dómr Þorvarðs lögmanns Erlendssonar um manneldi.

Eptir samtíningsskjalabók í Þjóðskjalasafninu, keyptri 10. Mai 1922 af Birni bankastjóra Sigurðssyni, og er þetta skrifað c. 1670—80.

Jnntak vr þeim dőmi sem Þorvardur Ellendsson logmadur sunnañ og austañ hefur dæmt Anno 1500 á Jslandi um mannelldi og þad folk sem peninga ætti og ecki væri buandi menn. þui hreppstiorar klogudu ad lausafolk og vinnumenn villdi ecki giallda vtañ einfallda tijund sumstadar ȷ sueitum. Þui hardindiñ væri mikil sumstadar ȷ sueitum. Nu hliődar suo lögmálid. bulauser menn sem peninga eiga suari mannelldi og ollum hrepp(s)naudsinium[1]) til jafnadar vid bændur[2]). Jtem [Framfærslubalk[3]) 12. cap[4]). suo skulu hreppstiorar skipta mannelldi. ad þar verdi jøfn gisting þeirra manna er þar eru hreppsmenn nőtt á huorium x[c]. Þui dæmum ver alla þá bulausa menn sem ættu 5[c] skulldlaus og őmagalaus huort þeir væri vinnumenn edur lausir skillduga ad giallda alin af huoriu hundradi ynn til x[c]. enn þeir sem ætte x[c] og þadan af meira skill(d)u suara fullu manneldi til jafnadar á mőts vid adra epter þui sem hreppstiorar skicka og naudsin til væri. vtann þeir keiptu af ser þad mannelldi og gilldi aliñ af huoriu hundradi og sie undir

---

1) Hér skýtr hdr. ranglega inn: Framfærslubalk 12. cap. 2) Úr réttarbót Hákonar kgs 23. Júní 1305 13. gr. Dipl. Isl. II, 182. 3) frañ fyrer bun(!) hdr. 4) [sl. hér í hdr. sbr. nmgr. 1.

hreppstiora álite epter naudsinium. enn huor her á móti þrioskast sekist 4 morkum ȷ domzroff.

---

38. 1500. í Skriðu.

Bréfságrip um Glettinganes.

Visitazía Brynjólfs biskups á Skriðuklaustri 6. Aug. 1641. — Skýrsla um Þjóðskjalasafnið, Rvík 1917, bls. 76.

Medkenning sama Þorvards[1]) ad sellt hafi Priori Narfa tuo hundrud ȷ Glettinganesi og fullt fyrir upp borid. Datum. Skridu 1500. med ȷnnsigli.

[Bréfið er glatað].

---

39. 30. Júní 1502. á Öxarárþingi.

Tveggja tylfta dómr þeirra á Öxarárþingi Þorvarðs lögmanns Erlendssonar og Finnboga lögmanns Jónssonar um ýmsar tekjur og réttindi lögmanna.

Landsbókasafn 65. 4to II, 9—10, með hendi Jóns dans Magnússonar c. 1640. — Þetta sýnist vera höfuðdómrinn um réttindi lögmanna frá þessum tímum, en um það efni hafa sýnilega verið gerðar ýmsar samþyktir alt frá 1489, þótt eingar sé þær samþyktir nú til vel heillegar né öruggar. Sbr. DI, VI, Nr. 590; VIII, Nr. 73 og 74; ennfremr Nr. 34 og 35 hér fyrri í þessu bindi. Ártal þessa dóms, „1482“, sem í handritinu stendr, fær ekki staðizt. Ártalið veltr að réttu lagi á árunum 1499—1508. Þau ár eru þeir lögmenn saman Þorvarðr og Finnbogi, en leingr ekki. Fimtudaginn næstan eptir Pétrsmessu um sumarið, þegar dómr þessi gekk, ber svo upp á mánaðardag á þessum árum:

| | |
|---|---|
| 1499. 4. Júlí. | 1504. 4. Júlí. |
| 1500. 2. Júlí (Þingmaríumessa). | 1505. 3. Júlí. |
| 1501. 1. Júlí. | 1506. 2. Júlí (Þingmaríumessa). |
| 1502. 30. Júní. | 1507. 1. Júlí. |
| 1503. 6. Júlí. | 1508. 6. Júlí. |

Árin 1499, 1503, 1504, 1505 og 1508 koma tæplega til greina, því að þing var venjulega úti 3. Júlí. Árin 1500 og 1506, eiga og að

---

1) Þ. e. Bjarnasonar.

ganga frá, því að Þingmaríumessa var að réttu lagi ósóknardagr. Árin 1501 og 1507 mættu vel standast, en bezt kemr heim árið 1502, 30. Júní. Þann dag eru jafnan flestir alþingisdómar dæmdir. Það er fyrsti þingdagr, og áríðandi mál voru sjaldnast dregin þeim degi leingr, og þetta málefni mun lögmönnum hafa þótt mikils varðandi, enda tvennar tylftir til þess kvaddar.

Vm løgmanna fullretti.

Aullum maunnum sem þetta Bref sia edur heyra senda Arnor Finnsson. Biørn [Gudnason . . . . . .] Jonsson. Skule Gudmundsson. Asmundur [Klemensson. Gudlaugur] Lofftsson Are [Gudnason. Bardur] Jonsson. Gudmundur Høskulldsson. Jndride Jonsson. Philippus Juarsson. Hallur Sigurdsson. Guttormur Skyjdason. Jőn Olaffsson. Høskulldur Jonsson. Sigurdur Narffason. Biarne Vigfusson. Þorleijffur Einarsson. Pietur Lofftsson. Audun Sigurdsson. Jőn Helgason. Helge Stephansson. Stephan Jőnsson og Þőrdur Helgason. suarner løgriettumenn kuediu gudz og vora kunnugt giőrande. ad ǻrum Efter gudz burd 1482[1]) a almenneligu Auxararþijnge. fimtudaginn næstañ Efter Peturz messo vm sumarid. vorum vier j dőm neffnder aff frőmum h(errum) Þorvarde Erlendssyne[2]) løgmanne sunnañ og austañ ǻ Jslande. og Finnboga Jonssyne løgmanni nordan og vestan til ad skoda og vm ad dæma. huorsu haffar fiesekter lőgmennerner skylldu med rettu eignast. j huorn tijma þeir ride vm land j sitt vm̃dæme. løg og Riettinde ad seigia manna j millum.

J firstu høffum vier sied og yferlesid vorz n(ǻdugasta) herra kong. maj. Breff sem hans stőrmecktugasta nǻd heffur vtgeffid løgmőnnum so hliodande. ad hans nǻd bydur og tilskylldar alla sijna þegna og vndersǻta. lærda og leijka a Jslande. ad vera heyrugier og hlydugier sijnum løgmőnnum. og giallda þeim og greijda allar sijnar skylldur. sem riettum løgmőnnum ber ad haffa. og adrer þeirra forverarar hafft haffa. Enn vier vitum ad syslumenn Eignast aull vj marka mǻl og þar fyrer jnnan fyrer sitt őmak. Þui leijst oss med riettu løgmenn skylldu Eignast xij marka mǻl og þar fyrer jnnan. Enn j almenneligum gődvilia dæmdum vier

1) Svo; gæti verið misritan fyrir 1502. 2) *leiðrétt*; Wigfussyne, hdr.

skattbőnda huort hann væri bulaus edur bufastur. og peninga ætte sem logbők vottar. skyllduga(n) til vera ad geffa og giallda xx alner. Enn alla adra þá menn sem minne peninga ætte og være j skifftetijund. giallda tiju alner med gődre affgreijdslu.

hier med alitum vier og vmskygnudum. med huorsu margan mann ad løgmenn skylldu med riettu rijda mega j sitt vmdæme nær þeir ride ad skipa[1]) málum manna Eda þá bændur edur adrer kongsins þegnar beijdast sijns riettar fyrer honum. leijst oss hann ecke med fleijre menn rijda mega Enn vid x^a mann. vtan bændur sialffer vilie annarz. Edur løgmenn Eige ad ottast offrijke. og rijde þá vppa sinn Eiginn kostnad. Enn aller adrer bufaster menn skyllduger til løgmanni greijdskap ad veijta vid x^a mann.

hier med dæmdum vier alla bændur og gridmenn. lærda og leijka. skyllduga til vera vppa kong. maj. vegna. laganna og riettarins. ad vera løgmönnum heýrugier og hlydugier. styrkiande þeirra suar til hins besta. so rietturinn fáe sinn framgáng. Enn huor hier a mőte þessum vorum dőme őhlydne syner. og eru őhlydugier og őheýruger n(adugasta) herra kongsins breffe. þá dæmdum vier þá seka vera. xiij. mörkum vid kong j breffabrot. Enn j dőmroff iiij mörkum. þui huor løgmannz vrskurd rýffur. er sekur iiij mörkum og hallde dőm sem ádur.

Og til sanninda hier vm þá samþyktu med oss þennan vorn dőm firrgreinder løgmenn og løgriettumenn.

---

40. 1506.

15. Júlí 1608. í Tungu í Fljótum.

Kaup-,máldaga- og landamerkjabréf um Tungu í Fljótum.

JSig. 213. 4to bls. 216—218, með hendi Haldórs konrektors Hjálmarssonar c. 1802.

---

1) skiffta, hdr.

Um Tungu i Fliótum epter gömlu Blade og rifnu.
med eiginhandar uppáskrift biskups Gud-
brands. ä eg[1]) þad siálfr. og set þad
her inn sem eg fæ lesid. til ad
varna þess undergangi.

Til minniss datum ꝏ. d og vj. þá Narfe Ingimundarson sellde jördena Tungu í Fliotum. sagde hann halfkirkiu skyllda være á jördunne med þeirre Renttu ad þar mætte konur í kirkiu leida. hión saman vijgia. Börn skijra. oc tækest heima kirkiutijund. og lióstollur. so þo heimilismenn. edur husmenn edur hiáleigu ættu fie. þá skyllde eij þeirra tijund í burtt gialldast. sagde Narfe kirkian i Tungu ætte ij kuillde. eina kistu stora. forn messuklæde alfær med kaleik. kluckur ij. tialld ix alna. Orolat[2]). einn koparhialm. met og skaler med kopar. Bækur iij. messubok. kyriall. og de san(c)tis bok. ij liosjarn. skarjarn. elldjarn og glodarkier. alltarisklæde med glit. og alltarisbrun. saurdukur og corporall. Jtem krossar ij med vnderstodum. Mariu likneski og Nichulas lijkneske. päxspialld. liosbere og vpphalldzstijka. og ein Bialla i kornum. og einn stoll. og kirkian helgut gude og heilögum Nichulam[2]).

Jtem sagde Narfe jorden Túnga ætte allan halfan Huarfsdal fyrir vestan fram ad Mőagile. þadan og fram j giegn. og være þängat vanaligr lamba Regxtur vr Fliotum. ad Reykiarhóle fyrir austan fram. Enn ad Brecku fyrir vestan fram. Og veniuligr Lambatollur af öllum þeim Bæium er framar standa. lamb edur v alner af tug huörium. Enn Tungumenn skylldu hallda vpp adalriett fyrir heiman Kleyfar. og äminna Bændur. ad bæta ad sijnum hiariettum. edur ábýrgiast alla mysdrætte vid eigendur.

Jtem sagde Narffe. ad jorden Tunga ætte allan halfan Galltardal. fram vnder jokul. og land jtolulaust vt j Heliargil. fyrir vtan Þorgaufs stade. vtan jordin Gautastader ætte þangat torfskurd arliga. tuenna xij fedminga ad torbvelle. Og jordin Þorgaufs stader ætte sláttuteig vikuverck ä ytra Tungunes. garda ä millum. og Regstur j annad mal æ Tungudal. ä sumartijma fyrir malnýtu.

1) þ. e. Haldór Hjálmarsson. 2) Svo.

[Her upp á hafde biskup Gudbrandur skrifad sem fylger]:

Þad kiennest jeg Gudbrandur Thorlaksson og medgeing med minne eigen hendi. ad jeg hef nu skodat landzleg á Galltardal. bæde fyrer austan aña og vestan. vegna þess agreinings sem hingat til hefur vered a mille Túngu og Moafellsmanna. ad allmargir seigia og halda. Tunga eige ecki leingra fram̃ enn j Kieralldagil. eda Haugagil. enn gieta þo ónguum manne. og ongre jordu med sannindum eda nockru skiale eignad þad land sem er fram̃ fra þui adur nefndu gile. þar fyrir med þui jeg veit ecke betur fyrir gude effter mijnum brefum og bevijsingum og þeim gognum sem eg hef fyrir jordinne Tungu. og epter þui sem hun var mier selld. sem godra manna bref votta. enn ad [kirkiunnar jörd Móafell eige ecke land yfer vm[1]) Galltaræ. þar fyrir skipa jeg. byd og bifala Gunnare Ormzsyne ad hallda þessum halfum Galltardal vnder Tungu og nyta sier hann og j ad vinna. þad hann kann og ma. þangad til og so leinge einhuorier leida sig þar til med liosare (og) logligre gögnum og skilrijkium. enn jeg hef fyrir þeim parte dalsins fram̃ fra Haugagile. So skipa eg Gunnare ad logfesta jördena Tungu. vm sinn á huðriu Aare vid kirkiu sijna. med öllum þeim vmmerkium sem jordunne Tungu til heyrer. og so sem jeg hef hana keypt. Til sanninda vm þetta sem nu er skrifad er þetta min eigen handskript. skrifad j Tungu. fostudagenn fyrir Þollaksmesso. anno 1608.

Gudbrandur Thorlaksson.
m. e. h.

---

1) [eptir gátu Haldórs Hjálmarssonar, sem ritar svo um þessi skjöl: „Allt hellt ec mic geta í ráded í því fyrra, nema eitt ord, sem ec myndade sem gat epter hinu, oc gæte trúad, ad sá þad hefr skrifad, hafe ej helldr getad lesed. Biskupsins uppáskrift hellt ec mic alla lesed geta, med nockurn veginn vissu, nema eina línu þar sem her er eydan, því þar hafde bladit sundr rifnad rett um midia línuna mest alla, og ordit sem þar kemr epter: galltar æ: er skírt, enn þo ej vidkunnanlegt. Mætte eg voga ad geta til, epter þeim styrk sem ec hefe af pörtum stafanna vidast hvar, munde ec þetta ur giora: „enn ad kirkiunnar

41. 17. Marts 1508. á Eyri.

LANDAMERKJABRÉF milli Hvamms og Sanda í Dýrafirði.

JSig. 222. 4to bls. 348, með hendi síra Magnúsar Snæbjörnssonar 1756 eptir sjálfu frumritinu, og er hér alt sæmilega diktað, og bréfið í þessari mynd nokkurn veginn ógrunsamlegt. Sbr. Dipl. Isl. VIII, Nr. 161.

Landamerke mille Hvamms og Sanda.

Þad giörum vier epterskrifader menn Hialmur Sveinsson. Sigurdur Þormodsson og Grijmur Olafsson gődum monnum kunnugt med þessu voru opnu brefe. at föstudagenn næsta effter Gudmundardag. þa lided var fra burde sonar guds Jhesu Christi. m. d. og ătta ăr. ă Eyre í Arnarfijrde. vorum vier til kallader af velbornum manne Jőne Bonda Biörnssyne. til at yferlıjta tvö gömul kaupbref fyrer jördunne Hvamme i Dýrafijrde og Sanda kirkiu sokn liggiande. med heilum oskiertum hangande jnnciglum fyrer bădum. var annad brefet lxxxvij ăra gamallt[1]). Enn annad. l. og vj ăra[2]). Stődu i hvöriu fyrer sig so latande ord medal annara orda.

Hvammur ă land jnn i Svartabacka. og þadan gagnvart a fiall upp. Enn ad utañ i gard þann sem geingur ur fiöru. og gagnvart upp ă Sandafell. fyrer utañ gras enn jnnan Þingeyre.

Og til sannenda hier um̃ setium vier vor jnncigle fyrer nedañ þetta bref. skrifad i sama stad og ă deige sijdar enn fyr seiger.

Framañskrifad er samhliőda sinum original. hvörs jnnsigle öll þriu eru heil og obroteñ. Til vitnes ockar nöfn sem samañlăsum ad Söndum þann 14. Aprilis 1756.

Magnus Snæbiörnsson. Biörn Einarsson

---

jörd Móafell eige ecke land yfer vm Galltaræ." Þó hefe ec um sum ordin litla vissu. — utan á brotit var skrifat: „Eign oc máldagi jardarinnar Tungu í Fliótum 1608." 1) þ. e. frá 1420. 2) þ. e. frá 1452.

42. 1514 — 20. Maí 1619.

Transscriptum af níu bréfum um Ásgarð í Hvammssveit, sem nú eru öll glötuð, nema þrjú ein.

AM. Apogr. 5329 „Ex originalibus“ (AM).

Sera Gisli Gudbrandzson. Biörn Þordarson. Pall Skulason. Pietur Þordarson. Bödvar Philippusson. transscribera ex originalibus skirum og őrotnum med hångandi jnnsiglum þessi epter skrifud bref. ad Asgardi j Hvammsveit 20. Maii 1619.

1°. Dőm um umbod barna Gunnlaugs heitins Teitssonar. 1514. 1514.

2°. Kaupbref um Asgard milli Teits Þorleifssonar og Eiriks Gudmundzsonar 1533. 4. Okt. 1533.
[= DI, IX, Nr. 565].

3°. Kaupmålabref Eiriks Gudmundzsonar og Gudrunar Gunnlaugsdottur. 1534. 1534.

4°. Bref um Magnusskőga og Hvalså epter testamente Teits Þorleifssonar. 1536. 1536.

5°. Biskups Augmundar stadfestingarbref um Asgard og Magnus-skőga. 1538. 1538.
[= DI, X, Nr. 132].

6. Þorleifs Pålssonar lögmanns urskurd um Asgard og Magnus-skőga. 1545. 1545

Jtem transscribera sömu menn, ex originalibus, loco et die prædictis, j ödru lagi:

1°. Vitnisburd Jőns Eirikssonar um eignarmenn Asgardz. 1534. 30. Júlí 1534.
[= DI, IX, Nr. 581].

2°. Vitnisburd Snorra Snorrasonar og Sveins Biarnarsonar um sama efni. 1541. 1541.

3° Hiardarhollts dőm Pieturs Einarssonar um Asgard og Magnus-skőga. 1545. 1545.

4°. Þorleifs lögmanns urskurd, um Asgard og Magnusskőga 1545. eundem ac supra. 1545.

[Þesse 2. transscripta hefi eg haft til låns fra Sigridi Gudmundardottur Eckiu Olafs Þorarinssonar i Asgarde i

Hvammssveit 1707. Voru bædi á pergament. og liet eg þar úr skrifa óll þesse document[1]).

---

43. 25. Oktober 1517. á Möðruvöllum.
9. April 1561. á Hóli.

VITNISBURÐR um gjöf Þorleifs Grímssonar til Guðnýjar systur sinnar á brúðkaupsdegi hennar og Jóns Sturlusonar.

AM. Fasc. LV, 3, frumrit á skinni; öll (5) innsigli dottin frá.

Ollum og sierhuorium huorar weru edur wirdingar. stettar edur embættiz þeir eru sem þetta mitt bref lesa edur heÿra lesid Sendir eg Einar prestur Hallsson Quediu Gudz og mina kunnigt giorande þá lidit war fra gudz burd M. d lxj ar a Hole j Kinn miduikudagin j paskawiku wm weturin kom til min Magnus Jonson Sÿslumann j Þingeyarþingi. Beiddi mig og krafdi wpp á gudz. skÿlldunar og laganna wegna Sannan og riettan witnisburd wm at bera. þann frekastan eg mÿndi wm þá giof er Þorleifur heitin Grimson hafdi giefid Gudnÿu Systur sinne. Nu eru þad laganna ord. Eingin skÿlldist sinn witnisburd þrem arum leingur at æbyrgiast. j audru lagi krefur heilug skript sierhuern sannlegs witnisburdar þar hun fÿrerbÿdur falskan witnisburd. jtem seiger hun klarliga med wtþrÿcktum ordum at sannleikans warer standa æfinliga og en. Huor sanngiarn er seiger huat riett er. Og j audrum stad a ongua leid seig j mote ordum sannleikans et cetera. fyrir þessara greina saker þore eg eij at dÿlia sanleikin. helldur wil (eg) frialsligana seigia sem eg ma fÿrir gude og monnum. med hreinni samuisku. andsuara.

J fÿstu þá lidit var fræ gudz burd M. d xvij ar Sunnodaginn næstan fyrir Simonis et Jude á Modruvollum j Eÿiafirdi war eg til kalladur med þeim odrum dandismonnum

---

1) [með hendi Árna Magnússonar. Allar þessar afskriptir hafa farið inn í þær fornbréfa uppskriptir Árna, sem hann hafði raðað eptir aldri og ártölum. En af þeim brann alt 1728, sem eldra var en frá 1551.

witne vm at bera þǫ̈ giof er Þorleifur medkiendist at han hefdi giefid og þǫ̈ gaf morgum hia werðndum. Gudnýv Grimsdottur sýstur sinne a þessum hennar giptingardeigi. sem war jðrdina halfa Mannskapshol ǫ̈ Hofdastrond og þar til xxx[c] j ollum þarfligum peningum fridum og ofridum. þar med lofadi fyrr greindur Þorleifur at afhenda þessa peninga Jone Stullasýne bonda henar þǫ̈ hann willdi vid taka.

Woru þesser menn til kalladir og vid stadder þǫ̈ eg wt gaf þennañ minn vitnisburd Siara Fuse Guondzson. Ingialldur Hognason. Petur Philipusson og Magnus Narfason og settu sin jnsigle med mino. fyrir þennañ vitnisburd huor skrifadur var j sama stad. deigi og ari sem fyr seigiʀ.

---

44. fyrir 1520.
31. Marts 1563. á Hólum.

Vitnisburðr um landamerki Seylu á Langholti í Skagafirði eptir reikningsbók Gottskalks biskups.

AM. 255. 4to bls. 243—244, bréfabók síra Skúla Þorlákssonar á Grenjaðarstað, skr. 1687—1698. — MSteph. 27. 4to bls. 80, Svartskinna með hendi Benedikts lögmanns Þorsteinssonar c. 1720—30.

Vm̃ landamerke Seilu j Skagafirde.

Þad giðrum vier Jon Biðrnsson. Sueijrn Bardarson prestar godum mðnnum kunnugt med þessu ockru opnu briefe ad vid hoffum sied og yferlesed so latande landamerkiss[1]) brieff jardarennar Seylu, j Skagafirde j Glaumbæar kirkiusokn sem Biskup heitenn Gottskalk godrar minnijngar haffdi jnnskriffad lated[2]) j sijna Reiknijngzbok. og Biskup Olafur heffur ockur synt og tied[3]). og setti sitt jnsigle fyrer. ad þad hans eigeñ handskrifft være sem hier effter skriffad stendur.

Ad Oddur Kolbeinsson heffdj frambored vnder tueggia ma(n)na vitne. sem er Jonz heitinz Gijslasonar og Magnusar heitinz Arnasonar. First ad jordeñ Seila ætte j Selєyar sijke og halffa veijde fyrir Birtingarhil. Tuo Holma j kuijsl-

1) —kia 27. 2) sl. 27. 3) tiäd 27.

enne og halffa knjslena j Sandengissskard[1]). þa Riettsyniss j kloftasteina. þadan þa j Raudalækiarbotn. þa vppi steckiarstodu sem stendur fyrer vtan og nedan Jpisshool. þadan j Landgrafarhorn. vr Landgraffarhorne Riettsyniss j Sæmundaraa. og halffa Sæmundaraa j fornt vatnzgotuskard. er liggur fyrer nedañ Skarsaa[2]). þadan j Tofftarstödu. þadañ j Skipalæk. En vm̃ broddgeira sagdist hañ eij sueria.

Og til sanenda hier vm̃ sette Biskup Olaffur sitt jnnsigle fyrer þetta vitnissburdarbrieff med ockrum firrskriffadra manna jnsiglum. huort ed skriffad var a Hoolum j Hialltadal sijdasta dag martij Anno M. D lx og iii.

Olaffur Hialltason Biskup a Holum.  Jon Biörnsson prestur[3].

Sueirn Bardarson. prestur[3]).

---

## 45. 17. Apríl 1520. á Ánastöðum. 29. Maí 1553. á Holtastöðum.

Vitnisburðr um prófentu þá, er Þorbjörn Gunnarsson hafði gefið Ívari Brandssyni.

AM. Apogr. 429 „Ex vidisse facto 1580. saman vid Harastada Brefen" (AM).

Svo felldan vitnisburd ber eg Philpus Gifslason. at eg var (þar) i hia. og heyrda eg a a Aanastodum a Vatnznese þridiadaginn epter paskaviku þa lided var fra guds burd M. D og xx ar at þau tauludust vid. Þorbiörg Þorlaksdotter. og Þorbiörn Gunnarsson. epter Ivar Brandsson daudan. um þa proventu sem fyr greindur Þorbiörn hafde gefed Jvare Brandssyne bonda fyrnefndrar Þorbiargar. Sagdist Þorbiörn svo hafa skiled fyrer um sina proventu. ef Þorbiörg lifde Ivare leingur þa skylldi þesse proventa og Þorbiörn falla til fyrrgreindrar Þorbiargar. beiddest Þorbiörn þessa framfæris af tijttnefndre Þorbiörgu. enn hun sagdi þar nei til. at tacka

1) —skurd 27. 2) Skardsá 27. 3) Þessi nöfn skipta sætum i 27.

vid honum. þui hun sagdest þar ecke kona til vera. baud Þorbiörn sig i þessa proventu tvijsvar edur þrisvar svo at eg heyrde. enn fyrrgreind Þorbiörg gaf ed sama svar þar til. ad taka eigi vid honum. og þui mætte hann gefa sina proventu hverium hann villde fyrer sier. Og til meire stadfestu hier um. set eg mitt innsigle fyrer þetta vitnisburdarbref. er skrifad var um vorid. a Holltastödum. a manadagin næstan fyrir Bonifacij. þa lidid var fra guds burd M. D. l. og iij.

---

46. 17. Apríl 1520. á Ánastöðum.
29. Maí 1553. á Márstöðum.

Vitnisburðr um prófentu þá, er Þorbjörn Gunnarsson gaf Ívari Brandssyni.

AM. Apogr. 430 „Ex vidisse facto 1580. saman vid Harastadabrefin" (AM).

Suo felldan vitnisburd ber eg Þormodur Arason. at eg var þar i hia. og heyrda eg a. a Aanastödum a Vatnsnese þridiudagen epter paskaviku. þa lidit var fra guds burd M. D. og xx ar. at þau tauludust vid. Þorbiörg Þorlaksdotter. og Þorbiörn Gunnarsson. epter Ivar Brandsson daudan um þa proventu. sem fyrr greindur Þorbiörn hafde gefid Jvare Brandssyne bonda fyrr greindrar Þorbiargar. Sagdist Þorbiörn svo hafa fyrer skilid um sina proventu. ef Þorbiörg lifdi Ivare leingur. þa skillde þesse proventa og Þorbiörn falla til optnefndrar Þorbiargar. beiddist Þorbiörn þessa framfæris af Þorbiörgu. enn hun sagde þar nei til. þui hun sagdist þar ecki kona til vera. baud Þorbiörn sig i þessa proventu tvisvar edur þrisvar. enn fyrr greind Þorbiörg gaf þar ed sama svar til. ad hun sagdest ecki vera kona þar til ad taka vid hönum. og þvi mætte hann gefa sina proventu hvörium sem hann villde fyrer sier. Og til meijre stadfestu hier um þa set eg mitt jnnsigle fyrir þetta bref. er skrifad

var a Márstödum i Vatnzdal a manadagen fyrer dyradag um vorid. þa lidid var fra guds burd. M. D. l. og iij ár.

---

47. 24. Apríl 1522. á Eyri við Seyðisfjörð.

Vitnisburðr um það, að Ingibjörg Haldórsdóttir hafi gefið þá feðga báða Guðna Jónsson og Björn Guðnason kvitta um andvirði Kirkjubóls í Valþjófsdal.

AM. 196, 4to 174r—174v, frá síra Sigurði í Holti, skr. á síðara hluta 17. aldar (eptir afskript frá mag. Jóni Helgasyni).

Þad giöre eg Þorleyffur Aurnólfson godum mönnum viturlegt med þessu myn(n)u opnu briefe. ad eg medkiennist. ad eg var kominn til Kyrkiubólz i Valþiófsdal. þá ad Gudne böndi Jónsson var ordinn eigande ad offt nefndu Kyrkiubóle. ad eg vissa ad Ingebiörg vitiadi þá enn Gudna bónda. og beydde hann nockurar ásiá. þui hún þættest þa enn vera vanhalldiñ fyrer Kyrkiubol. Enn hann suarade henne. ad hann þeynkte ad hún mundi þar ey vppa meyga klaga. þui þar være fullur peningur fyrer kominn. enn fyrer gudz skulld og þynz bródurs skulld. þá vil eg giöra þier nockra gladning. fieck hann henne þá 4 málnytu kúgilldi. 3 fiordunga smiörs. sæng og 6 álner med smátt vadmál. og þar effter töku þaug höndum samann. ádur skriffadur Gudni og þráttskriffud Yngebiörg. gaff hun hann þá og hans erffingia og effterkomendur kuytta og ákiærulausa fyrer sier og öllum synum erffingium og effterkomendum vmm Kyrkiuból i Valþiófsdal. huört hún heffdi mátt eiga myked edur lyted. edur i huorn máta hún heffdi þad mátt erffa. eda vnder hana bera effter födur sinn. eda adra menn. og so jardar verd. og medkiendist þá hún heffdi fulla peninga og alla vppborid fyrer fyrskriffad Kyrkiuból. so hún vel ánægdist. og medkiennest eg fyrskriffadur Þorleyffur Aurnólfson. ad eg var i hiá vidtale þeirra Biarna(r) Gudnasonar og tyttskriffadrar Ingebiargar Halldorsdóttur effter Gudna heytinn látinn. spurdi þá Biörn Gudnason Ingebiörgu ad. huört hún mætte þa nockud thiltal haffa til Kyrkiubóls i Valþióffsdal. enn hún sagde þar

þá neij fyrer og medkiendist hún heffdi fulla peningna og alla vpp fyrer þad dreijged. og ádur kuijtt gieffed iörd og iardarverd. og þá tőku þaug enn höndum samann Biörn og Jngebiörg. og gaff hún þá enn kuijtta iörd og iardarverd med öllum sama skilmála sem fyrrskriffad stendur. Og til sanninda hier vmm setta eg mitt innsigle fyrer þetta vitnisburdarbrieff. er skriffad var ad Eyre vid Seydisfiörd fimmtudaginn nædstann effter[1]) festum Iőhannis Holensis Episcopi arum effter guds burd 1522.

---

48. 1524.

Ágrip af vitnisburðarbréfi um landamerki Saura í Nesjum í Húnavatnsþingi.

Eptir Þingbók Jóhanns Gottrups í Húnavatnsþingi 1720—1726, bls 46—47, innfært í landaþrætumál þeirra síra Arnbjarnar Jónssonar á Undenfelli og Lauritz lögmanns Gottrups 29.—31. Mai 1720 milli Óss og Saura í Nesjum.

Ad auk þessa eru af prestenum framlögd tvo document skrifud á kalfskinne.

Annad gamall vitnissburdur effter skrifadra (manna) Þorsteins prests Jonssonar. Einars Bardarsonar. Clemens Jonssonar og Tumasar Jonssonar hliődande um þad. ad þá lided var frá guds burd M. D xx og iiij ár. hafe Skule bonde Gudmundsson sellt Baudvare Jngemundarsýne jordena Saura med þessum landamerkium tilskildum. ut at Laxá. og sudur ad griőtgarde þeim sem er fýrer utan jordena Jtranes.

Þetta kalfskinsbref fýrer Riettenum upplesed og uppaskrifad. er innsiglalaust og hanga nidur þveingerner[2]).

---

1) *leiðrétt;* fyrer, hdr., sem fær ekki staðizt, því að það yrði *skírdagr* (17. Apr.); við hann (coena domini) hefði án efa miðað verið, væri bréfið gert þann dag. 2) Hitt bréfságripið er af kaupbréfi um Saura og Einarsnes frá 9. Mai 1631, og gefr einga aðra fræðslu um neitt en að þessar jarðir hafi verið 20 hdr. að dýrleika.

**49.** **6. Maí 1529.** **á Heydalsá**

Vitnisburðr um gjöf Þórkötlu Árnadóttur eða gjald á jörðunni Hlíð í Kollafirði til Jóns sonar síns „ábóta, að kendr er,“ en Árna syni hennar hafði til erfða borið eptir Dagstygg Jónsson föður sinn.

AM. Fasc. LIX, 30, frumrit á skinni. — AM. Apogr. 1502. — Ártal þessa bréfs „1599“ í frumritinu hlýtr að vera misskrifað, líklega fyrir „1529“. Sbr. bréf frá 14. Sept. 1521. Dipl. Isl. VIII, Nr. 610.

Þat giore ek Jorundur Sueinbiarnarson godum monnum kunikt med þessu minu opnu brefi at ek uar þar j hia sa ek ok heyrde ek at Þorkatla Arnadotter galltt Jone syne sinum abota at kendur er allan þann part i Hlid j Kollafirde er Arna syni sinum[1]) bar til erfda eptter Dagstygg heitinn Jonson faudur sinn sem gud hans sal nade til fullrar eignar ok æfinlegrar undan sier ok sinum erfingium aullum audurum[1]) en haonum[1]) enn under fyrskrifadan̄ Jon abota ok hans laugliga erfingia. skilde hun svo fyrir at hun gyllde honum þennan fur[1]) greindan jardarpartt j sin þionauztulaun[1]) upp a þau niav[1]) ar er hann hafde hia henne uerit ok ecki kaup upp borit. sagdizt fyrskrifud Þorkatla hafa haft fyrir adur greindum omaga Arna fra þui er fader hans fell fra ok til þess er gud kallade hann burtt. ok hefdi optt nefndur Jon abote allan þann tima hia sier uerit. sagdizt hun þui ei uita betur en hun mætte þat rad giora fyrir þessum jardarpartte sem hun uillde. Ok til sanninda her um setur ek mitt inncigl(e) fyrer þetta uitnisburdarbref huertt er skrifad uar a Heydalsa[2]) uppstigningardag um uorit þa er lidid uar fra guds burd. ꝏ. d. tueir[3]) tier og niu ar.

---

**50.** **10. Oktober 1531.** **í Miklagarði.**

Kaup- og landamerkjabréf um Tannstaðabakka í Hrútafirði.

Eptir afskript í málsskjölum frá 1764, í Þjóðskjalasafninu, staðfestri á Bjargi 1. Júlí 1764 af Einari Magnússyni, bróður Skúla fógeta.

---

1)Svo. 2) hēydalsa, frumr. 3) tilgáta; „viiii“ frumritið.

Copie af landamerkiaskiale millum Tannstada og Tannstadabacka.

Þad giörum̄ vier Gudmundur Arason. Hallur Stirkársson. Jon Einarsson og Arnfinnur Einarsson gődum̄ mönnum kunnugt med þessu voru opnu brefe ad ár(um) efter guds burd MDXXX og eitt ær á Mel i Midfijrde sunnudagenn næstan̄ fyrer Philippi og Jacobi[1]) vorum̄ vid[2]) i hiá sáum̄ og heirdum á ord og handaband þessara manna af einnre hálfu Ara Jonssonar lögmanns enn af annare hálfu Magnusar Olafssonar ad so fyrer skijlldu ad greindur Magnus sellde Ara Jonssyne alla hálfa jördena Tannstade i Hrutafijrde i Stadar kyrkiu sőkn med upplage og samþicke Katrinar Sniőlfsdőttur konu Magnusar. hver þá var þar nær stődd. sellde offtnefndur Magnus sagda jörd greindum Ara med öllum þeim gögnum̄ og giædum̄ sem greindre hálfre jördunne fylger og filgt hefur ad fornu og nýu og ecke er med lögum̄ frá komed og hann vard fremst Eigande ad. Hier i mőt gaf Are Magnuse atta málnitu kugilde og átta hundrud i frijdvirtum̄ peningum̄. Skylde Are hallda greindre jördu til laga. enn Magnus svara laga Rifftingum. Sagde Magnus til þeirra[2]) landamerkia: Ur steine þeim stőra er stendur i fiörunne fyrer utan̄ völlenn á Backa. og þadan̄ Rettsyne uppi vorduna. og þadan̄ upp[2]) lækiarbugenn og so Rettsyne upp i Storahől og þadan̄ uppi kelduna. rædur kelldan̄ ut i Grijmsæ. enn æen̄ ofan̄ i siő.

Og til sannenda hier um̄ setium̄ vier firr skrifader menn vor jnnsigle fyrer þettad[2]) bref. er skrifad var i Micklagarde i Eyafijrde þridiudagenn næstan̄ fyrer festum reliqviarum. á sama are og fyrr seger.

---

51. 22. Apr. 1533 — 26. Sept. 1571.

Transscripta tíu bréfa, er snerta Hvanneyrarfólk í Borgarfirði, og eru öll bréfin nú glötuð, nema eitt.

---

1) þ. e. 30. Apr. 2) Svo.

AM. Apogr. 4788b, með hendi Árna Magnússonar.

Fra Sira Þordi Jonssyne á Stadarstad hefi eg (1709 um hausted) haft til láns stort Transscriptum á pergament, innehalldande. 10. bref um Hvanneyre i Andakil. Brefen eru:

22. Apr. 1533. 1°. Vitnisburdur Snorra Þormodzsonar. Gudmundar Erlendzsonar. og Jons Audunarsonar. um
þad sem fram̄ for á Hvanneyre 1533. þridiudaginn næstan fyrir Jonsmesso Holabiskups: nefnelega: um felag Jons bonda Þordarsonar og Ragnhilldar Einarsdottur: Jtem arfleidslu Einars Eirikssonar og Setseliu Eiriksdottur. Vitnisburdurenn er dateradur á Gilsbacka in
3. Marts 1534. translatione Sancti Johannis Episcopi Holensis. are sidar.

2°. Erlendz Þorvardzsonar lögmanns urskurdur um ættleiding barna Sira Eiriks Jonssonar. dat. Strönd i Selvogi 1545. sunnudaginn næstan
30. Aug. 1545. epter Decollatio Johannis baptiste.

3°. Vitnisburdur Þorbiarnar Þorleifssonar og Sigurdar Jonssonar um þad sem fram̄for á Hvann-
6. Mai 1537. eyre 1537. sunnudaginn næstan epter krossmessu um vorit: nefnilega: Leyfi Jons bonda Þordarsonar um arfleidslu barna Sira Eiriks sonar hans. og medkenning Jons um medtekt þeirra peninga sem Sira Eirikr atti honum
1538. her fyrir ad luka. Dat. Reykhollte áre sidar.

4°. Domur Marteins biskups og. 12. manna 1549.
12. Aug 1549. manudaginn epter Laurentii á Hvanneyre, hvarinne þeir dæma arfleidslu Einars Eirikssonar löglega, og Hvanneyre ad vera eign Einars.

5°. Marteins biskups urskurdur, ad Hvanneyre sie eign Einars Eirikssonar. Jtem veiting hans til
16. Sept. 1549. Einars á kirkiufe Hvanneyrar kirkiu. Dat. Alftanese, manudaginn epter Exaltatio Sancte crucis 1549.

6⁰. Vitnisburdur Jons Jonssonar, Arna prestz Jonssonar og Jons Jonssonar um þad sem framfor á Jndridastôdum i Skoradal, manudag(inn) næstan efter Magnusmesso Eyajarls 1540 og 12. mille Sira Magnus Jonssonar og Einars Eirikssonar, nefnelega: ad Sira Magnus uppgaf sitt tilkall til halfrar Hvanneyrar, enn Einar feck Sira Magnuse þar á mot Kvikstade og Tungu i Hvanneyrar kirkiusokn. Vitnisburdurenn er dateradur Hvanneyri fôstudagenn epter uppstigningardag. are sidar. — 18. Apr.[1]) eða 18. Dec. 1552. — 12. Mai 1553.

7⁰. Vitnisburdur Snorra Þormodzsonar. Asmundar Lytingssonar og þriggia annarra, um ættleiding Steinunnar Jonsdottur til barna sinna Einars, Helgu og Astu, og samþycke Sira Olafs Jonssonar hier til. framfor þetta i Reykhollti 1545. manudaginn epter Bartholomæi enn vitnisburdurenn er dateradur i Reykhollte (in) Cathedra S. Petri 3ur arum sidar. — 31. Aug. 1545. — 22 Febr. 1548.

8⁰. Erlendz Þorvardzsonar lôgmanns urskurdur um þessa næst fyrirframanskrifada arfleidslu. Dat. Þingnese 1550. dagenn epter Nikulassmessu. — 7. Dec 1550.

9⁰. Gissurar biskups Einarssonar urskurdur um hionaband Sira Eireks Jonssonar og Steinunnar Jonsdottur. Jtem um qvitteringar þessara manna fyrir þeirra barneignum af biskup Øgmundi. Dat. Skalhollte 1545. Jpso die Sancti Augusti[ni]. — 28. Aug. 1545.

10⁰. Erlendz Þorvardzsonar lôgmanns urskurdur um hionaband Sira Eiriks Jonssonar og Steinunnar Jonsdottur og skilgetning barna þeirra. Dat. Strônd i Selvoge manudaginn næstan epter Decollatio S(ancti) Joh(annis) baptistæ 1545 (Mdlxv. stendur hier i brefenu). — 31. Aug. 1545.

---

1) er annar páskadagur 1552.

Þesse óll fyrrskrifud bref. 10. ad tólu. transscribera ex originalibus.

[1])Gisle Jonsson Superintendens Skalholltzstiktis. Loptur Narfason. Freysteinn Grimsson. Jon Eigilsson. prestar Skalholltz stiktis. ā Hvann-
3. Sept. 1571. eyri i Andakil. manudaginn næstañ epter xijta sunnudag Trinitatis 1571.

[2])Þordur Gudmundsson lógmann sunnan og austan ō Jslandi ā Hvanneyri i Andakil 26ta. dag Septembris 1571.

Eg hefi hiedan utskrifada Numeros 6. og 10. enn hin óll brefen hafde eg haft in originalibus fra Sira Þorde Jonssyne.

---

52. 28. September 1533. á Munkaþverá.

Ágrip af bréfi um Kristnes í Eyjafirði.

Þingbók Eyjafjarðarsýslu 1728—1742 í þinghaldi frá 8. Maí 1730.

Ehruverdugur profasturinn Sira Þorsteirn Kietilsson liet vpplesa vidimeradar copiur tveggia kaupbrefa firir Jordunne Christnese.

Þad eina af dato 1461 i Modrufelle i Eyafirde laugardaginn firir uppstigningardag[3]).

Hitt annad dat. i itra Diupadal i Eÿafirde manudaginn næstañ efter Michaelismessu 1473[4]).

bæde herma fra landamerkium og itókum sómu iardar firir austañ Eÿafiardarā.

Þar med filgde tveggia manna vitnisburdur um Faxakieldu Christnessiardar landareign ahrærande. dat a Mukaþvera næsta dag firir Michaelismessu 1533.

---

1—2) Þesse vidimus standa bæde nedan vid documenten ā sama bokfellinu sem documenten eru ā skrifud. og er sierhvert vidimus fyrir sig. (AM.). 3) = Dipl. Isl. V, Nr. 209. 4) Nr. 24 hér fyrir framan.

53. 1535

ÁGRIP af skipunarbréfi Ögmundar biskups um landamerki Dögurðarness og Arnarbælis.

Tekið upp í dóm eða áreið um landamerki Dögurðarness og Arnarbælis frá 16. Júní 1707 í afskript frá c. 1730—40 meðal Dagverðarnesskjala í Þjóðskjalasafninu í Reykjavík. Bréf þetta fæst nú ekki öðru vísi en í þessu ágripi. Sbr. DI, IX, 622; X, 88.

Fÿrst skickun Biskups Øgmundar til Dada Gudmundssonar. og Sira Olafs Gudmundssonar ad rijda å þetta land. epter þad Sira Biarne Sumarlidason og Sira Jon Halldorsson hőfdu båder med sijn bref og skilrijke komid fÿrer leikra og lærdra dom å alþinge anno 1535.

---

*54. 6. Maí 1536. á Flugumýri.

JARÐAKAUPABRÉF Ara lögmanns Jónssonar og Páls Grímssonar um Holtastaði og margar fleiri jarðir.

AM. 198. 4to bl. 28—29, safn frá Jóni lögmanni, skr. c. 1600. — Sbr. DI, IX, Nr. 634. Þar er bréfið prentað eptir fúinni afskript.

Skifta giorningur wm Narfastade sem þesser epter farandi domar vm hlioda.

Þad gioruṁ Wier Jon Mattheasson. Sueinn Finnbogason. prestar. Olafur Jonsson. Eirekur Gudmundsson. godum monnum kunnigt med þessu uoru opnu brefi ad arum epter gudz burd 1536. å Flugumyri j Skagafirdi. laugardaginn næstañ epter krossmesso vm̃ vorit. vorum vier j hia saum og heyrdum A ord og handaband. Ara Jonssonar logmannz og Pals bonda Grimssonar ad suo fyrer skildu ad nefndur Are selldi fyrr sőgdum Pali jardernar Holltastadi j LangaDal fyrer 90c. jordina Strijug fyrer 30c. jordina Vatnahuerfi fyrer 30c. jordina Lækiardal fyrer 20c. annañ LækiarDal fyrer 10c. Wfagil fyrer 16c. Refstadi fyrer 12c og þar til 8c j fulluirdis peningum. liggia fyrr nefndar jarder j LangaDal og Laxårdal. med ollum þeim gognum og giædum sem greindum jordum å med logum ad fylgia og nefndur Are vard fremst eigandi

ad. Sagdi opt nefndur Are ad kirkian á Holltastodum ætti suo heitandi jord sem hier epter skrifad stendur. Huamm j Langadal og Kirkiuskard á Laxardal. Kagadarhol og Hamar á Aasum fyrer vestan Blondu og þar til x malnytu kugilldi. skylldi Pall bonde suara kirkiunne sogdum kugilldum. Hier j mot gáf og gallt greindur Pall opt nefndum Ara jordina Einarstadi j Reykiadal fyrer 90c. Glombæ fyrer 30c. jordina Hallbiarnarstadi fyrer 30c. jordina Narfastadi fyrir 30c. jordina Fliotzbacka 20c. jordina Vijda 12c. liggia þessar allar jarder j Einarstada kirkiusokn. og þar til jordina Helluvad vid Myvatn fyrer 12c med ollum þeim gognum og giædum[1]) sem greindum jordum á med logum ad fylgia og nefndur Pall vard fremst eigandi ad. sagdi opt nefndur Pall ad kirkian á Einarstödum ætti xc j heimalandi og jordina Kuiendisdal og jordina Biorg j Kinn og suo stodu til borgunar fyrer kirkiunnar peninga jardernar Holar og Dadastader j Reykiadal. skilldi Are meiga leysa þær jarder til sin og giallda kirkiunne fulla peninga þar fyrer ef hann villdi. suo atte kirkian á Einarstodum x malnytu kugilldi. skylldi Are suara þeim kugilldum og þar til atti Pall ad suara nefndum Ara kirkiunnar vegna xc j fullvirdispeningum. gaf og giordi Biskup Jon kuittan allan reikningsskap fornan og nyan þann sem þar til hefdi fallid til Einarstada og Holltastada kirkiu ad tilskilldum þeim kirkiueignum sem fyrr skrifad stendur og þeim jtaulum og ornamentis sem kirkiurnar eiga adur. skylldu huerier fyrr sagdra manna hallda thil laga þeim jordum sem keyptu enn suara lagariptingum a þuj sem huorer selldu. war Biskup Jon forsagnaruottur ad fyrr sogdum giorningi og setti sitt sicnet[2]) med uorum fyrrskrifadra manna jnsiglum fyrer þetta bref er skrifad war j sama stad (og) are deigi sijdar enn fyrr seiger.

---

55. **26. Júlí 1536.** **í Skálholti.**

Vidisse af alþingisdómi frá 30. Júní 1533 (DI, IX, Nr. 550) og ríkisráðs staðfestingarbréfi 29. Sept. 1533 (DI, IX, Nr. 564).

1) giæfum. handr. 2) Svo.

JSig 149. 4to bl. 216—217, með hendi Hannesar Gunnlaugssonar í Reykjarfirði c. 1664

Vitnisburdar Bref Vpp a fyrrskrifad Bref.

Þad giorum vier S(ira) Marteinn Einarsson og S(ira) Biarne Sumarlidason prestar Skálhollts Biskupsdæmis godum monnum kunnigt med þessu ockar opnu brefe. ad vid hofum sied og yferlesed so látande dóm og stadfestingarbref med oskoddudum hangande jnnsiglum so látande ord effter ord sem hier fyrer skrifad stendur. Og til sannenda hier um setium vid ockar jnnsigle fyrir nedan þetta Bref skrifad j Skálholltte primo die post festum Jacobi Apostoli Anno Salutis m:d: xxx: vj.

---

*56. 1537—1538.
1542.
1576.

Skrá um útgjöld Ögmundar biskups til Claus van der Marvitz hirðstjóra vegna síra Jörundar Steinmóðssonar.

AM. Fasc. LXXIV, 5, frumritað transscriptum á pappír með hendi Eggerts lögmanns Hannessonar. Tvö innsigli drepin á fyrir neðan. Sbr. Dipl. Isl. X, Nr. 106.

Anno domini m d xxx vij°.

Hofum vier þessa peninga afhenda laatid hirdstiora Claues vander Marwijtze sem hier epter standa skrifader.

Jn primis vegna sijra Jorundar. iij. naut gomul. xx sauder. vij tunnur smiors og j vætt betur. v. suin og ij huder.

Jtem anno et cetera xxxviij°.

Jn primis viij kýr.

Þad medkennunzt ec Gizur Einarsson superintendens Schalholltzsticktis ad ec hefj skrifat þennan reikningskap epter þeim sem ec vissi ad b(iskup) Augmundur. godrar mijnningar. vtgiallt[1]) j sannleika suo vordna peninga af kirkiunnar peningum er hann leysti til sin þann part af peningum Sijra Jorundar. af herra kongsins vmbodzmanne sem

1) Svo.

kongdomenum hafdi til fallit: til sannenda er mitt signet hier fyrir nedañ æ þrykt: Anno Dominj ↀd. xlij.

Þat medkennunzt eg Magnus prestur Jonsson og Helgi Ionsson med þessum ockar vitnisburde ad vid sæum og yfer læsum svo latandi bref ord fyrir ord sem hier fyrir ofan skrifat stendur med heilu og oskoddu siignete herra Gizurar Einarssonar. Ok til sanniñda hier vm þryckium vid ockar jnsiglum fyrir nedañ æ þetta bref: Anno seruatoris 1576.

---

57. 30. Oktober 1538. á Borg.

Kaupmálabréf Halls Ólafssonar og Ceceliu Guðmundsdóttur.

AM. 62c 8vo, á síðustu bls. (bl. 24v og 23v), skr. c. 1606, fúið og trosnað.

Jn nomini[1]) Domini Amen var svo felldur kaupmale lystur og stadfestur æ brullupsdeigi æ millum þeirra Hallz Olafssonar og Ceceliu Gudmundzdottir ath adur nefndur Hallur hafdi til kaups uid greinda Cesseliu hundrad hundrada j jordum og kugilldum og i audrum þarfligum peningum. hier i moth hafdi adur greind Cesselia til kaups uid fyrr skrifadañ Hall [lx]c i jaurdum] og audrum þarfligum peningum. kiori heidursamligur dandi mann Jon bondi Jonsson vegna liusfreyiunar Liotunar kuinnu sinnar modur fyrgreindrar Cesseliu hana[2]) helmingakonu i gard fyrr greindz. Hallz feingins fiar og ofeingins. Voru þessir brullaupsvottar S(ira) Freistein Grimsson og Colbein Jonsson prestar. Gudmundur Gudmundzson. Oddur Thumasson [og J]on Sæmundsson. huerier sin insigle settu fyrer þetta kaupmalabref. huert skrifad uar á Borg i Borgarfirdi miduikudæginn næsta fyrer allra heilagra messo. þa lidit var fra gudz burdi ↀdxxx og viij Ar.

Anno 1538 urskurdadi Ellendur laugmadur arfleidslu Olafs prests Colbeinssonar.

Þa ar fra lausnarans fæding tauldust ↀ. d. xxx. viij ar gipti S(ira) Olafur Hall son sinn og gaf honum Midvell(i).

---

1) Svo. 2) b. v.; hefir vantað í afskriptina frá upphafi.

58. 5. August 1541. í Þingmúla.
6. Febrúar 1548. á Eiðum.

Gizur biskup samþykkir kaup þeirra Brands príórs og síra Einars Árnasonar um Geitdal.

AM. Apogr. 4308 „Ex Originali Peturs Asmundzsonar á Ketilsstöðum" (AM.). — Árni hefir fremr viljað lesa ártal þessa bréfs 1547 heldr en 1541, en eitt af tvennu sé það. En athugandi er samt, að Gizur biskup reið einmitt yfir Austfjörðu 1541, og var staddr á Skriðu í Fljótsdal 4. Aug. það ár. Önnur bréf en þetta geta ekki um för hans á Austfjörðu 1547. Hinn 18. Júlí 1547 dæmir Gizur biskup dóm á Reykjum á Skeiðum, og er þá ólíklegt, að hann hafi verið í Þingmúla 5. Aug. það ár. Bréf þetta mun því án efa vera frá 1541.

IESVS.

Þath giorum vier Finnbogi Jonsson. Hiallti Gudbrandzson. Þosteinn Arngrimsson. godum monnum kunnigt med þessu voru opnu brefi. ad wier hofum yfirlesit opit bref med oskauddu jnsigli herra Gizurar svo latande ord fyrir ord sem hier seigir.

Þath giori ec Gizur Einarsson. superintendens Schalholltz sticktis. godum monnum kunnigt med þessu minu opnu brefi. ad ec hefi mitt samþycki vpp a gefit þau iarda skipti og kaup sem herra prior Brandur. og siera Einar Arnason hafa giort sin a medal med godra manna nærveru sem heitir Geijtdalur klaustursins iord eptir þvi sem þeirra kaupbref þar wm giort wtuisar og helldur. Og til sannenda hier wm set ec mitt incigle vppa þetta samþycktarbref skrifat j Þingmula j Skriddal v die mensis Augusti anno salutis nostre 1547[1]).

Og til sannenda hier wm festum wier fyrrnefndir menn vor jnnsigli fyrir þetta transkriptarbref skrifat a Eidum j Wtmannasweit þridiadaginn viku fyrir föstu inngang [Ano domine[2]) MD xl viij.

---

1) „ita lego potius qvam 41. alterutrum certe est" (AM). — „1541" á að lesa það án efa. 2) [Svo.

59. **13. August 1541.** **á Hólum.**
**1576.**

Vitnisburðr um gjöf Jóns biskups Arasonar á Grund í Svarfaðardal og Garðshorni til Þórunnar dottur sinnar.

AM. Apogr. 137 „Ex originali sira Skula Þorlakssonar. Originallenn er under lok lidinn" (AM.). Árni lýsir innsiglum. Sbr. Dipl. Isl. X, Nr. 359.

Um Grund i Svarfadardal[1]).

Suo orden vitnisburd berum vid Jon Sæmundzson og Simon Jvarsson. ad þa Datum skrifadist ꝏ. d. xl. og eitt ær. Vorum vid med audrum godum monnum þar vid stadder i timburstofunne a Holum ȷ Hialltadal [laugardaginn næstan[2]) fyrir Mariumessu assumptionis vm sumarit. þa biskup Jon Arason. hvers sæl Gud nade. fieck sinne dottur Þorunne Jonsdottur med handsolum ȷordina Grund i Svarfadardal med Gardzhorne til fullrar eignar og frials forrædis. Suo og lyste biskup Jon þar þa samstundis ad hann gylldi adurnefndri Þorunne þessa ȷord og giæfi. þui hun hefdi att hia sier peninga i langa tima. sijdan hennar bondi Hrafn Brandzson fra fiell.

Og til sanninda hier um setium vid ockar insigli fyrir þetta vitnisburdarbref. epter hveriu vid vilium sueria ef þurfa þiker. skrifad a þui æri m. d. lxx. og vj.

So hliodande originalbref á kalfskinn, sem hier fyrer framan skrifad stendur höfum vid underskrifader sied og lesed. i Skalhollte þann 19. Februarii Anno 1708.

Þórdur Þórdarson. Ormur Dadason.

---

60. [1542].

Minnisgreinar fógeta konungs um „það, sem mest er á nauðsyn á Íslandi, í Viðeyjarklaustri eða hvar sem haldinn yrði konungsgarðr þar í landi."

Ríkisskjalasafn Dana Isl. & Fær. Supl. II, 50, laust pappírsblað í Fol. frá tíð Kristjáns konungs þriðja. Þessar greinar geta varla frá öðrum tíma verið en 1542. Sbr. Dl, X, Nr. 425, 427, 532.

1) með hendi Árna. 2) [b. v. samkv. DI, X, Nr. 359.

Thill Jſslannd.

Jtem thette gõriis mesth behoff paa Jſselanndt paa Wijdhôe Closter heller huorſsom mandt skwlt holle konngens garde ter paa landdett.

Jtem Szaagebordtt.

Jtem Bijelker och sparrer[1]).

Jtem vognnskudt och aarer.

Jtem alle honnde sporrer[1]) och threi tiill býgniñgh.

Jtem wedt att Bage mett.

Jtem iiij lester mijell.

Jtem iij lesther maltt.

Jtem x Siider flesk.

Jtem erffther och griin.

Jtem Eddiicke. kaallffrðð och Sennapp.

Jtem ij laxegarnn. thet ene xx faffmne. och thet andett xij faaffmne.

Jtem om thij fuglefenngere ſsom lijgger ther paa landet och giffuer mijn herre Jndtidt huorledis mijn herre will haffuet ther.

Jtem att forhörre hoeſs mijn herre huorledis att handt will haffuedt mett thij Engelske. oc andere skiiff ſsom henn-der att stöde vnder Jſselanndt.

Jtem om̄ thet gamble býskops gottz paa Jſslanndt ſsom blieff dömbtt wnder mijn herris node[2]) oc om̄ thenndt vnge Býscop will begierre thet aff mijn herre att forhörre huorledis mijn herre will haffuett ther om.

Jtem om sporrer och skullerr. oc heesteskauu.

Jtem i iij flönnddergarnn mett Blýðð och Snörrer.

---

61. 1542.

Vitnisburðr um gjörning þeirra Teits „heitins“ Þorleifssonar og Thomasar heitins Tumassonar um Víðivelli í Blönduhlíð.

AM. Apogr. 4252 „Ex originali fra Vidivöllum i Blonduhlid. accura-

---

1) Svo; er hið sama. 2) Einginn dómr gekk 1541 um jarðir Ögmundar biskups. Sbr. DI, X, Nr. 330.

tissime" (AM.). Árni lýsir innsiglinu. — Vitnisburðr þessi er gefinn út eptir 1538 (1539), en hversu laungu síðar er óvíst. Ártalið 1532 er rangt; 1542 gæti verið rétt.

So felldann vitnisburd ber ec Jon Halldorsson ad ec var þar vid staddur j Glombæ j Skagafirdi ad Thomas heitinn Tumasson adspurdi Teit heitin Þorleifsson huert afl sa giorningur skylldi hafa sem hann hefdi gýortt vid hann vm̃ Vidiuelle j Blonduhlid: þa suarade honum fýr nefndur Teitur ad hann Tumas hefdi þann sama gýorning eigi halldit helldur rofit oc heýrda ec opt nefndan Teit soddan suar giefa fyrrskrifudum Tumase ad hann hefdi giefit honum Videuelle med þui fororde at hann fære at sinum radum vm̃ sinar giptingar oc hann j framtidinne sinn mann skýlldi vera. J annare grein sagdist titt nefndur Teitur vilia enn hallda sinn gyorning oc ord vid Tumas heitin Tumasson ef hann villdi hallda sina lofun vm fyrsagda sina þionustu. þa afsagde Tumas Tumasson ad hann villdi þad j onguan mata til vinna at motfalla sinn varnad sem væri Grimur Jonsson. Jtem þa heýrda ec opptt nefndan Teit soddan añsuar giefa margnefndum Tumase ad hann þýrfte ecki ad reida sig vpp a fyrr sagda jaurd oc hann hana j onguan mata feingi. oc so heýrd(a) ec Tumas heitinn Tumasson þui lýsa fyrir mier ad hann reiddi sig eckij vpp a somu jord oc so bad tittnefndur Teitur Þorleifsson mic at minnast oll fyrrsogd ord oc þeirra vidtal oc fleirum dandi monnum hia verundum. Oc til sanneñda hier vm̃ heingi ec mitt jncigli fyrir þetta vitnisburdarbref epter hueriu ec vill sueria ef þurfa þikier. skrifadist þa datum var epter guds burd. ꝏ⁰. d. xxxx[1]) og ij.

---

***62. 25. December 1542. í Kaupmannahöfn.**

Verndarbréf konungs handa Daða bónda Guðmundssyni.

JSig. 375. 4to bls. 41, með hendi Grunnavíkr-Jóns c. 1750—60

1) Í bréfinu stendur „xxx". Það fær ekki staðist. Teitr er á lífi 1532. Líklegast er, að eitt „x" hafi gleymzt úr ártalinu í frumritinu. Þá fær alt staðizt.

„Ex originali chartaceo (charta patente) fra vicelögmanninum Oddi Sigurdssyni. Naunet er med Kongens egen haand. Uden paa brevet staar överst *Dade Bunde.* og der nedenfor, ligeledis uden paa" (AM.). Sbr. Dipl. Isl. XI, Nr. 168.

Wii Christiann mett gudtz naade Dañmarkis Norgis Wendis och Gottis Koninng Hertug vdi Slessuig Holstenn Stormarnn och Dittmerskenn. Greffue i Ollde(n)borg och Delmenhorst giöre alle witterligtt att wii nu aff wor synderlige gunst och naade haffe tagit annamitt och vndfangitt och nu medtt thette wortt opne breff tage annamme och vndfange thenne breffuisser Dade bunde paa wortt landtt Jſslandtt hanom hanſs höstrue bören hionn tienere godtz rörendis eller vrörendis ingtett vndertagenn ehvadtt thet helst er eller neffnis kandtt vdindenn wor kongelige hegenn vernn fredtt och beskernnellſse. Besönderligenn att wille forsuare och fordagtinge thiill alle retthe. Thii forbiude wii alle ehuend the helst ere eller vere kunde. serdelis wore foggether Embitzmendtt och alle andre forne Dade bunde her emodtt paa perſson höstrue börnn hionn tienere gotz rörendis eller wrörendis att hindre hindre lade eller vdi noger maade att vforrette emodtt lougenn. wnder wor kongelige hegenn[1]) och wrede.

giffuett paa wortt slott Kiöbnehaffn Juledag aar et cetera M. d. x. l. ij.

Wnder Wort Signetth.
Christian. (Sigillum regium).

---

63.

**17. August 1544. í Arnbjargarbrekku.**
**26. August 1546. á Bergstöðum.**

Kaupmálabréf Jóns Þórarinssonar og Guðnýjar Einarsdóttur.

JSig 66 8vo með hendi Grunnavíkr-Jóns c. 1740 „Ex originali pergameno".

In nomine domini amen lystizt oc stadfestizt suo felldur

1) Svo.

kaupmæle æ mille þessara manna Jons Þorarinssonar. oc Gudnyiar Einarsdottur. fyrir farandi logligre festing. at Einar Halfdanarson gipte Jone Þorarinssyni Gudnyio dottur sina med suo felldu fekaupe. J fysto reiknadi Jon Þorarinson sier til kaups uid Gudnyio tivtio hundrut ȷ fausto oc lauso. hier ȷ mote gaf Einar Halfdanarson Gudnyio dottur sinne xx hundrut. at auk þau. vj. hundrut. sem sira Stulle sonur hans þar til lagdi. Var þar lesit Bref virduligs herra Biskups Jons. med hans signet. huad suo hliodadi at hann lofadi at giefa Gudnyo Einarsdottur suo mykla peninga ȷ fastaeign og lausagoze at hon hefdi full fimtie hundrut med þeim peningum. sem hennar fader oc moder. og brædur. gafu henne sem fyr seigier. hier med gaf Jon Þorarinsson greindre Gudnyio Einarsdottur xxx hundrut ȷ tilgiof vr fyrsaugdum sinum peningum. kiore Einar Halfdanarson Gudnyio dottur sina mælakonu ȷ gard Jons Þorarinssonar. huad mæle hennar reiknazt attativ hundrut at þessu aullo saman reiknudu. For þesse kaupmæle fram ȷ Arnbiargarbrecku ȷ Havrgardal. sunnodagin næstan efter Assumptionem Marie. Arum efter gudz burd ꝏ. d. xl og iiij.

Voru þesser festingaruottar. Sira Geirmundur Jonson og sira Þorsteinn Gunnason. Jon Magnusson. Einar Einarson morgum godum monnum audrum næruerondum.

Oc til sanninda hier vm setti Einar Halfdanarson sitt ȷncigle med uorum fyrgreindra manna ȷnciglum fyrir þetta kaupmælabref skrifad æ Bergstodum ȷ Suartærdal a fimtudagin næstan efter Barpthotomeus[1]) messo tueimur arum sidar enn fyr seigier.

---

## 64. 24. November 1544. á Hólum.

Transscriptum af máldaga Bergstaðakirkju í Svartárdal.

Tvær afskriptir meðal Bergstaðaskjala í Þjóðskjalasafninu: *a*, með hendi Jóns háyfirdómara Péturssonar 1851, stafrétt „skrifað eptir kálfskinnsbréfi; tvö innsigli fyrir, en eitt dottið frá“; *b*, með hendi Gísla

---

1) Svo.

Konráðssonar, staðfest 8. Marts 1845 af Birni sýslumanni Blöndal. Sbr. DI, III, 544; V, 358.

Þath giorum vier Gudmundur Skijdason. Hallur Asgrimsson ok Thomas Eiriksson prestar godum monnum kvnnigt med þessu woru opnu brefe. ath wier haufum sied ok yfer lesed gamlan mældaga heilagrar Holadomkirkiu vm Bergstada kirkiu Eign suo latanda ord epter ord sem hier epter skrifad stendur.

kirkia æ Bergsstodum[1]) er helgut med gude hinum heilaga Olafe konge ok Þorlake biskupe. hun eigR alla heimajord. ok halfan ForsadæI med allre jardar eign. haga och hRisa ok allra landz nytia framan til Rietta fyrir austan ok þar gegnth fyrir westan vtan upp hogguit gras fra Jons messu baptiste ok thil fiogra vikna. þann thima skal ei thil beithar leggia[2])dælenn. Enn skipe þess j millum med jafnade. staduren eigR oc[3]) husgiord j dælnum þar sem hafa vill. skal bondi sæ sem byR j Stafne fæ saudamonnum af[4]) Bergsstodum husRvm. ketel og elldivid. dryck ok vinnv oleigis sem sinum monnum edur lata geyma sialfur ogh hafi eyri æ fimtan saudi. Eitt gellth naut skal wera med kwneytum[5]) J Stafne hwert sumar ef sæ will er a Bergsstaudum byR.

Och thil sannenda hier vm setium vææR fyrrskrifader menn voR jnsigle fyrir þetta bref eR skrifath war æ Holum J Hialltadæl manudæghinn næstan fyrir Katrinarmessu arum eptter gudz burd M. D. xl. og iiij.

[Upplesid fyrir manntalsþingsriette ad Bólstadahlíd þann 1ta Julii 1778. Testerar.

M. Gislason[6]).

---

65. 1544. á Víðivöllum.

Hreppstjóraþingsskipan í Fljótsdal, að leigan af Kristfjár-

---

1) Svo JP; GK alstaðar: Bergst. 2) Svo GK (rétt); leigia JP. 3) ok GK; Dc(!) JP. 4) GK; . . lf, JP 5) JP (rétt); bwneytum GK. 6) b. v. GK.

jörðunni Arneiðarstöðum skuli vera til framfærslu guðs ölmusumanni, er þar inntakist, en hitt megi ekki haldast, að leigan gangi til Gizurar biskups.

AM. Apogr. 4377, með hendi Árna Magnússonar.

Þad giorum vier Torfe Þorsteinsson. Markus Jonsson. Einar Þorvalldzson. hreppstiorar. Brodde Ketilsson. Valtýr Þorvalldzson. Gissur Helgason. godum monnum vitanligt med þessu voru opnu brefi. ad vier lietum til skodunar koma ä Bessastødum. ä hreppstiornarþinge. hver med riettu skyllde upp bera leigu af iordunne Arneidarstodum. sem Kristfiariord er. Kom Jon Jonsson þar fram̄. og medkendist. ad hann hefdi lofad Herra Gissure leigu af fyrrgreindre iordu. hvad oss ecke leitst halldast meiga. ad hun være af fatækum dreigin. Þvi skipudum vier fyrrgreinder hreppstiornarmenn. med loglegum samtalsgiorninge. gudz olmusumann þar inn takast. og a samre leigu þar fram̄ færast æfinliga. Og til sannenda hier um setium vier vor innsigle fyrer þetta giorningsbref. Skrifad ä Viidevøllum ytrum. arum epter gudz burd. M. D. xl. og iiij. är.

---

66. 13. Maí / 30. Sept. 1545 í Saurbæ. / í Selárdal.

Erlingr bóndi Gíslason selr Andrési bónda Arasyni og Guðrúnu húsfreyju hans jörðina Hvalsker í Patreksfirði fyrir tiu hundruð í Siglunesi og tvö hundruð að auki, en af því að Sauðlaussdalskirkja átti þenna Siglunesspart, þá var jörðin Hvalsker skilin undir Dalskirkju í staðinn til æfinlegrar eignar.

Eptir transscripto á pappír meðal Sauðlaussdalsbréfa í Þjóðskjalasafninu með hendi Björns prófasts Halldórssonar, en transscriptum er staðfest að Saurbæ (á Rauðasandi) 10. Janúar 1765 af Davíð sýslumanni „Skefing“, og segir hann bréf þau, sem í þessu transscripto eru, „skrifud epter Máldagabók þeirre er geimd var í Savrbæar kyrkiu 1765 og Magnus sem var á Jörva skrifad hafde.“ Ekki er þetta bréf samt nú í Bæjarskjalabók, og sýnist þar aldrei muni verið hafa. Aptan

við afskript bréfsins ritar síra Björn: „brefid hefur verid med 2ur áþricktum jnsiglum, hvar af þad sidara er epter. Þesse var sá Sira Gisle, sem sidar vard biskup og Eggert lögmadur mágur hans." Eptir þessu sýnist, að frumrit bréfsins muni hafa verið á pappír.

Jhesus.

Þad giörum vid Gisle prestur Jonsson (og) Eggert Hannesson gódum. mönnum kunnugt med (þessu) ockru opnu brefe. (ad) vid vorum hia. saum og heyrdum á ord og handaband þessára manna. af einne alfu Ellings bónda Gislasonar. enn af annare Andresar bónda Arasonar. ad svo under skildu. ad adurgreindur Ellingur seldi fyrnefndum Andrese. hans qvinnu og hennar sonum jordina alla Hvalsker xij$^{c}$. er liggur i Patreksfirde i Sadlausdals kirkio sockn. med öllu þvi. sem greindre jördu fylger og fylgt hefur at fornu og nýu. bæde til siós og lands. og hann hafde fremst eigande ad ordid. undan ser og sinum erfing(i)um enn under Gudrunu husfreyiu og hennar erfingia. til æfinlegrar eignar og friáls forrædis. Her i mót gaf Andres bonde. med Ráde og samþycke sinnar adurgreindrar kvinnu. og hennar sona x$^{c}$ i Siglunese. hver jord er liggur á Bardastrond. i Haga kirkiu sokn. med þeim öllum gædum. sem greindum jardarparte fylger. under Elling og hans erfingia. til æfinlegrar eignar. þar til skylde Andres lucka Ellinge ij$^{c}$ i gódum peningum. fyrir þad sem Sker var dýrara. Enn saukum þess ad Dalskyrkia átte þennañ Nespart. i sina heimanfylgiu. þar fyrer var þesse jord Sker skiliñ under Dalskyrkiu i stadinn til æfinlegrar eignar. var þetta og samþyckiande herra Gizur byskup i Skalholte. Medkendez Ellingur ad hann hefde alldrei mátt nockrum manne selia þessa jord Sker þvi hann hefde fyrer laungu adur pantad hana og vedsett Gudrunu husfreyiu og hennar börnum i Dal. Vissum vid ecke betur enn þad. ad þetta være badum jafnviliugt Ellingi og Andrese. voru vid þenna kaupskap og marger fleire góder menn. sem var Ion prestur Ellingsson. Hannes Elars og Jon Þorgauzlſon. for þesse giörningur fram i Saurbæ a Radasande midvikudaginn næsta fyrer uppstigningardag um vorit anno ꝏ d. xl. og v ár. Og i sannleika ad svo er setium vid ockar incigle fyrer

þetta bref. skrifad i Selardal midvikudaginn næstañ epter Michaels Messo um hæstid. á sama áre. sem fyr seiger.

---

67. 1545. á Eyrarbakka.
1568. | í Nesi.
1569. |

Lýsing Þóris bónda Sveinssonar um samkomulag þeirra Gizurar biskups og Erlends lögmanns Þorvarðssonar um rekann á Skeiði fyrir Hraunslandi.

AM. 969. 4to með hendi Guðmundar Sigurðssonar í Gegnishólum (f. 1808; d. 1874), og er þetta ritað nálægt 1848. — Landsbókasafn 227. Fol. bls. 10—11, með hendi Jóns háyfirdómara Péturssonar 1856. — Báðir rita þeir Guðmundr og Jón eptir transscripto Brynjólfs lögsagnara Sigurðssonar og Sæmundar lögréttumanns Gizurarsonar, gerðu á Reykjum í Ölvesi 24. Okt 1738. — Sbr. bréf Gizurar biskups frá 1545 til Erlends lögmanns um þetta efni. (Dipl. Isl. XI, Nr. 386, 392) og uppgjafarbréf Erlends um rekann frá 26. Júní 1546 (Dipl. Isl, XI, Nr. 412).

Þad giöri eg Þorer Sveinsson godum monnum kunnigt[1]) med þessu minu opnu briefi. ad eg var vidstaddur medkienning og samtal[2]) herra Gizurar Einarssonar og herra Erlends Þorvardssonar[3]). lýsti herra Gizur þvi fýrir mier og fýrir óllum godum mónnum. ad fýrnefndur Erlendur hefdi feingid sier óll vj allna[4]) laung trie og stærri af rekanum a Skeidi fýrir Hrauns landi. medkiendist þetta optnefndur Erlendur. og bannadi mier ad eiga par med þenna[5]) storreka. og eigi rætur af þeim stortriam ad hóggva. enn skipadi mier óll smærri trie til jardarinnar Hrauns. og minna naudþurfta. for þessi skickan fram i Timburhusinu a Eyrarbacka arum eptir guds burd M. d. xlv. Og til sanninda hier vm set eg mitt innsigli fýrir þetta vitnisburdarbrief. hvórt ed[6]) skrifad var i Nesi i Floa i Villingahollts kirkiu sokn iij arum og xx sıjdar enn fýr seigir.

---

1) 227; kunnugt 969. 2) 227; samtali 969. 3) 227; Þorvalds — 969. 4) alna 227. 5) 227; þenañ 969. 6) er 227.

Þad medkiennunst[1]) vid Magnus Petursson og Þorbiorn Jonsson med þessu ockar opnu briefi. ad vid heyrdum Þorer bonda Sveinsson lysa þvi fyrir ockur. ad herra Erlendur Þorvardsson[2]) hefdi feingid herra Gizuri Einarssyni óll vj allna[3]) laung trie og stærri a Skeidi fyrir Hraunslandi. voru þesser badir herramenn til svars og bönnudu honum ad eiga þar med þenna[4]) storreka. og eigi rætur af þeim stærri triam höggva. enn skipudu honum óll smærri trie til jardarinnar Hrauns. og siuna naudþurfta.

heyrdum vid þessa hans lysing i Nesi i Floa arum eptir guds burd m. d. lx og ix ar.

Og til sanninda hier vm setium vid ockar innsigli fyrir þetta vitnisburdarbrief. hvört ed skrifad var a ari og deigi[5]) sem fyr seigir.

---

## 68. 10. Janúar 1547. í Saurbæ.

Erlingr Gíslason lýsir því, að hann hafi selt Andrési bónda Arasyni skóg þann, er liggr í Patreksfirði í millum Kleifaárinnar og Fjalldalsár, með öðru fleira, er bréfið hermir.

Eptir transscripto á pappír meðal Sauðlaussdalsskjala í Þjóðskjalasafninu með hendi Björns prófasts Haldórssonar, en transscriptum er staðfest að Saurbæ (á Rauðasandi) 10. Janúar 1765 af Davíð sýslumanni „Skefing", og segir hann bréf þau, sem í þessu transscripto eru, „skrifud epter Máldaga Bók þeirre er geimd var í Savrbæarkyrkiu 1765 og Magnus sem var á Jörva skrifad hafde." Ekki er þetta bréf samt nú í Bæjarskjalabók, og sýnist þar aldrei muni verið hafa. Aptan við afskript bréfsins ritar síra Björn: „ med þessu kalfskinsbrefe j hangande inncigle ólæselegt." Má vera, að hann hafi haft fyrir sér frumritið.

Um landamerki skógarparts. sem Hvalskere hefur fylgt og fylgir. Dat. 1547.

Jhesus.

Þad giore (eg) Ellingur Gislason godvm (monnvm) kunnigt med þessv minv opnv brefe. ad eg medkennunzt.

---

1) 227; -umst 969. 2) 227; Þorvalldsson 969. 3) alna 227. 4) 227; þennañ 969. 5) Eingin dagsetning fyrri i bréfinu.

ad eg hefe fengit og selt Andrese Arasyni skóg þann er liggur i Patriksfirde. i milllum Kleifa-árinnar og Fialldalsar. so langt fram̄ á fiall og upp. sem skóge er vaxit. og eg vard fremz Eigande ad. til friáls forrædis og fullrar eignar. undan mier og minum Erfingium. enn undir adurgreindan Andres og hans erfingia. Medkennunzt eg fyrnefndur Ellingur. ad eg hefi fullt og allt upp borid af adurskrifudum Andrese. fyrir greindan skogarpart. sem mier vel ánæger. Því g(i)ðre eg og gef ádurgreindan̄ Andres ollungis qvittan̄ og ákærulavsan̄. fyrir mier og ðllum minum epterkomendum. um sagdan skógarpart. Saumuleidis hefe eg lofad honum bóndanum. ad omaka ecke Botn i Patrexfirde. nie umbod upp á tacka. utan so ad logmál g(i)ðre mig skyldugan barnanna vegna. og [þó so ad[1]) kunni til bera. þá hefi eg lofad ad hann skyldi eiga lævsn á jordunne ef hann villde. Og til sanninda her um. set eg mitt jncigle fyrer þetta giðrningsbref og qvittunar. skrifad i Særbæ á Rædasande. manudaginn næsta fyrir geisladag um veturinn arum epter guds burd M. d xl og vij ær.

---

## 69. 29. Janúar 1547. á Grenjaðarstað.

Vitnisburðarbréf um Reykjamannahaga.

Eptir afskript frá Jóhannesi hreppstjóra Þorkelssyni á Fjalli í Aðaldal, með bréfi 27. Nóv. 1918.

Vitnisburdur um Reykiamannahaga 1547.

Þad giore eg Petur Starkadarson godum mðnnum kunnugt med þessu minu opnu brefe. ad eg hefi heyrt mier elldri menn segia. ad þad haglendi. sem liggur vid Haga land i Hvðmmum og kallad er Reykiamannahagi. hafi leingi verid Reykiamanna eign. hafdur og halldinn. og fylgt Reykium i Reykiahverfi. Sierdeilis sagdi mier Halldor heitinn Sigmundsson. og var(d) hann nær nirædur madur. ad Þorsteinn heit-

1) [Svo.

inn Þorleifsson hefdi haft og halldid atölulaust fyrr nefndan haga fyrir sina (eign). þa er hann bio a Reykium. Og ei sagdist nefndur Haldor annad vita. enn Reykiamenn ætti hann. svo og sagdi hann sier elldri menn sagt hafa. ad þa Jon liotur liezt vilia upp a tala nefnt haglendi. ad hann mundi [eigi med lögum riettum[1]) sottur verda af Reykiamǫnnum. Svo og heyrdi eg sagt. þa er eg var ungur madur. ad Gamli bondi Þorsteinsson ad Reykium hefdi halldid sina eign og haft nefndan haga. og leyft þangad hestagöngu a (vetrum). Og eitt sinn er þeir fundust Gamli og Jon liotur. spurdi Jon hver þa hesta mundi eiga. er til hans voru komnir. og greindi lit og einkenni a þeim. en Gamli sagdi. ad sinn madur Jon Brandsson ætti þa. og sagdist hafa leyft honum göngu fyrir þa i Reykiamannahaga. Jon spurdi hvort hann hielldi sina eign þann haga. Gamli sagdi ja vid. ad hann væri vist sin eign. og baud honum ad reyna þad med lögum. ef hann villdi. En Jon liotur svaradi þa svo: Eg veit ad þier. Gamli bondi. erud svo prudur dandimann. ad þier munud ei eigna ydur þad þier eigid ei. og þvi vil eg þar ei leingur upp a tala. Og aldrei vissi eg Jon liot þar upp a tala. eda sinni jördu eigna þad land sidan. og ei hefi eg annad vitad enn sa hagi hafi verid Reykiamanna eign bædi adur og sidan. þo nu nockur forlidin ar hafi hann forsomadur verid af Reykiamönnum. Og til sanninda hier um set eg mitt innsigli fyrir þetta bref. hvert ed giört var a Greniadarstödum i Reykiadal laugardaginn fyrir [purificacionem Marie[2]) Anno Domini md xl septimo.

Þessi framan og ofan skrifadur vitnisburdur Peturs Starkadarsonar er ordriett copieradur eftir sinum original, sem á kalfskinn er ritadur med heilu og osköddudu innsigli. Til vitnis ockar nöfn. er þad sáum og saman lásum ad Skardi á Skardströnd þann 22. Junii anno 1718.

Lydur Magnusson m. e. h. — Jon Magnusson m. e. h.

---

1) [undirstrykað i afskript Jóhannesar hreppstjóra. 2) [Euficom Mae(!), afskr.

**70.** **29. Janúar 1547.** **á Grenjaðarstað.**

VITNISBURÐBRBRÉF um Reykjamannahaga.

Eptir afskript frá Jóhannesi hreppstjóra Þorkelssyni á Fjalli í Aðaldal, með bréfi 27. Nóv. 1918.

Þad giöre eg Jon Jonsson godum mönnum kunnugt med þessu minu opnu brefi. ad eg hefi heyrt mier elldri menn segia ad sa hagi eda haglendi. sem liggur vid Haga land i Hvömmum og kallad er Reykiamannahagi. hafi[1]) leingi verid Reykiamanna eign hafdur og halldinn. Sierdeilis sagdi mier Halldor heitinn afi minn Sigmundsson. og vard hann nær nirædur. ad Þorsteinn bondi heitinn Þorleifsson hefdi halldid og haft nefnt haglendi fyrir sina eign. og svo heyrda eg adur nefndan Halldor til svara. þa Jon heitinn liotur liezt vilia klaga Reykiamannahaga undir sina jörd Haga. ad svo hefdi sier sagt sinn hinn gamli husbondi sira Þorkell Gudbiartsson[2]). ad adur nefnt haglendi mundi verda seinsott af Reykiamönnum med lögum riettum. Svo og heyrda eg. þa eg var ungur uppvaxtarmadur. ad [Gamli bondi[3]) Þorsteinsson hielldi sina eign enn sama haga. og hann setti þar i hesta til vetrargöngu. og þad hefi eg jafnan heyrt. ad adur nefnt haglendi heyrdi til Reykiamönnum til eignar. þo nu um nockur ar hafi hann af Reykiamönnum ei hafdur verid fyrir adfærsluleysi eda forsomun. og þad heyrda eg Halldor heitinn segia. ad kona nockur hefdi feingid þann haga Reykiamönnum. en ei minnunst eg hvad hann nefndi þa konu. Og til sanninda hier um set eg mitt innsigli fyrir þetta bref. hvert ed giört var a Greniadarstad i Reykiadal laugardaginn næstan fyrir purificacio Marie virginis Anno domini Millesimo Quingentesimo[4]) Qvadragesimo septimo.

Þessi hinsvegar þessa blads skrifadur vitnisburdur Jons Jonssonar er riett coperadur eftir sinum original. sem á kalfskinn er ritadur med heilu og osködduda hangandi

1) hefir, afskr. 2) prestr á Grenjaðarstað 1431—1440; dáinn 1483. 3) [gamli Halldor(!), afskr. 1718. 4) Quingmillisimo(!), afskr.

innsigli. Til vitnis ockar nöfn er þad säum og saman läsum ad Skardi ä Skardströnd þann 22. Junii Anno 1718.

Lydur Magnusson m. e. h. Jon Magnusson m. e. h.

---

71. **Sumarið 1547. Í Mýdal.**
**23. December 1555. Í Vík.**

Teitr Fúsason lýsir því, að hann hafi gefið fult samþykki til þess, að Jón Pálsson gerði löglegt hjónaband við Ásdísi Fúsadóttur systur sína, og jafnframt, að Jón hafi fastnað Ásdísi.

AM. Fasc. LIII, 23, afskript á pappír frá c. 1580—1590. „Fra Sigurde Biörnssyne (lögmanne) feck eg pappirsblad in folio med gamalli hendi, so sem vera kynni de anno 1580—90. eda þar um. Var þar ritad ä badum sidum, og voru þar ä. 7. document." (AM. Apogr. 4707).

Þat giauri ec Teitur Fusason. godum monnum kunnigt med þessu minu opnu Brefi. at ec medkiennunst. at ec hefi fullt oc allt samþycke og jayrdi til gefit at Jon Pælson skylldi meiga giaura sitt fullt og allt laugligt hionaband til ecktaskapar oc eiginordz vid Aastijse Fusadottir systur mijna. Og eptir þetta mitt jæyrdi oc samþycke fastnadi fyrgreindur Jon Pælson ædurnefnda Astijse Fusadottir sier til laugligrar Eiginkonu. vottum hiä verandi Eptir þui sem forñ laug votta. og gamall vani hefur öä verit. for þessi allur vor giorningur fram̃ j skaalanum j Mydal i Kios vm̃ sumarit. þa lidit var fröä gudz burd Mdxl. vij.

Og til sanninda hier vm̃ festi eg mitt jnsigle nedan fyrir þetta mitt samþycktar oc medkieningar Bref huert skrifat var i Vijk a Seltiarnarnesi Þorlaksmesso vm veturinn sub anno gracie Mdlv öär.

---

72. Sumarið 1547. í Mýdal.
1555. í Vík.

Vitnisburðarbréf, að Jón Pálsson hafi fastnað Ásdísi Fúsadóttur.

AM. Fasc. LIII, 23, afskript á pappír frá c. 1580—1590.

Þat giauri ec Magnus Alexandzson godum monnum kunnigt med þessv minv opnu Brefi ad ec var þar i hiæ sæ oc heyrda ec ꝏ ord og handaband þessara manna. af eirni (alfu) Jons Palsonar Enn af annari Astijsar Fusadottir. Faldist þad oc skildist vndir þessu þeirra handabandi at adurgreindur Jon Pælsson fastnadi sier fyrgreinda Astijse Fusadottir til laugligrar eiginkonu. eptir Gudz laugum̄ og gamalli landzins vijsu. suo at ec sæ edur heyrdi þar eingin misbrigdi æ eptir þui sem ec hefi heyrt til annara godra manna. þegar at þeir hafa fastnad sinar konur. For þessi þeirra giaurningur fram ȷ skalanum l Mydal i Kios vm sumarit arum̄ eptir Gudz burd ꝏdxlvij.

Og til sanninda hier um̄ festi ec mitt ȷnsigli nedan fyrir þetta mitt uitnisburdar Bref. huert skrifat uar i Uijk ꝏ Seltiarnarnesi. arum eptir Gudz burd. ꝏ.d.l.v.

---

73. Sumarið 1547. í Mýdal.
28. Apríl 1562. í Reykjavík.

Vitnisburðarbréf, að Jón Pálsson hafi fastnað Ásdísi Vigfúsdóttur, en Jón og Ásdís eru nú (1562) bæði dáin.

AM. Fasc. LIII, 23, afskript á pappír frá c. 1580—1590.

Svo felldañ vitnisburd ber ec Jon Illugason. at ec uar þar i hiæ sꝏ ec oc heyrdi ec æ. ord oc handaband þessara manna. af eirni alfu Jons heitins Palssonar. huers sæl at Gud gledie. Enn af annare alfu Astijsar heitinnar Vigfusdottir. huorrar sæl at Gud herbergi. Skildist þad oc faldist vndir þessu handabandi. at greindur Jon heitinn Palson fastnadi sier Aastijse heitina Wigfusdottir til laugligrar eiginkonu eptir Gudz laugum. og gamalli landzins uijsu. suo at ec sæ

edur heyrdi þar eingin misbrygdi æ eptir þui sem at eg hefi heyrt til annara godra manna. þegar at þeir hafa fastnad sinar konur. Hier med gaf optnefndur Jon heitinn Pælsson fyrskrifadri Aastijse Vigfusdottir konu sinni xlc j aullum þarfligum peningum ꝍ motz wid sig. voru þessir menn upp yfer þessum þeirra giaurningi Asmundur Jonson sonur hans. oc Þormodur heitinn Jonson. og hier epter uil ec sueria ef þurfa þikir. For þessi þeirra giaurningur fram̄ j skꝍlanum i Mydal vm sumarit arum epter Gudz burd ᴍdxlvıȷ.

Voru þessir eptirskrifadir menn vpp yfir þessari minni lysingu Arni Jonson oc Gudmundur Jonson med maurgum audrum godum monnum. oc settu sin jnsigli med minu jnsigli fyrir þetta vitnisburdarbref. huert ed skrifat uar i Reikiavik ꝍ Seltiarnarnesi þridiudaginn næstan̄ fyrir tueggia postula messo vm̄ vorit. xv. ꝍrum seirna enn fyrr seigir.

---

74. **3. September 1547. á Víkingavatni.**

Ágrip af vitnisburði um ítök Haga í Reykjadal.

Eptir afskript frá Jóhannesi hreppstjóra Þorkelssyni á Fjalli í Aðaldal, með bréfi 27. Nóv 1918, og segist hann ógerla vita, eptir hverju hann hafi þetta hjá sér upp skrifað.

1547. Vitnisburður með 2 hangandi innsiglum Tómasar Jónssonar og Tómasar Þorsteinssonar, upp alinna í Reykjadalshrepp, útgefinn á Víkingavatni í Kelduhverfi dag 3. Sept., að Hagi ætti hússtæði og húsageið í Geithellisnesi fyrir utan Yztahvamm, svo og hagbeit í annað mál í Yztahvamms landi á Hvammsheiði, að samfeldu við Nesland út í Nesshnjúka. Vitnisburðurinn er út gefinn Þorsteini Finnbogasyni.

---

75. **1547—1548.**

Leigna, landskylda og skreiðargjaldsreikningr Kristjáns skrifara af konungsjörðum í Borgarfirði, Viðeyjarklaustrsjörðum

og öðrum konungsjörðum í Kjalarnessþingi, og af Skóga og Merkr eignum.

AM. 264. Fol. frumrit á pappír. Eru í þessu handriti fógetareikningar frá árunum 1547—1553 „fra Sira Lyd Magnussyne 1707. Eru Reikningar Eggerts Hannessonar af Bessastadaiðrdum og því efne vidkomande. De annis [1547—1553"[1]). Annars eru í þessu safni: 1, Reikningar Kristjáns skrifara 1547—1550; 2, Reikningar frá fógetatíð Eggerts 1551—1553; 3, Skrár frá Hvitfeld 1553.

Rett iordbog paa Ijslandt aff quille leneng paa smôr som er wpboret wed sanctij Mechils daegs tidt om hôsten ij thet aar mdxlvij oc paa landskyldt oc fiiskeleger som er wpborett om worren ther nest epther paa thet aar mdxlviij.

C. S[2]).

Tijsse eptherskreffne vij iorder aff Huijdôe Closters guodz leger ij Boregerfijuer oc schulle thj orlig flôteteeris leger tijll landesteffnen̄.

Jtem met Brodertonge vj legekiôr. vj for. en̄ hest. landskiôld xl alner. ij[3]) lege xiij fôrdinger smôr dt[4]). her er ij[3]) foder argammell nôdt oc aff foder ij ar gamell nôdt. ij[3]) landskyldt aurgamell nôd dt. oc argam̄ell for ibidem x alner.

Jtem met Holle vj legekiôr. v for. en hest. landskyldt en̄ queldi. ij lege xij fôrenger smôr dt. her er ij foder argamellt nôdt oc aff foder ij ar gamell nôdt. ij landskyldt ij ar gamell quege dt. oc her dôde en̄ koo oc argamell nôd oc argam̄ell for ıȷ steden̄ dt.

Jtem met Snartestedom v legekiôr. xj for. en̄ hest. landskyldt xl alner. ij lege xiiij fôrenger smôr dt. oc ij landskyldt ij nôd ij ar gamell oc j for vinthergam̄ell oc legen for hesten̄ er her ij regnet oc her bleff forberett j for.

Jtem met Heste iiij legekiôr. iiij kýrckequilder. landskyld en̄ quegle. ij lege en̄ vet smôr dt. ıȷ landskyldt ij venther gam̄ell quege dt. oc her dôde en̄ koo oc ij vetther gam̄ell quege set ij stedhen.

Jtem met Halsom v legekiôr. vj for. en̄ hest. landskyldt lxxx alner. ij lege xij fôrenger smôr dt. oc her ij foder iij

1) [þ. v. með hendi Jóns Sigurðssonar. 2) þ. e. Christiern Schriffuer. 3) = í. 4) stafadrættirnir eru þessir, hvað sem þessi skammstöfun á að merkja, eða hvort hún merkir nokkuð annað en setningarlok eða et cetera.

ar gamell nødt oc her ij foder paa landskyldt ij ar gam̄le quege oc ij ar gamble týrrer oc aff foder iiij vether gam̄ell nød oc iij vether gam̄ell quege oc iij vether gam̄ell týrðr oc ij landskyldt en vethergam̄ell nød dt. for v ðre.

Jtem manden paa Otstadom haffuer eñ ko tijllege — ij fðrenger smðr dt. thenne bleff indset ij Holle.

Jtem Ioen Gundeseñ ibidem haffuer eñ koo tijllege — ij fðrenger smðr dt.

Jtem met Galterholt iiij legekiðr. xviij foer. landskyltd x ðre. ij lege ij vetter smðr dt. oc her er ij foder iij ar gamell nødt oc aff foder iiij vether gam̄ell nød. oc ij landskyldt en ij vetther gam̄ell quege dt. for x ðre.

Jtem met Brecke v legekiðr. xviij for. vj kýrckequelder. landskyldt eñ quelle. ij lege ij vether smðr dt. her døde eñ gamell ko en vng set ij stet. ij landskyldt eñ iiij vether gam̄ell ko oc eñ (vod) vadm̄ell oc j thønde meell dt. oc bleff hannem mellthønden tillgeffuet for effneued oc andet sin vmag.

aff dij 9 nød ij Boregefiord bleff j hiem sent oc en døde ther.

Thette eptherskreffne Huijdøe Clðsters guodz leger wtj Guldbrengsðssell.

Jtem med halff Ijrafeldt ij legekiðr. eñ kýrckeko. landskyldt eñ thønde meell. ij lege ʝ vet smðr dt. oc ij landskyldt j thønde miell dt.

Jtem met Valleestadom iiij legekiðr. j kýrckequigelle. landskyldt jc. lxxx alner. ij lege eñ vet smðr dt. oc ij landskyldt ix for mett lam̄ for ijc oc ij for huer ij vether gam̄ell for xx alner dt.

Jtem met Halse iij legekiðr. xviij for. eñ kýrckequegle. landskyldt ijc. ij lege eñ vet smðr dt. oc ij for mett lam̄ for ij leger oc ij landtskyldt j koo oc iij for mett lam̄ for ijc. dt. oc ij gamell for buort taget oc ij vnge for ij stæden.

[Jtem eñ koo hoss Eireker ibidem[1]).

Jtem eñ koo huoss Torfijnne paa Huame.

Jtem met Morastadom ij legekiðr. vj for. landskyldt xv

1) [útstrykað.

øre. ij lege en halff vet smør dt. oc ıj landskyldt c for en lege eñ iiij vether gamell koo dt.

Jtem eñ koo huoss eñ mañd paa Wtskollehamer. ij lege en for met lam̃ dt.

Jtem met Kijdafeldt iiij legekiør. xij for. landskyldt xv øre. ij lege ij førenger smør dt. her er ij foder ij nød ij ar gam̃elle oc eñ nød argam̃ell oc iiij lam̃b oc eñ for met lam for en lege oc eñ for met lam̃ for eñ gam̃el lege dt. oc aff foder ij nød huer iij veter gamle oc en nød ij vether gamle oc iiij lam̃ oc ıj landskyldt iiɟ vet fiske for xlx[1]) alner oc en ar gamell quege ibidem dt. for xl alner.

Jtem met Backe iij legekiør. xij for. landskyldt ijc. ij lege x førenger smør dt. oc ıj landskyldt eñ sex aur gam̃ell ko oc iij for mett lam̃b for ijc. dt.

Jtem met Størrevalde iiij legekiør. vj for. landskyldt eñ quegle. ij lege vj førenger smør dt. her er ij foder ij ar gamell nød oc eñ kalffe oc aff foder iiij ar gamell nød oc argamble nød oc ij landskyldt en vij ar gamell ko for jc dt.

Jtem met Mijndewalde iiij legekiør. landskyldt en quegle. ij lege ɟ vet smør dt. her er ıj foder ij ar gamell quege oc iiij lam̃b oc aff foder iiij lam̃ oc iij ar gam̃ell quege oc ıj landskyldt en viij ar gamell ko for jc dt.

Jtem Snøre paa Ånerholt eñ koo oc ıj lege j for met lam̃ dt.

Jtem met Skruthollum iij legekiør. vj for. landskyldt vij for. ij lege eñ vet smør dt. oc ıj landskyldt en iiij ar gam̃ell koo oc en for mett lam dt. oc her døde en gam̃ell ko oc en vng ıj steden.

Jtem met Saltuig ij legekiør. xij for. landskyldt en quegle. her er ij foder viij lam̃b oc en iij ar gamell nødt oc en ij ar gamell nødt oc aff foder viij lam̃ oc en iiij ar gam̃ell nød oc en iij ar gamelle nødt oc ij landskyldt en iiij ar gam̃ell ko dt. oc her var en gam̃ell ko bort taget oc en iiij ar gamelle ko ıj steden set.

Jtem met Moum vj legekiør. landskyldt eñ quegle. ıj lege vj førenger smør dt. Her er ıj foder ij nød iij ar ga-

1) Svo.

mell oc en nød ij ar gam̄ell oc iiij lam̄b oc en lege tillgeffuet for xx redingstøre att skere oc aff foder ij nød huer iiij ar gamell oc en nød iij vether gamell oc iiij lam̄b oc ıȷ landskyldt en gÿld ko dt. her en gamell ko bort taget oc en vng ko ıȷsteden sett.

Jtem met Essebereg: v legekiør. vj for. landskyldt ijc. ij lege x førenger smør dt. oc en for mett lam̄ for en lege dt. oc ıȷ landskyldt en sex aur gam̄ell ko oc en iiij ar gam̄ell hest for ijc. dt. oc thenne ko tog sere Ion ij sin kop.

Jtem met Mogelse ij legekiør. xviij for. landskyldt en quegle. oc en wod uedmell. ij lege x førenger smør dt. oc ij landskyldt en sex ar gam̄ell ko oc xx stecker vedmell dt.

Jtem Wølløm iij legekiør. landskyldt eñ quigle. ij lege vj førenger smør dt. oc ij landskyldt en iiij ar gam̄ell ko dt. oc her war buort taget eñ gamell ko oc en vngh ij steden setth.

Jtem met Grøffuom iiij legekiør. landskyldt en quegle. Her er ij foder iiij lam̄b oc ar gam̄ell nødt oc en iij ar gamell nødt oc en kalffue oc aff foder iiij lam̄ oc en ij ar gam̄ell nød oc en iiij ar gam̄ell nød oc en ar gam̄ell nød oc ij landskyldt en iiij ar gam̄ell koo dt.

Jtem met Wermedaell iiij legekiør. xij for. landskyldt xv øre. her er ij foder en argam̄ell nødt oc en ij ar gam̄ell nødt oc vj lam̄ oc en for met lam̄ for en lege oc aff foder en ij ar gam̄ell nød oc en 3 ar gamle nød oc vj lam̄ oc ıȷ landskyldt en sex ar gam̄ell ko oc ij sam̄e ko affregnes ij lege.

Jtem met Feteom ij legekiør. xij for. landskyldt x øre. her er ij foder ij nød huer ij ar gam̄ell oc iiij lam̄b. oc for eñ lege ij for huer ij ar oc aff foder [2 nød huer[1]) iij ar gamell nød[2]) oc iiij lam̄ oc ıȷ landskyldt en thønde øll for xl alner oc xxv fiske for x alner oc er tillgeffet x alner skibsferdt.

Jtem met Rijsbroff iij legekiør. xij for. landskyldt jc. xl alner. ij lege xv førenger smør dt. her er ij foder en ij ar gamle nødt oc en argamle for for ⅟₂ lege dt. oc en lege tillgeffet for smedeløn oc aff foder en iij ar gamell nød oc ij landskyldt en iiij ar gamell ko oc en for met lam̄ oc ij ij

1) [Þetta milli lína og kemr staðin fyrir „en," sem er útstrykað.
2) Svo. Út undan á spássíu: øll j.

vether gamell for dt. oc her en gamle ko bort taget oc en vng ij steden set.

Jtem met halff Mossefeldt iiij legekiðr. landskyldt xx øre. ij lege vj førenger smør dt. oc en lege tillgeffet for en mands tienestekop. oc ij landskyldt en iiij ar gam̄ell ko dt. thenne ko tog Vellmer Fijndsson for sin formañdskop for tilkom̄ende ar.

Jtem met Mijndemossefeldt ij legekiðr. iij for. landskyldt x øre. ij lege iij førenger smør dt. her er ij foder en ij ar gamell nødt. then døde ij winther oc en ij ar gam̄ell for for en lege dt. oc ij landskyldt j ko for x aure dt. oc for nøden som døde her j ko oc en ar gam̄ell for ij steden dt.

Jtem met Laxnes ij legekiðr. xij for. landskyldt xv øre. ij lege j vet smør dt. oc en lege aff regnet tijll arbedsløn for en vod uedtmell. her er ij foder iiij lam̄. oc aff foder iiij lam̄ [oc ij landskyldt[1]) j for met lam̄ for xx alner oc en thønde øll[2]) for xl alner. rested v øre her.

Jtem met Radestedom̄ ij legekiðr. landtskyld x øre. ij lege ij førenger smør dt. Her ij foder en ij ar gamell nødt[3]) oc aff foder en iij vether gam̄ell nødt oc ij landskyldt en wenthergam̄ell quege oc en for met lam̄ dt.

Jtem met Hellegedall iij legekør. vj for. landskyldt x øre. ij lege iiij førenger smør dt. Her er ij foder en orer[4]) gamell nød oc en kalffue oc for j lege en argamell for dt. oc aff foder en ij vether gamell nød oc en argamell nød oc ij landskyldt en thønde meell[5]) oc en for mett lam̄ dt.

Jtem met Toñge ij legekiðr. xij for. landskyldt en quegle oc morck. ij lege en vet smør dt. oc ij landskyldt ij for met lam̄ [oc en ar gamle for[6]) for morch dt. oc beholte hand koen ij sin foermandskop for forgangendis ar Gulloger.

Jtem met Wermo ij legekiðr. xij for. iiij kýrckequeld. landskyldt en quegle oc morck. ij lege en vet smør dt. oc ij landskyldt en sex ar gamell ko oc en vod uedmell dt.

Jtem med Lagefeldt ij kýrckequelld. landskyldt en ko. thenne ko tog sere Ioen ij sin kop.

1) [tviritað. — 2) Út undan: øll j. 3) Hér er dregið yfir heila setningu, svo að ekki verðr lesið, nema fyrsta orðið „oc". 4) Svo. 5) Út undan: ø mel thønde. 6) [Milli lína, vísað niðr.

ʀiufast meiga. utan af naduga<sup>s</sup>ta herra kongenum sialfum og med ʀikesens ʀædi. og epptter þui sem uor Noregs kongs laug og Jslendsk Jnne hallda og wtuisa. hier med fyrirbyd ec lærdum sem leikum. hvar þeir eru. at þeir gere nockra forhindran fyrgreindum Þosteine edur hans folki. kuinnum sem kaullum. huar hellst þeir eru. edur blifa kunnu. fyr enn þeir eru ædur ʀietteliga fyrir mier soktter og laugliga klagader. enn huorir sem sodan misgiora og ecki vilia logmælit hallda og svo þui ʀanglıga ꝺ̄ mote ganga. og ohlijduger vilia vera mins nadugasta herra kongsens ʀiettigheitum. þæ skulu þeir allri slikre sauk sakader vera. og fyrir sic svara sem lỏg wtviisa. Og til sanninda hier um set ec mitt Jnncigle fyrir þennan minn laga og lỏgmanns wrskurd. huer er gerdur var og skrifadur vid Vallalaug. æ faustudagin næstan fyrir Þorlaksmessu um svmarit. anno salutis ꝏ.d.l. og eitt æʀ.

---

**153. 17. júlí 1551. í Bakkarholti.**

Sjöttardómr dœmir mál Arnórs Eyjólfssonar og Ívars Guðmundssonar undir tylftardóm á næsta vorþingi (ágrip).

Lbs. 115, 4to, I. bls. 338, m. h. síra Jóns Halldórssonar í Hítardal, ca. 1720—30. Eftirrit Jóns þjóðskjalavarðar Þorkelssonar þaðan er í þjóðskjalasafni.

Anno 1551. fỏstudaginn næstañ fyrir Þorlaksmessu um sumarid ꝺ̄ Backarhollti i Ølvese utnefndi Erlendur Þorvardsson lỏgmadr sunnan og austan a Jslandi. og kongz umbodzmadur i Arness sȳslu. 6 manna dom i millum Arnors Eyolfssonar og Jvars Gudmundssonar. fyrir þad Jvar hefdi sleigid konu Arnorz heifftugre hende i kirkiugardenum i Arnarbæli. Þad mꝺ̄l sett upp under 12 manna dom til næsta vorþingz et cetera.

---

154. 18. júlí 1551. í Miðfjarðarnesi.

Bergr Jónsson samþykkir kaup Magnúsar Björnssonar á hálfri jörðunni Hallgilsstöðum á Langanesi.

Steph 27, 4to., bls. 435—6, Svartskinna m. h. Benedikts Þorsteinssonar: „ex membrana". Uppskrift þaðan er í þjóðskjalasafni.

Samþycke um̄ a[1]) Hallgilstôdum ǻ Langanese — ex membrana.

Þad medkienne eg Bergur Jonsson med þessu mÿnu opnu brefe ad eg hefe heirt og sied þad kaupbref. med tvejmur hangande jnnsiglum. sem Magnus Bíôrnsson hefur keifft halfa jôrdena Hallgilstade ǻ Langanese af mÿnum syne Jone h[eitnum] Bergssyne fyre[r] xvi*j*c hvert kaup eg samþicke med þessu mÿnu brefe. ad stodugt skule standa fyrer mier og ôllum mÿnum erfÿngum̄ og eftterkomendum̄. enn skil þad til ad Magnus gialde mier þad sem ogolded er af greindu jardarverde. sem er xii*j*c j fullgildum̄ penÿngum̄ so sem þad kaupbref inne heldur sem þejr sin a mille giort hafa. og þennan̄ giornÿng handsala eg nu Birne syne adurgreindz Magnusar ad hans eign skule vera fyrnefnd jord halfer Hallgilstader undan̄ mier og mÿnum ørfum̄. enn under Magnus og hans erfÿngia. til æfenlegrar eignar. og til mejre stadfestu og sannenda hier um̄. kolludum̄ vid adurgreindur Biorn þessa menn ad sia og hejra ochar handsôl og giôrnÿng sÿra Stein Olafsson. og Ellend Magnusson. huerer ad settu sÿn innsigle med mÿnu innsigle nedan̄ fyrer þetta bref hvert skrifad var giort æ Midfiardarnese þann xviij dag Julij um̄ sumared þa lided var frǻ Guds burd M. D. l. og eitt ǻr.

---

155. 12. ágúst 1551. í Vík.

Kristín Gottskálksdóttir fær syni sínum, síra Gottskálki Jónssyni, í hendr alla jörðina Syðri-Ey á Skagaströnd, 20 hundr. i löggjöf, 20 hundr. í skuld til hans, 20 hundr. ad kaupi.

Jbsk. AM. Húnavatnss. 2. Uppskrift, staðfest að Geirröðareyri

1) Svo.

15. apr. 1764 af Guðmundi Þorleifssyni, sira Jóni Jónssyni og Birni Jónssyni.

Eignarskiol firir sidri Eij á Skagastrond j Hunavatnzþijnge.[1])

Þad giorum vid Einar Gilbrigzson og Biarne Þorgilsson godum monnum kunnigt med þessu ockar opnu briefe árum efftir gudsburd ꝏ d l og eitt. miduikudægenn næstan firir Mariumessu firre um sumarid i Vijk i Sæmundarhlijd. uorum vid i hia sáum og heirdum á ord og handaband þessara manna. af einne álfu hustru Krijstinar Gottskallksdottur. enn af annare sijra Gottskallz Ionss[onar] suo firirskilldu j firstu grein ad fyrrnefnd Kristin gaf j sijna loggiof og gallt siera Gottskalc. xxc j jordunne Sudureij á Skagastrond. er liggur i Hoskullzstadakirkiusökn. er hun hafde lofad adur med handsolum ef hann næde med logum þessari jordu fyrer sig. j annare grein fieck hun til fullrar eignar og gialldz adurnefndum sijra Gottskalk aunnur xxc i adurnefndri jordu en firer þa peninga er hun. sagdist vita ad hann vantade á vid aunnur sijn born af sijnum peningum og á sinn fôdurarf þui hun sagdist hafa mätt uallda þar nockru um j þann tijd þad skiede. J þridiu grein sellde tijttnefnd hustru Kristin optnefndum syne sijnum siera Gottskalc enu þridiu xxc j þessare jordu. enn hier i möt gallt hann mődur sinne xxc j ollum gődum peningum gilldum þeim henne lijkar ad taka og ut at luka þeim suarast á huor ochar(!) med þessum skilmála fiech hustru Kristin Gottskalcsdötter þrattnefndum siera Gottskalc til æuenlegrar eignar alla þessa firrsagda iord Sidreej med ollum þeim giædum sem henne hefur filgt firr og sijdar med logum. ad tilskilldri þeirri eggvarpsej sem þar til heirer og filgt hefur sijdan hun var giefin af siera Þorde Þordarsine til Sidreejar. og til sanninda hier um setium vid ochar jncigle firir þetta giornings brief er skrifad uar j sama stad og äre sem firr seiger.

---

1) Aftan á bréfinu.

156. 15. ágúst 1551. á Mýrum.

Sigríðr Björnsdóttir gerir skipti með sonum sínum, Þorleifi og Birni Bjarnasonum (með tveim fylgiskjölum, A og B).

AM. 253, 4to., bls. 150—1, með hendi síra Sveins Símonarsonar í Holti í Önundarfirði (d. 1644). — JS. 222, 4to., bls. 392—5, skr. ca. 1750. — Eftirrit beggja hdr. eru í þjóðskjalasafni.

[Skipta Brief þeirra brædra Þorleifs og Biörns Biarnasonar nu jnsigla laust. og bera pressur mercki ad med innsiglum hafi verid. skrifad med eigin hendi Biörns Biarnasonar[1]).

Þad giörum vier Jon Þorleifssson. Olafur Jonsson prestar Skalhollltz stigttis Torfi Sigfusson. Snorre Jonsson. Þorlakur Jonsson godum monnum knnnugt med þessu voru opnu briefi. þa er lidit var fra hingadburd vors Herra Jesu Christi 1551 ära vppa Mariumessodag ena[2]) fyrre vm sumared ä Myrum j Dyrafirdi vorum vier j hiä säum og heyrdum ä ord og handaband þessara manna. Af einne alfu Sigrijdar husfreyiu[3]) Biörnsdottur. Enn af annari alfu hennar sona. Þorleifs Biarnasonar og Biörns Biarnasonar. Eñ þad faldist og skildist j og vndir þessu þeirra handabandi ad Sigrijdur husfreyia Biörnsdottir giördi þessi skiptti med sijnum sonum. Þorleifi og Birne. Ad Þorleifur skylldi til æfinligrar eignar ad taca gardinn Myrar j Dyrafirdi med öllum þeim gögnum og giædum sem ädurskrifudum stad fylgir og fylgt hefur ad fornu og nyiu bædi til sios og landz med þeim skilmäla. ad Sigrijdur husfreyia skylldi hafa sier til adsetu ä Mijrum æfinliga þriu hus kirkiuskem̄u. litlu badstofu. og litlu stofu. suo og annar stadar innañ gardz annan[4]) gang. huar henni vel lijkadi. lofadi Þorleifur til ad hialpa þessi ädur skrifud[5]) hus vpp ad giöra. Hier j moti skylldi Biörn Biarnason eignast stadinn Kirkiubol j Valþiofsdal fyrir lijc og þar til iördina Sellätur fiorum c[6]) og xx ad dyrleika er liggur j Vatzfiardarkirkiusokn med þeim skilmäla

1) frá [ 253; 222: Utskrift af skipta Brefe Þorleifs og Biörns Biarnasona. 2) Svo bæði hdr. 3) 222: husfrur. 4) 222: Rumañ. 5) 222; adur nefud. 6) Vantar í 222.

ad Sigrijdur Biǒrnsdottir skylldi hallda iǒrdina Sellätur j sijna lijfstijd. vtan hun villdi fyrre afleggia vid Biǒrn sinn son. Oc þar vppa skylldi Biǒrn Biarnason eignast iǒrdina Lätur sem mismunur var ǎdurskrifadra garda ad dyrleika og husum. og audrum giædum og jtǒkum.

Somuleidis lofudu þeir [bǎdir brædur[1]) Þorleifur og Biǒrn med mackt vid ad hialpa sinnar modur peningum sem hun villdi j sinne vardueitslu hafa ǎ Myrum vetur og sumur[2]) sem henni mætti vel gagnast badir samt til iafnadar. Jtem lofudu þeir brædur huor annañ ad styrkia med ord og verck. og tilgreint vm solvafioru og gelldra peninga beit sem huorum vel gagnadist og skog. Skylldu þo þessir ǎdurskrifadir brædur huor sijna eign eiga og hafa æfinliga. enn huorgi[3]) skylldj med riettre skylldu eignast nein jtǒk j annars gard nie iǒrd. framar meir enn med brodurligum skipttum sem huorum vm sig þarfnadist og med[4]) þyrftti.

Oc til sannenda hier vm setium vier fyrrskrifadir menn vor jnsigli fyrir þetta giǒrnings brief. huert ad giǒrt og skrifad var j Hollti j Ønundarfirdi ǎ sama ǎre deigi sijdar enn fyrr seiger.

A.[5])

Reiknings bǒk i Skalhollte.

Kyrkiañ ad Walþiǒfsdal ǎ xij^c jǒrd landskylld iiij ærgillde.

Jtem kugillde iiij. Fastagots Tijutiju og viij^c met gardenum.

Visitatiubǒk H[erra] Gisla Jonssonar.

Kyrkiañ i Walþiofsdal ǎ xij^c jǒrd. iiij kugillde.

Jtem i kyrkiunne Ein messuklæde. Eitt alltaresklæde. Ein klucka stǒr. kǒrbialla og blykaleikur. 1^c i skoge á Saudanese.

Jtem fastagots x tiger hundrud og viij^c betur met gardenum.

---

1) frá [ öfug röð í 222. 2) 222: sumar. 3) 222: hvórigur. 4) vantar í 222. 5) er að eins í JS. 222, 4to., og fylgir þar bréfinu.

Tijundar Reiknings Bők Magnusar Jonssonar[1]) sysslumanns yfer sysslunne skrifar so hier um.

Kyrkiubol i Valþiőfsdal 52c og hallda þeir sem þeckia hønd Magnusar ad hun sie þar sem standa 52.

Jtem Betalings edur andvirdes Reikningur fyrer Kirkiuből syner lioslega Dateradur 1607. 1608. 1609 effter saliga Sıra Snæbiørn. ad jørdeñ hefur betølud vered so sem full 52c Enn þo þangad til hielldest hun ecke i þeirra manna minnum mǻskie. utañ 48.

Jtem Brefsord Sira Sveins. ad hann seigest 25 ǻra[2]) þa i Hollte vered hafa er hann þad skrifar. og seiger sig ecke vitad hafa fyrr enn þa. ad stadurenn være so dyr. eda meir enn 48c

B.[3])

Sønn og Rigtug Copie af eirnre grein ur Sendebrefe þess heydarlega manns Sira Sveins saluga Simonarsonar. til skrifudu husfreyunne Þőru salugu Jonsdőttur[4]) Anno [1]607 27. Aprilis.

J sama mǻta hef eg þad frekasta sem eg kunna. vid Biørn[5]) effter geinged um stadarens dẏrleika. so hann hefur sin skiøl og skilrıjke i tie lated. ad skoda og yfer ad lesa er þar uppǻ hlioda. og eru þar sierdeiles fimm Bref hvør øll eg meina ad utvijse og sanne søgu Biørns. ad stadurenn sie tőlf hundrud og xl. ad dyrleika. Fiøgur af þeim brefum eru øll meir enn hundrad ǻra gømul. Þad fyrsta er. ad Are Gudmundsson gaf dottur sinne Oddfride halfañ Valþiőfsdal fyrir lxc til kaups vid Halldőr Jonsson. Enn halfañ sellde hann honum. ad Mosdal frateknum. sem þad Bref utvıjsar. og verdur þa allur Valþiofsdalur hundrad hundrada. Skrifadest þa Datum MCDXX[6]). Annad Brefed vottar so. ad Halldor Jonsson handlagde Oddfride Aradottur Mosdal. Enn

1) þ. e. Magnús prúði, d. 1591. 2) Svo. 3) Að eins i JS. 222, 4to. (bls. 381—3). 4) þ. e. Þóra, kona sira Snæbjarnar Torfasonar á Kirkjubóli. 5) þ. e. Björn Bjarnason. 6) þ. e. bréf frá 27. mai 1420. Dipl. Isl. IV, nr. 339.

gallt henne Kirkiuből i þau lxc sem Are B[onde] Gudmundssoa gaf Oddfride dőttur sinne. Datum var þa MCDXXviij[1]) Þridia er kaupmălabref Hakonar Jonssonar og Oddfridar Aradóttur. er Hakon hafde til kaups vid Oddfride lxxxc. og hier i mőt Oddfridur ỏnnur lxxxc. Kyrkiuből i Valþiőfsdal og þar ofañ a xxc. Datum þessa Brefs MCDXXXIII.[2]) Þa þesse Bref og giỏrningar giỏrdust. var kyrkiañ ă Kirkiubőle enn ecke stigtud. Enn effter ă þa Datum var MCDLXX. þa stigtade Biskup Sveinn kirkiu ă Kirkiubőle. og gaf þa Halldor Bonde Hakonarson kirkiu ă Kyrkiubőle. jỏrdena Mosdal fyrir xijc. og þar til viijc i heimalande. so sem Bref Biskups Sveins þar um utvıȷsar. og er þad hid fiorda Brefed.[3])

Hef eg vered hier 25 ăr. og alldrei fyrr af þessu vitad. og eige hef eg meint stadenn dyrare enn xlviijc.

Þad fimta Brefed Biỏrns. er skiptabref þeirra Brædra Þorleifs heijtens og Biỏrns Biarnasonar. Þar jnne ad stendur ad Biỏrn hefur teked stadenn Kirkiuből fyrir lijc. og þad bref er skrifad med Eigeñhende Biỏrns. Enn Sıȷra Jon heıȷtenn Þorleifsson og Sıȷra Olafur heitenn eru þar fyrer skrifader. Enn jnnzigle eru þar fra Rỏskud. sem sia mă efni til þo er handskrift Biỏrns merke til þess hann hefur stadenn so dýrt teked i mots vid Myrastad[4]).

So latande ordagrein sem hier fyrer ofañ og hinumeigenn a þessu brefe stendur skrifud. votta underskrifader menn sig sied og lesed hafa i Sendebrefe þess heidarlega manns Sira Sveins Simonarsonar af honum sialfum skrifad og underskrifad i Hollte Anno [1]607. 27 Aprilis og tilsendt husfreyuune Þoru salugu Jonsdottur Og til sanuenda hier um skrifa þeir sin nỏfn hier under þessa Copiu. sem skrifad var ă Kyrkiubőle i Langadal. Anno 1653. þann 3. Augusti. Enn samañlesed og handskriftad Anno 1653. þann 13da Augusti.

Sæmundur Oddsson. Arne Halldorsson mppria.
Jon Salomonsson. Þordur Þorleifsson meh.
Sigurdur Pălsson meh.

1) þ. e. bréf frá 23. janúar 1428, Dipl. Isl. IV, nr. 402. 2) þ. e. bréf frá 23. janúar 1433, Dipl. Isl. IV, nr. 559. 3) þ. e. bréf frá 11. sept. 1470, Dipl. Isl. V, nr. 518. 4) þ. e. bréfið frá 15. ágúst 1551.

157. 22. ágúst 1551. í Vatnsfirði.

Gjafabréf síra Jóns Eiríkssonar í Vatnsfirði fyrir skógarparti til Vatnsfjarðarkirkju.

AM. Apogr. 914 „Ex origin. Vatzfiord. accuratè“ (AM). — Eftirrit Jóns þjóðskjalavarðar Þorkelssonar er í þjóðskjalasafni.

S[ira] Jon Eiriksson gefur i þessu sinu brefi þann skogarpart Vatzfiardarkirkiu. sem hann feck af Murta.[1])

Þat giori ec Jon prestur Eirexsson godum monnum kunegt med þessu minu opno brefi. at þann skogarpartt sem Jon heiten murte Einarsson æ Laugabole fieck mier til fullrar eignar og hans syner afhento mier epter hann lidin. þan sama skogarpart gelld ec og gef heilagri Vasfiardar kirkiu til æuenligrar eignar epter mic med þeim vmmerkium sem adr skrifud eru ȷ þui brefi sem hier er med fest. Og til saninda hier vm setta ec mitt insigle fyrir þetta bref skrifad ȷ Vasfirde ȷn octauo[2]) asumcione[2]) sancte Marie anno domini. m. d. l j.

---

158. 23. ágúst 1551. á Brjánslæk.

Sáttargerð þeirra mæðgina Guðrúnar Björnsdóttur og Eggerts Hannessonar við þau hjón Fúsa Brúnmannsson og Ólöfu Björnsdóttur og Torfa, son þeirra, ásamt samningi um bætr Torfa til konungs fyrir „heimsókn á Hálfdan heitinn Þórarinsson“.

AM. Apogr. 4540, m, h. Þórðar Þórðarsonar í Háfi „Ex orig. fra Hlidarenda“. — Lbs. 115, 4to., bls. 313—15, m. h. síra Jóns Halldórssonar í Hítardal. — Eftirrit beggja hdr. eru í þjóðskjalasafni.

[Sattarbref Eggertz Hannessonar og Fusa Brunmannssonar.[3])

Þat giorum uær Gisle Jonsson. Greipur Jonsson. Sveinn Þorbiarnarson.[4]) Jon Erlingsson. prestmenn Skalholltzstiktis

1) Þetta stóð utan á bréfi með hendi síra Jóns Arasonar eða að hans forlagi. 2) Svo. 3) frá [ með hendi Árna Magnússonar í 4540; 115: Sáttargiörd i millum Eggerts Hannessonar og Gudrunar Biörnsdottur modur hañs vid Fusa Bruñmansson og Olofu Biörnsdottur. Anno 1551. 4) 4540: Þorbiarnason.

godum monnum kunnigt med þessu woru opnu brefi. ad æ sunnudaginn næsta fyrir Sancte Bartolomei messo dag. æ Brianslæk æ Bardaströnd[1]) vorum vær j hia. saum og heyrdum æ fullnadarsatt þessa heidursfolks. Gudrunar Biornsdottur og Eggertt[s] Hanessonar af einne[2]) alfu. Enn af annare Fusa Brunmandzsonar og Olafar Biornsdottur kuinnu hans. og [hennar sonar[3]) Torfa Fusasonar. var þad j fyrstu til skilit. at sa allz hattadur hugmodur [sem á millum[4]) þessa fyrgreindz[5]) heidursfolks hefdi farit edur matt fara j nockurn mata til orda edur verka. þá skyllde hann ut giordur j allañ mata. og alldri [hier meir[6]) epter þess minnazt. sem j nockurn mata hefdi uontt matt á millum falla. hellдur skylldi hvorer ætid adra styrkiandi uera j allañ mata til allz hins besta hvad huorum fyrir sig mogulegt uæri [et cetera[5]). Enn um þad brot sem Torfe Fussason uar skylldugur ordinn kongdomsins uegna um heimsokn æ Halfdan heitinn Þorarinsson. huers sal [gledie Gud.[7]) skylldi adurgreindur Torfe giallda kongdominum. xl. hundrud med suoddan peninga. fiogur. vj. hundrada kot j Arnarfirde j Hrafnseyrar kirkiu sokn. hver at so heita. Borg og Raudzstader og .ij. Eydekot. hier til Skialldfönn og Ey. reiknast öll[8]) þesse kot at dyrleika fiogur huñdrud og .xx. þar til[9]) skyllde kongdominum gialldaz. xvj. hundrud j ollum godum tækiligum peningum. sem uæri silfur. skreid. uadmal et cetera. Enn um[5]) fyrgreindar jarder uar so skilit. at Eggertt Hannisson skyllde þær til sin leysa. en giallda kongdominum so háfa peninga j gi[en. i[10]) silfri. skreid] uadmale. og ödrum godum peningum sem þær næme. Enn ef nockurtt af þessum kotum[11]) kann af Eggertt med logmale ad ganga þa [skilde Eggert] sier adra jafnháfa peninga j gen. jtem lofade Eggertt at hialpa Torfa til allz fridar og nada. bædi uid kong og kirkiu. svo og skyllde Fuse Brunmannzson med ollum sinum monnum skylldum og uandalausum j allan mata aullungis kuittur vera j hvad mata sem hann og þeir hefdi

1) 4540: Bardarstrond. 2) 4540: einnu. 3) [115: sonar þeirra. 4) [116: á medal. 5) Vantar í 115. 6) [115: meir hier. 7) [gud gledie, 115. 8) Vantar í 4540. 9) Hefir vantað í frumr.; „adde til“ 4540 (AM.). 10) 115: gulli og. 11) 115: bőtum.

matt brotliger verda uid kongdominn. slikt hid sama lofade Fuse at aller þeir menn. og sierhuerir sem j for eda fylgd hefde med Eggertt uerit allan þann tima sem þeirra hugmodur stod. skyllde med ollu kutter uera fyrir sier og ollum sinum. so skylldu huoratueggiu menn satter uera. skyllde þesse satt obrigdanliga med allri stadfesti halldaz ætid hedan j fra af huorum tveggium. Og til meiri audsyningar ad allt fyrskrifat skule satt uera. sette Eggertt Hannisson og Fuse Brunmannzson sin insigle med uorum fyr nefndra[1]) presta insiglum fyrir þetta bref. skrifad j sama stad og dag sem fyr seger arum epter Gudz burd ꝏ. D. L. j.

[Þat[2]) berum uid Jon Jonsson. Petur Bardarson so felldan uitnisburd godum monnum heyrande sem þetta bref sia edur heyra[3]) at uid uorum j hia. saum og heyrdum ꜳ so hliodande sattunarbref[4]) sem hier stendur skrifat fyrir. med þeirra manna oskoddum hanganda insiglum sem þar eru fyrir skrifader. Og til sanninda hier um settum uid ockur insigle fyrir þetta sattunarbref skrifad j sama stad og dag sem fyr seger.

Þetta fyrer framan og ofan skrifad bref er riett copierad epter gômlu transskriftarbrefe ritudu ꜳ kꜳlfskinn, ad þvi frꜳteknu sem j þessare copiu er understrikad, og krossar ꜳ spatiuna setter. Þesse understrikudu ord voru ur þvi gamla brefenu burt fuen, og er þetta hier epter gꜳtu sett.[5]) Til sannenda merkis setium vid underskrifader sem hid gamla brefed sꜳum, og hier vid saman lꜳsum, ockar nöfn og signet ꜳ þetta transscripti transscriptum, j Skꜳlhollti j Biskupstungum þann 18. Junij Anno 1712.

Arñe Magnusson (L. S.).
Þórdur Þórdarson (L. S.).

---

1) 115: greindra. 2) [ Allt, sem hér fer á eftir, er að eins í 4540. 3) [ Svo. 4) „ita in orig.", 4540 (AM.). 5) Hér í hornklofum [ ].

159. 30. ágúst. 4. sept. 1551. á Ketilsstöðum.

Kaupmáli Jóns Einarssonar og Málmfríðar Bjarnadóttur.

AM. Apogr. 4311, m. h. Styrs Þorvaldssonar „Ex orig. Petrs Ásmundzsonar."

Jn nomini[1]) domini Amen.

Lijstist og stadfestist sofelldur kaupmáli j millum Jons Einarssonar. og Málfrïdar Biarnadottur æ Kietilstaudum á Vaullum drottins daginn næstan eptir Bartholomei Apostoli um sumarit[2]) a þeirra Brudlaups deigi. árum eptir Gudz burd ꝏ. d. l og j. at Einar Bryniolfsson gaf syni sijnum Joni Einarssyni til eignar en til kaups vit Málfrijdi Biarnadottur halft ed þridia hundrad hundrada j sofelldum peningum sem hier seigir. Espihool j Eyiafirdi. og Merkigil j Hrafnagils kirkiusokn fyrir c. hundrada. sydra Hol j Kaupangs sveit. j Kaupangs kirkiusokn fyrir xx. c. Sirisstadi j Kuæklingahlijd. j Glæsibæar kirkiusokn. fyrir xxx. c. Látur a Eyiafirdi med öllum rekum j Grijtubacka kirkiusokn fyrir xx. c. skógar part j Fnioskadal. og gielldfiár afriett á Gardzærdal fyrir xx c. reiknast þessar jardir med fyrrgreindum jtökum fyrir c. hundrada og nijutyge hundrada. og þar til i ödrum peningum frijdum og ófrijdum. svo fullt yrdi halft ed þridia c. hundrada. Hier at auke taldi fyrnefndur Jon Einarsson sier sialfur lx. c. þar til greind Jörd j Fliotum er Hólar heita j Holltskirkiusokn fyrir xxx c. og þar til god xxx c. j ödrum peningum. Lysti adurskrifadur Einar Bryniolfsson þvi fyrir oss ad hann giæfi fyrskrifudum Joni Einarssyni syni sijnum allar sijnar löggiafer sem hann mætti framast med lögum giefa. Hier i mote gaf Biarni bondi Ellindsson dottur sinni Málfrijdi halft annad c. hundrada. þessar jardir þar i skildar Brú j Jökulsdal i Mödrudals kirkiusokn fyrir xx. c. Skiolldolfsstader og Hiardarhaga i samri sveit j Hofteigs kirkiusokn fyrir xxx c. Huefilsdal hálfan j Jökulzdal fyrir xv. c. og þar til skylldi hun eiga hia sier xv. hundrada Jörd. Reiknast þessar jarder fyrir lxxx. c. og þar til j ödr-

1) Svo. 2) þ. e. 30. ágúst.

um gődum̄ og þarfligum peningum ắttatygi c. So og gaf fyrgreindur Jon Einarson adurnefndri Mắlfrijdi Biarnadottur lx. c. j tilgiof. var þar tilgreind Sirisstader fyrir xxx. c. og sydre Hőll fyrir xx c. og þar til x. c. Reiknast mắli og giafir Malfrijdar ij. c. hundrada j gard ắdurnefnds Jons Einarssonar. Enn eptir þessum Giỏrningi og skilmắla. festi fyrskrifadur Jon Einarsson optgreinda Malfrĭdi Biarnadottur sier til lỏgligrar eigin̄konu. epter riettum Bokarinnar ordum. Voru þesser menn festingar vottar og Brudlaups vottar. og at ắdursogdum Giỏrningi. Tumas Eiriksson. Geirmundur Jonsson. Bessi Biỏrnsson prestar Arni Brandsson Brandur Helgason. Teitur Magnusson leikmenn. Og til saninda hier um̄. setium vier fyrskrifader menn vor jnsigli fyrir þetta kaupmắla bref. er skrifad var j sama stad og ắri. fimm daugum sjdar en̄ fyr seiger.

---

## 160. 1. september 1551. á Helgastöðum.

Sjöttardómr, kvaddr af Þorsteini sýslumanni Finnbogasyni um ákæru Þorsteins Einarssonar um arf og gjöf Jóns eldra Einarssonar, bróður hans, dœmir Þorsteini og börnum Benedikts Einarssonar jörðina Helluvað og þau kúgildi, sem þar með voru.

AM. Apogr. 5623, m. h. Jóns Magnússonar „Ex originali“ á kálfskinn.

Ollum monnum. þeim sem þetta bref sia edur heyra. sen̄da Wigfus Þorsteinsson. Arne Brandsson. Jon Skulason. Bryniolfur Jonsson Eysteinn Þorbiarnarson. Arne Guidason.[1]) q[vediu] G[uds] og sina kunnigt giorandi. þa lidit war fra guds burd. ꝳ. Dc. l oc j. a Helgastodum. j Reykiadal a þingstad rettum. þridiudaginn næstan fyrir Mariu Messo seirne. voru vier j dom nefndir af heidarligum manni Þorsteine Finnbogasyni. er þa hafde. mins herra kongsins syslv. j Þingeyiarþinge. skoda. og rannsaka. og fullnadar dom ắ ath leggia um þa ắkæru. er Þorsteinn Einarsson klagade. og

1) Svo.

ꜳtalade arf og giöf Jons heitins eñs ellra brodur sins. komu þar fram lôglig. vitni. at hans peningar woru mest l. hundrud. þa hann fra fiell. Stendur suo j vore landslaga bok. af þeim peningum. sem hann hefur at erfdum tecid. skal ecki meira gefast. enn tiundargiöf. er reiknadist v.c þotte oss fyrnefndum domsmonnom þessi giof. synast. og sueriast verda. af skeligum vitnum. og ad suo giordv. skyllde þesse giöf greidast. af þeim peningum sem Ari heitinn Jonsson ad sier tok ologliga. eptir Jon Einarsson j kuikum peningum og daudum. og heim woro flutter til Einarstada. þui ad nafne drottins tilkôllôdu dæmdum. wier jordina. Helluvad. og þau kugillde sem þar med woro eign Þorsteins Einarssonar. og barna Benediks[1]) Einarssonar. og þa skyllda aptur ad leggia. og heim flytia til Halldorstada. alla peninga sem adurgreindur Are Jonsson liet þadan flytia at næstum fardogum. Samþyckti þenna dom med oss fyrrnefndur valldzmann Þorsteinn Finnbogason. og sette sitt jnnsigle med vorum jnnsiglum fyrir þetta doms bref. huert er skrifad war laugardaginn næstañ epter.[2]) ꜳ sama ære sem fyrr seigier.

---

## 161. 12. september 1551. á Prestliólum.

Sjöttardómr, kvaddr af Þorsteini sýslumanni Finnbogasyni, dœmir gildar eignarheimildir hans að ýmsum jörðum.

AM. Fasc. LII, 6, frumrit á skinni, er fyrrum átti síra Skúli Þorláksson, og eru 7 innsigli við; er hið fyrsta þeirra innsigli Orms lögmanns Sturlusonar. — AM. Apogr. 559; lýsir Árni þar innsiglunum og ritar langt mál um: „Þad er undarlegt ad innsigle Orms lögmanns er under þessum dőme, þar hann vid mâled ôllungis ecki ridenn var, hverki med ad nefna domenn ut, nie samþyckia hann sidan. Orm mun hafa bored ad i Hafrafellztungu medan þeir voru ad skrifa dominn, og hefur so Þorsteinn Finnbogason gabbad hann (facillimum mortalium) til ad setia sitt innsigle under med, til þess ad þad kynne sidar meir þiena sier (Þorsteine) fyrer approbation hans, ef þesse ölogmæte dőmur (hver so i sannleika er ad formenu) yrdi sidar ätalenn. Enn ad Ormur hefur ei dőminn samþykt, hefur komed (kannske) þar af, ad bokfelled under domnum hefur vered oflited, og kannske ecki meira

---

1) Svo. 2) þ. e. 5. sept.

pergament vid hôndena, hvar ä approbation Orms kynne ritast. Enn ad eiga under constantia Orms, þott hann sidar lofade ad confirmera dőm þenna, var ei tutum, þvi hiner, sem mäled snerte ä adra siduna hefde kunnad ad verda fyrre, og fä improbation Orms. Til ad binda nu Orm, annadhvort til ad samþyckia sidan, eda ad hafa geinged ofan i sialfan sig, hefur Þorsteinn lated Orm heingia innsigled med domsmônnunum under dőmenn, so sem i yferdomara stad, þar hann sialfur bæde nefnde dőmenn ut og var mälspartur. [Endilega kynni vid þennañ dom hafa fest vered med innsigle Orms schedula approbatoria nefndz Orms og sidan rifnad ut ur æs þeirrar schedulæ og hun so burt losnad, enn innsigled orded epter i dominum, sem hverutueggia hefdi adur saman hallded. Og þetta mun so vera.[1]) Þo er það þar ä mőte ad innsigled stendur so framarlega. þvi optaz eru þau innsigle, sem ônnur bref samanstinga, i midre plica, eda þar um. imò: þar hefr eingin schedula vid fest vered. — Eg ä nu sialfr þennan dom in originali". — Innsigli Þorsteins Finnbogasonar hefir aldrei fyrir dôminn komið. — Eftirrit Jóns þjóðskalavarðar Þorkelssonar er í þjóðskjalasafni.

## Prestholadomur.[2])

Ollum monnum þeim sem þetta brief sia edur heyra. Senda Þordur Petursson. Jon Eyolfsson. Jon Jonsson. Jon Savlfason. Jon Magnusson. Arñe Þorsteinsson. kvediv gvdzs og siña. kvnigtt giorandi. þa er lidit uar fra gvdzs burd. M. u^c. l. og eitt ær. æ laugardagin næstan fyrir krossmesso vm havstid. J Prestholvm J Nupasveit æ þingstad riettum. uorum uier J dom nefnder af heidarligum manne. Þorsteine bonda Finbogasyne er þa hafdi kongsins syslv og vmbod J Þingeyiarþingi. ath dæma og skoda þa uittnisburde. sem hann þar fram lagdi. hveria macktth þav[3]) skylldu hafa. og huersu skælig þeim litist þav[3]) vera. J fyrstv kom þar fram fyrir oss vittnisburdur dañdi manna. ath þeir uoru þar nærstadder. sav og heyrdu æ. ath Finbogi Jonsson laugmann gaf Þorsteine Finbogasyne syne sinum fiogur hundrud hundrada[4]). med Jayrde og samþycki Malfridar Thorfadottur. kvinnu sinnar. Voru þar þessar Jarder til greindar. Grytvbacki. Hlyskogar. Hringsdalur fyrir hundrad hundrada.[4]) Videmýre J Skagafirde og xx^c. Jord fyrir. c. hundrada. Ms J

---

1) [ útstrikað. 2) utan á frumritinu með gamalli hendi. 3) Svo. 4) hundrara, frbr.

Midfirde og þær ȷarder sem þar til liggia. minne OOs. Uigdisarstadi. Grauf og Grafarhol. fyrir hundrud c. og þar til c hundrada ȷ þarfligum peningum. So og kom þar fram fyrir oss bref med ȷnsiglvm dandi manna. ath þeir voru þar nær stadder ȷ Klofa æ Landi ȷ Landmannahrepp ath Þorsteirn Finbogason keypti sina kuinnu. Ceciliv Thorfadottur. og gaf henni allar sinar lauggiafer. ur feingnu fie og ofeingnu. so sem þeirra kaupbref ȷnne helldvr. So og kom hitt þridia bref fyrir oss med ȷnsiglvm dandimanna. er so ȷnne stod. er þeir voru þar hia ath Olafur Philipusson fieck Finboga Jonssyne lavgmanni ȷardernar .ii. Osa til fullrar eignar. ȷ Midfirde. Vigdisarstadi. Grauf og Grafarhol. sem liggia ȷ Mels stadar kirkiu sokn̄ med aullum þeim gaugnum og giædum sem þessum greindum ȷordum fylger og fylgtth hefer ath fornu og nyiv. og hann uard fremst eigandi ath og þar til xxx. kugillda. Voru þesser menn þar fyrir skrifader. Einar Oddzson. Thomas Hrafnsson. Sigurdur Joňsson og fleire goder men[n] adrer. og þui leist oss þessi bref skiælig og myndug vera ȷ allan mata. og ath so profvdv sem þar fram kom fyrir oss. þa dæmdum uier eign Þorsteins Finboga-[sonar] allar þessar ȷarder. vera og verid hafa. sem hann hefdi ecki ȷ burtt sellt. eda audrum med laugum ȷ bvrtt feingit. og hann skylldi riettiliga mega ath sier taka. fyr skrifadar ȷarder og peninga. nær hann villdi. sem sa domur ȷnne helldur. sem dæmdur var æ Oddeyri. ath hver skýlldi mega ath sier taka þær eigner sem hann hefdi dom eda vittne til ath þeir ætti. Ok til sanenda hier um setium uier fyr nefnder domsmenn vor ȷnsigli fyrir þetta domsbref. skrifad ȷ Hafrafellzstungu. sunnvdagin næstan fyrir krossmesso um haustid degi sidar en fyr segier.[1])

---

162. 13. september 1551. á Strönd.

Kaup Ögmundar Eyjólfssonar á Hrauni í Ölfusi að Erlendi lögmanni Þorvarðssyni.

AM. Apogr. 4537 „Ex originali Gudmundar Einarssonar á Hrauni

1) þ. e. 13. sept.

i Olvesi" (AM.). — Uppskrift frá ca. 1848 er í AM. 969, 4to., eftir transscriptum frá 1738. — Eftirrit Jóns þjóðskjalavarðar Þorkelssonar er í þjóðskjalasafni.

Þat giorvm̄ vier siera Jon Jonsson og Avgmvn̄dur Þorsteiñson godvm monnum kunnigt med þessv ockrv opn̄u brefi at vid vorum j hia savm̄ og heyrdum ꝍ́a ord og han̄daban̄d þessara manna af eirne allfv herra Erlen̄ds Þoruardssonar[1]) enn af annari Augmvn̄s[2]) bon̄da Eijollssonar[2]) at svo fyrir skilldv ad herra Erlen̄dur selldi Avgmvn̄di jordina Hraun j Avlvosi er ligur[2]) j Hialla kirkiu sockn med aullvm̄ þeim gogn̄vm og gædvm̄ sem greindri jordu fyllger og fyltt[2]) hefur at forn̄u og nyv og hann vard frem̄stt eigan̄di at. ad vn̄dan̄ tecknvm avllvm stortriam a Hraun̄sreckvm vj. alln̄a lavn̄g og þatan̄ af stæri. svo og skildi[3]) herra Ellen̄dur fra ij stags[2]) ein̄gi j Lambeyrvm og þad ein̄gi sem krosinum[2]) ꝍ́a Grimslæck til heyrer. hier j mot skylldi þrat[t] skrifut jord Hravn eiga æ xx. hesta lyn̄grif anat hvert ar j Hlidaren̄da jord enn annat hvert j Breidabolstadar jordu æfin̄liga. Jtem skylldi adur nefn̄dur Avgmun̄dur giallda honum xxx hvndrut j þeim peningvm er optt nefn̄dvm herra Erlen̄di lickadi vel at tacka fyrir adur nefnda xxx. hun̄drada jord Hraun. var þar til skilinn nyr attahrin̄gur eda ein̄s ars gamall ef hann villdi hann helldur j jardarverdit og þar til annat þad fleira er hans gan̄in̄gur[2]) væri. galltt hann honum sillfurskal og xv. iockvn̄dale. Jtem silfurfesti og skylldi leysa til sin fyri[2]) xvij dali j mogoligan̄ tima. Og til sanninda hier vm̄ sétivm vid ockar jnnsigle fyrir þetta jardarkaups bref hvertt ed skrifat var æ Stron̄d j Selvogi svnvdæginn næstan̄ eftter nativitas Marie þa lidit var fra gudz bvrd. ꝳ. D. L. og eitt.

Þetta fyrer framan skrifad bref er riett ritad epter originalnum. hvad vid underskrifader med ockar handskriftum vottum.

Arne Magnusson.
Þórdur Þórdarson.

---

1) Þorualls sonar 4537 & 969. 2) Svo. 3) skilda Apogr. 4537.

163. 14. september 1551. í Hvammi.

Vitnisburðr um loforð Sigurðar Oddssonar, að jörðin Tindar skyldi aftr lögð undir kirkjuna.

AM. Apogr. 4542, m. h. Árna Magnússonar „Ex originali Þorgrims Jonssonar i Reykiahlid“. — Eftirrit Jóns þjóðskjalavarðar Þorkelssonar er í þjóðskjalasafni.

Bref þad Tindar eru lagder til Budardalz.[1])

Svo felldan vitnisburd ber eg Magnus prestur Jonsson. um skilmala Eireks Gudmundzsonar og giorning og loford Sygurdar Oddssonar. a giptingardeige Jons Sygurdssonar. þá hann keypti Margretu Eireksdottur i AAsgardi. at Eirekur skildi þad til at Sygurdur skylldi leggia aptur under kirkiuna iordina Tinda. hvad Sygurdur vard þvi fullkomliga iatza og samþyckur forordzlaust i allan máta. med odrum skilmala fyrgreinds Eireks Gudmundzsonar sem kaupmalabref þar um giort innehelldur og utvísar. og þesser bokareidar ath hlynna sem hier eru a[2]) skrifader. Sagda eg og fyrer kaupi þessara manna Jons og Margrietar. hef eg og alldrei annat vitni hier um borid og ongum odrum bref ne incigli ut[2]) gefit. og hier[2]) ma eg epter sveria ef þurfa þikir. Og til sanninda hier um set eg mitt incigli fyrir þetta vitnisburdarbref hvert ed skrifath var i Hvammi i Hvammssveit Krossmessu sialfa um haustid þa lidit var fra gudz burd [M. D.[3]) L. j.

Þann vitnisburd berum vid Jon prestur . . . . Biarne . . . asson at vid hofum sied yfer lesit so latandi vitnisburd med heilu og oskoddudu hanganda incigli ord epter ord skrifadañ sem hier fyrir ofan skrifat stendur. Og til sanninda hier um setium vid ockar incigli fyrir þennan vitnisburd. hver ut var gefinn og upp skrifadur a Modruvollum i Hôrgardal xv. dag Martii manadar anno M. d. xll og v. ar.

Þetta fyrir framan og ofan skrifad er riett ritad epter gômlu kalfskinnsbrefe nu innsiglalausu. Þad sem

1) Stóð utan á brèfinu „með fornri hendi“. 2) undirstrikað. 3) frá [ undirstrikað.

hier er underdreged (*a. ut. hier. M. d*) er ur brefenu burt trosnad so ecki lesed verdur, ǒllu ǒdru ber riett saman. til merkes ockar nǒfn i Skalhollte þann 23. Martii Anno Christi 1711.

Arne Magnusson.
Þőrdur Þőrdarson.

---

164. **21. september 1551. á Eiðum.**

Kaup Vigfúsar Þorsteinssonar á Eiðum í Útmannasveit að Margrétu Þorvarðsdóttur fyrir Hreiða[rs]staði í Svarfaðardal.

AM. Apogr. 4530 „Ex originali Kristinar Eiriksdottur á Eidum i Utmannasveit" (AM). — Eftirrit Jóns Þorkelssonar er í þjóðskjalasafni. — Sbr. bréf 8. apr. 1568.

Um Eida stad.[1])

Þat giorum uier sira Oddur Jonsson. Biorn Jonsson. Elleñdur Olafsson og Gottskalk Solvason godum monnum kunigtt med þessu uoru oppñu brefi æ Eidum j Eidamannasueit. vorum uier j hia saum og heyrdum æ ord og hañdabañd þessara manna. Margretar husfreijiu Þorvardzdottur. og Uigfusar bonda Þorsteinssonar. ath nefnd Margret husfreyia selldi greindum Uigfusi boñda jordina Eidastad. er liggur j Austfiordvm. til fullrar eignar og frials forrædis med aullum þeim gaugñum og giædum. sem greindri jordu fylger og fylgtt hefer ath forñu og nyiu. og hun hefer fremst eigandi ath ordit. Hier j moti gaf optt nefndur Uigfus bondi jordina Hreidastadi er liggur i Suarbadardal j Vrdastadar kirkiu sokn til fullrar eignar og frials forrædis med aullum þeim gaugnum og giædum sem greindri jordu fylger fyl[g]tt hefer ath fornu og nyiu med radi og samþycki Þorbiargar Magnusdottur kuinu sinar. skyllde þat hallda kaupe sinu til laga sem keypti. en þat svara lagariftingum er selldi. Hier med gaf þrattnefndur Vigfus bondi opptt nefnda Margretu kuitta og akiærvlausa um þan peningaskakka. sem henne þotte Þorbiorg dotter sin af sier feingit hafa af sinum faudurarfi.

---

1) Með hendi Árna.

hvad reickuadizst sextie hundrut. ath fra skildum tyium æ .x. men[n]. og niu malnytu kuyllde. so og gaf hann hana kuitta um medferd alla æ þui vmbode sem hun hefer haftt uegna dottur sinnar. uar so fyrir skilid ef misdaude ýrde þessara hiona Uigfusar Þorsteinssonar og Þorbiargar Magnusdottur so hun lifde honum leingur. þa skyllde optt nefndur Eidastadur hennar eigñ uera. so og skyllde greind Margrett hafa og hallda Eidastad. þar til hun villde sialf upp gefa ef gud uillde unna henni so leingi ath lifa. Ok til sanenda hier um setium vier fyr nefnder menn vor jnsigle fyrir þetta kaupbref skrifad æ Eidum æ Uttmannasueit vm haustid jn die Mathei apostuli. arum epter gudzs burd M. u.c l. og eitt ar.

---

165. 24. september 1551. / 2. janúar 1552. Í Skálholti.

Tylftardómr, kvaddr af Marteini byskupi Einarssyni, dœmir alla þá kennimenn „afsetta sínum heiðri og stöðum“, sem ekki vilja halda kirkjuskipanina.

Bps. Skalh I,3, frumrit á skinni. Öll (12) innsiglin eru dottin frá. “Þesse domur er i fiorum stödum skorinn yfir um þvert, eins og vani hefur vered ad giöra vid þau bref, sem onytt hafa vered“ (AM.). — AM. Apogr. 2501, eftir frumritinu. — JS. 375, 4to., bls. 170—1, m. h. Erlends sýslumanns Ólafssonar (eftir uppskrift Árna Magnússonar). Stendr þar aftan við bréfið: „Þetta bref er accuratè uppskrifad epter þeirrar tidar pappirsblade, innfestu i brefabok Olafs biskups Hialltasonar, hvar á, hier fyrer utan, voru tvo önnur bref de datis 1551. og 1552. Synest ad Marteinn biskup mune sögdum Olafe biskupe sendt hafa þetta þessara 3ia brefa apographum. Hin tvo brefen hefe eg og utskrifad, og liggia þau og in hoc fasciculo historiæ Reformationis“ (AM.). — Bréfabók Ólafs byskups hefir ekki þekkzt síðan á dögum Árna Magnússonar; hefir hún verið hjá honum í láni frá Hólum og brunnið með öðrum plöggum hans. — Uppskrift Jóns þjóðskjalavarðar Þorkelssonar er í þjóðskjalasafni.

Vm papista presta.[1])

Ollum monnum þeim sem þetta bref sia edur heyra. senda Jon Biarnasson.[2]) rádsmann. Snorre Hialmsson. Gisle

---

1) Utan á frumritinu með allgamalli hendi. 2) Biarnarson 375.

Jonsson. Arni Arnorsson. Jon Þorleifsson. Biorn Olafsson. officiali.[1]) Gudmundur Joñsson. Oddur Halldorsson. Gunnlaugur Arnasson. Jon Einarsson. Steffan Hallkelsson og Loptur Narfason. prestar Skalholltz Biskupsdæmis. kuediu Guds og sina. kunnigt giorandi. at arum efter guds burd. ꝏ. d. l. og eitt. fimtudagin næstan efter Matheusmesso. ȷ Skalhollti vorum vær til nefnder af herra Marteine Einarssyni Biskupi ȷ Skalhollte at skoda og rannsaka huerssu fara skyllde vm þær personur og þau kirkiunnar beneficia sem þeir hallda. sem ecki vilia hafa þa kirkiu skickan sem herra kongurin med rikianna ʙadi ȷ Danmork og Noreigi hefur oss skipat og nu er samþykt fyrir allt Skalholltz stikti. Nu saker þess at vier vitum huern haska lifs og salar. þar dagliga afleider og leitt hefur [kristninne og landinu[2]) til fordiorfunar af þeirre tuidrægni[3]) og truarspiollum sem þær personur þuerudliga hallda og ecki vilia tilleidazt. J annare grein eru þeir opinberliga forbodader og bannsetter sem hallda vilia med þad gamla messu canon og adrar okristiligar veniur og lagasetniñga. J þridiu grein syna þeir sig [opinberliga ȷ[4]) ohlydne an skynsemdar ȷ moti kirkiunne og hennar formanne og sinum eidi og trulofan. Og fyrir þessar greiner og fleire adrar sem hier ad luta. at heilags anda nad tilkalladri samþycktum vær fullkomliga og dæmdum alla þa kennimenn. af setta sinum heidre og staudum at næstu fardaugum. sem ecki vilia þa skickan hallda sem er ȷ Skalhollte tilsaugd og þar er skipud. og hana þuerliga afseigia. edur hafa þat ecki vpptekid at næstum paskvm efter sinum efnum. Enn þeir sem slikt dirfaztt at fremia ȷ forbodi. hier ȷ Skalholltz stikti. enu fornu villu og skickan. sieu af valldzmaunnum riett tekner. og halldner sem þeir menn. sem telia villu og vantru fyrir folki.

Samþykte þenna giorning med oss fyr nefndur herra Marteinn. og sette sitt innsigli med vőrum ȷnnsiglum fyrir þetta bref skrifat ȷ Skalhollti niunda dag ȷola vm veturinn ari sidar enn fyrr seiger.

---

1) Svo (bæði). 2) [landinu og kristnini 375. 3) -drægi 375. 4) [J opinberri 375.

166. **24. september 1551. á Víkingavatni.**

Síra Sigurðr Jónsson kaupir jörðina Víkingavatn í Kelduhverfi að Jóni Sveinungasyni fyrir jörðina Finnastaði í Höfðahverfi og aðra 15 hundraða jörð eða 16 hundruð í lausafé.

Steph. 27, 4to., bls. 152—3, m. h. Benedikts lögmanns Þorsteinssonar, ca. 1720—30.

Kaupbref fyrer Vijkingavatne i Kiellduhuerfi.

Þeim godum monnum sem þetta bref sia edur heira senda Þorgrimur Þorleifsson og Þorgrimur Oddsson kvediu gudz og sina kunnugt giorande ad þa lided var fra Gudz burd MDli ár a fimtudag næstan fyrir Michaelissmesso a Vijkingavatne j Kiellduhverfi vorum vier i hia hejrdum og saum a ord og handaband Sira Sigurdar Jonssonar af ejrnre alfu enn Jons S[ueinunga]sonar af annari. ad so fyrir skilldu ad Jon Sveinungason selldi grejndum Sijra Sigurde jordena Vijkingavatn i Gards kirkiusokn þa ena somu er þejr voru þa a komner. med upplægie. jairde. og samþicke Jarþrudar konu sinnar til fullrar eignar og frialz forrædiss. med ollum þeim gognum og giædum er greindri jǫrdu fylger og filgt hefur ad fornu og nýu og fylgia á med lǫgum og adurnefndur Jon vard fremst eigande ad. Hier j möt gaf adurnefndur Sijra Sigurdur jordena Finnastadi j Hofdahverfi j Grytubacka kyrkiusokn og þar til adra xv^c jord eda xvj^c j lausagotse ef þeim þad semur. Enn ef jorden Vijkingavatn feingi ej afftur sin giæde innan iij ára þa skillde firsag[d]ur Sijra Sigurdur leggia afftur jordena Vijkingavatn ef hann villde þa ej utgrejda firrgreinda peninga. Enn iij enu næstu effterkomande ár skilldi Sijra Sigurdur aungva peninga ut giallda framar enn hann villde. Enn gr[e]jndur Sijra Sigurdur skillde skillde frialzlega meiga ad sier taka jordena Vijkingavatn i næstkomande fardǫgum og nyta hana effter þvi sem honum vel lijkade og eignast allan reka utan hvalreka enu næstu iij áren. nema svo mikid sem leiglendinge ber med logum. Enn firrgreindur Jön skilldi hafa adra xxx^c jord. en næstu iij ár leigulaust og eignast xxx timburs i Þorlaksköge svo leinge sem jorden Finnastader være í ætt Jons.

skillde hver um̄ sig hallda þejrre jǫrdu til laga er keiffte. enn svara laga rifftingum ä þejrre er selldi. Og til sannenda hier um̄ setium vier firr skrifader menn ockar jnnsigle fyrer þetta bref er giordt var i sama stad är og dag sem firr seger.

---

## 167. 27. september 1551. á Möðruvöllum.

Kaupmálabréf Eggerts Hannessonar og Sigríðar Þorleifsdóttur.

Steph. 27, 4to., bls. 241—2, m. h. Benedikts lögmanns Þorsteinssonar, ca. 1720—30. — MS. Bor. Bibl. Bodl. (Oxf.) 55, 4to., m. h. sira Guðbrands Jónssonar í Vatnsfirði (d. 1690). — Lbs. 787, 4to., bls. 84—5, m. h. Odds digra Jónssonar, ca. 1680—90. — Uppskrift Jóns þjóðskjalavarðar Þorkelssonar er í þjóðskjalasafni.

Kaupmæla bref Eggerts Hannessonar og Sigrijdar Þorleifsdőttur Anno 1551.

Þad giorum̄ vier Halldor Benedictsson. Besse Biornsson. Prestar. Einar Brinjolfsson. Ormur Jonsson. Hallur Eigelsson og Tejtur Magnusson godum monnum kunnugt med þessu voru opnu brefe ad arum effter Gudz burd 1551. sunnudagenn nærstan̄ effter Matthias Messu um̄ hausted ä Modruvǫllum̄ j Eyafyrde vorum vier i hiæ saum̄ og heyrdum̄ æ ord og handaband þessara Manna. af ejrnre alfu Þorleifs Grimssonar. enn af annare Eggertz Hannessonar. ad so fyrirskilldu og undertǫludu ad firrgrejndur Þorlejfur gaf sinne dottur Sigrijde til hejmanfylgiu ijc^c ad tilgrejndum þessum̄ jordum̄

Kavpange lx.^c
Kroppstadi xx^c
Fijfelgierde xx^c
Leifstődum[1]) xx^c
i Eyrarlande xx.^c og her til xl^c i ǫdrum̄ peningum.

Rejknast þesser peningar .ijc.^c

1) -stader 787.

Hier til lagde Moder Sigrijdar Solveig Hallsdotter af sinum̄ parte lxc i godum̄ gagnlegum̄ peningum̄.

Rejknast þa Mæle Sigrijdar Þorleifsdottur ijcc.

Hier æ mőt talde greindur Eggert Hannesson sier til kaups og konumundar i mőts vid ædurnefnda Sigrijde Þorleifsdottur iijcc ad tilgrejndum slikum̄ peningum.

Nupur lxc
Kluckuland og Holar xxiiijc
halfur Kirkiuboll xijc
Skogar xijc
Botn i Mioafijrde xijc
Horgshlijd xijc
Halfur Briamslækur xvc

her til jcc j odrum̄ godum̄ peningum̄ og enn jcc i gulle og silfre.

Þa reiknast þetta allt iijcc xxvjc.

Enn ur þessum̄ peningum̄ gaf offtnefndur Eggert Hannesson skrifadri Sigrijde Þorleifsdottur lxc i tilgiof xlc i jordum̄ og xx mælnitu kugillde og þar til kiorgrip ur hans eigu. etc.

---

## 168. 27. september 1551. á Eyvindará.

Bræðrnir Arnfinnr og Björn Jónssynir skiptast á jörðum, Sléttu í Reyðarfirði og Hallgeirsstöðum í Jökulsárhlið og Kirkjubóli í Norðfirði.

AM. Apogr. 4539 „Ex originalibus Hlidarend.", m. h. Páls Hákonarsonar. Orðamunr eftir öðru frumriti m. h. Árna Magnússonar: „Variæ lectiones in margine eru teknar ur öðrum original, hvern eg, äsamt med þeim sem brefed er i fyrstu epter skrifad, hefe til läns haft frä Hlidarenda. Ad öllu ödru ber þessum originalum riett saman". Innsigli Salómons og Sigurðar Jónssonar voru sitt með hvorum hætti við frumritin. — Eftirrit Jóns þjóðskjalavarðar Þorkelssonar er í þjóðskjalasafni.

[Jesus.[1])

Þat giorum vier[2]) Salamon Runolfsson. og Sigurdur Jonsson. og Jon Magnusson. godum monnum kunnigt med

1) [deest. 2) vid.

þessu voru opnu brefe. þa lidit var fra Guds burd. M. D. [XL. og ellefu ar[1]). á Slettu j Reydarfirde. midvikudagin[2]) næstan fyrer krossmessu. [um haustid.[3]) vorum vier i hia. saum og heyrdum æ ord og handaband þessara manna. Arnfinns Jonssonar og Biarnar Jonssonar. at svo fyrer skildu. at Biorn Jonsson sellde Arnfinne brodur sinum jordina alla Slettu i Reydarfirde. siau[4]). c og xx. at dyrleika [og þar[3]) med ollum þeim gognum og gædum sem greindri jórdu fylger og fylgt hefur at fornu og nýu og nefndur Biorn hafde[5]) fremst eigande at ordid.[6]) hier i mote gaf fyr nefndur Arnfinnur Jonsson jordina Hallgeirstade j Hlid i Kirkiubæiarþingá. [xviij. c.[7]) at dyrleika. og jórdina Kirkiubol [j Nor[d]firde[3]) i Skorastadar kirkiusokn ixc at dyrleika. med sinnar eiginnar kuinnu samþycki. og med[8]) þeim giædum sem greindum jordum fylger og fylgt hefur at fornu og [nýiu. og optnefndur[3]) Arnfinnur Jonson var fremst eigande at ordinn. hier med atte hvor þeirra at svara lagariptingu æ þessum jordum. [er sellde[3]). og aptur sitt. enn sa hallde[9]) til laga er keypte. Skildi nefndur Biorn jordena Slettu[10]) aptur [under[3]) sig og sina erfingia ef Arnfinnur ætti eigi skilgetid barn epter sig. Og til sanninda hier um setium vier[11]) vor jnsigle fyrer þetta jardarkaupsbref. skrifad æ Eyvindaræ sunnudaginn næstan fyrer[12]) Mickils[13]) Messo æ sama are sem fyrr seiger.

---

169. 30. september 1551. við Vallalaug.

Tylftardómr, kvaddr af Ormi lögmanni Sturlusyni, dœmir Helgu Sigurðardóttur tylftareið fyrir áburð um að hafa dregið undir sig með leynd gull og silfr Jóns byskups Arasonar eða Hólakirkju og að hún hefði verið í ráðum með Jóni byskupi og áeggjan um ólöglegar aðtektir eða reiðir, og tylftareiðr hennar þá þegar, svo og eiðr förunauta hennar, Jóns Grímssonar og Gottskálks Tumasonar, að þeir hafi eigi með henni riðið til að traðka rétti konungs.

1) [L. og eitt. 2) þ. e. 9. sept. 3) [deest. 4) sio. 5) vard. 6) ordinn. 7) [xuiijc. 8) b. v. hitt frumritið. 9) hallda. 10) Sliettu. 11) vid. 12) epter. 13) Mikals.

AM. Apogr. 328, með hendi Jóns Magnússonar „Ex originali“ „a pergament“. Þá voru 2 innsigli fyrir bréfinu, og að vísu 4, sem verið höfðu, dottin frá.

Øllum monnum sem þetta bref sia edur heyra. sendum vier Magnus Biornsson. Þorsteinn Gudmundzson. Eyuindur Gunnarsson. Eyiolfur Arngrimsson. Þorsteinn Simunarson. laugriettumenn. Þorgrimur Oddson. Jon Stigsson. Tume Þorgrimsson. Oddur Philpusson. Kaar Sæmundzson. Magnus Jonsson og Grimur Einarsson kuediu Gudz og vora. [kunnigt giorandi.[1]) at arum epter gudz burd. M. d. l. og eitt aar vid Vallalaug j Skagafirde a þingstad riettum. æ miduikudagin næstan epter Michaels Messo vorum vier j dom nefnder af heidarligum manni herra Orme laugmanni nordan og vestan aa Jslande. at skoda og ransaka. og fullnadardom æ at leggia huerra suara eda segta Helga Sigurdardotter skylldi sokud vera vm þær saker er fyrr nefndur Ormur laugmann kærdi til hennar kongdomsens vegna epter þeim abnrdi og framsogn sem Kristofor Trandarson og Axel Jul til fyrrnefndrar Helgu toludu. var fyrrnefnd Helga stefn[d] j fyrrsagdan stad og dag suo vier heyrdum. og suo lagdi hun [sig] þar viliugliga til laga. þui dæmdum vier stefnuna logliga og fyrrnefnda Helgu Sigurdardottur þar þæ logliga fyrir kalladæ. svo og epter þeim dandi manna domi sem þar var adur vm dæmdur. at þetta mæl skylldi til fyllra[2]) lygta koma vid Vallalaug vnder dandi manna domi og laugmannz vrskurd. huerra suara eda segta Helga Sigurdardotter skylldi kongdominum skylldug verda. J fyrstu grein at j stefnune stod. at nefnd Helga hefdi vnder sig dregit med leynd gull og silfur þad biskup heitnum Jone. gud hans saal naadi. hafdi til heyrtt eda domkirkiune a Holum. J annare grein at hun hefdi j raadum verit og æeggian vid biskup Jon. at hann skylldi hafa nockrar ologligar adtekter. eda reider. þui j gudz nafni amen. og med heilags anda nad tilkalladri. þaa dæmdum vier adurnefnder domsmenn med fullu doms atkuædi tittnefndre Helgu Sigurdardottur at vinna tylftareid fyrir adur greindum valldzmanne nu strax j dag fyrir adur-

1) [b. v.; vantar í Apogr. 2) Svo.

greindar sakargiptir. at hun væri eigi at þessum saukum sôn. og at þessum eidi vnnum þæ dæmdum vier adurnefnder domsmenn fyrrnefnda Helgu Sigurdardottur. aulldungis kuitta og akarulausa[1]) fyrir greind mal. svo og hennar peninga kuitta og fieliga fyrir ollum kongsins monnum og kirkiunnar. at aullu suo profudu og fyrir oss komnu fyrir þær saker allar er Christoforus Trandarson og Axel Jul adurnefnda Helgu vnder dandi manna vitni baru og aklogudu kongdomsens vegna. at hun hefdi rænt og tekit biskup heitins Jons peninga. Enn fallist nefnd Helga at þessum eidi þa dæmdum vier hennar lausafie fallit vnder kong suo framtt at hun hafi haftt med leẏnd suo mickit fie sem er vertt til .ij. marka. eda meira. sidan biskup heitin Jon for seinast fra Holum. var þessi domur þar a þinginu ȷn scriptis vpp lesin og framborinn. og epter þat heyrdum vier aller adur nefnder domsmenn opttnefnda Helgu sueria þar fullan bokareid. sem henni var dæmdur. þar strax samdægurs. og xij skiluiser menn og konur med henni. ad hun hefdi eigi med leynd haftt af biskup Jons eda domkirkiunnar peningum til .ij. marka. sem fyrr seiger. sidan biskup heitinn Jon for seinast fra Holum. hier med alitum vier og fullnadardoms atkuædi a logdum huerra suara eda segta þeir menn skylldu sakader sem ȷ fẏlgd voru med nefndre Helgu sem var Jon Grimsson og Gotskalk Tumasson. þui dæmdum vier þeim fullnadareid. at þeir hefdi ei til þess med henni ridit. at viliad[1]) tradka kongsens riette eda hamla. og þann eid vnnv þeir þar straks æ þinginu aullum þar verandum godum monnum a heẏrandum. þui dæmdum vier þæ og þeirra peninga fri og kuitta kongdomsens vegna.

Samþẏckti adurnefndur Ormur laugmann þenna vorn dom og setti sitt ȷncigli med vorum ȷnciglum fyrir þetta domsbref. er skrifad var a storum Okrum ȷ Skagafirdi. deige sidar enn fir seiger.[2])

---

1) Svo. 2) þ. e. 1. okt.

**170.** **30. september 1551.** **við Vallalaug.**

Úrskurðr Orms lögmanns Sturlusonar, að gildr sé gerningr sá, er Ísleifr Sigurðsson hafði gert við Þórunni Jónsdóttur, konu sína, um Grund í Eyjafirði, og því gildur dómr, er gengið hafði um þetta (sbr. Dipl. Isl. XI, nr. 604).

AM. Apogr. 255 „Ex originali Sira Skula (sal.) Þorlakssonar. Under brefenu hanger innsigle Orms lögmanns, þad almennelega [mynd]; og gengur reimeñ sem þad ä hanger, bæde i gegnum þenna urskurd og .2. önnur bref, sem eru kaupmalabref Jsleifs Sigurdzsonar og Þorunnar Jonsdottur (biskups) 1533. og Spialldhagadomur 1549. um afgreidslu mala Þorunnar og um giafer Jsleifs til hennar, utnefndur af Þorberge Bessasyne. Eru þesse tvö bref originalar med innsiglum under“ (AM). Uppskrift Jóns þjóðskjalavarðar Þorkelssonar þaðan er í þjóðskjalasafni. — Þessi úrskurðr er og víðar: AM. 255, 4to., bréfabók síra Skúla Þorlákssonar á Grenjaðarstöðum (tvívegis, bls. 229—30 og 279—81; uppskrift þaðan er og í þjóðskjalasafni), ÍB. 67, 4to., Lxxxv, m. h. síra Eyjólfs Jónssonar á Völlum, 114, 4to., clxxxij, 125, 4to., bl. 77—8 og 309, 8vo., bl. 64—5.

Jhesus.

Eg Ormur Stullason laugmann nordan og vestan ä Jslañdi medkennust med þessu minv opnu brefi at sæker þess at fyrir mig kom ein ein ærlig og heidarlig dandi kvinna hustrv Þorun Jonsdotter vid Vallarlaug j Skagafirdi ä almenneligu þriggia hreppa þingi ä midvikudagin næstan epter Michaelsmesso þa lidit var fra gudz burdi M. D. L. og j. ar. beiddi mic og tilkrafdi vpp ä laganna vegna adur greind hustrv Þorun fullañ laga vrskurd upp ä giora hveria magt edur afl at hafa skylldi þat kaup og giorningsbref sem Jsleifur Sygurdzson. hvers at sal gud gledie. hafdi giort vid adur greinda hustru Þorvnne sina eigiñ kvinnv sem var um Grvnd j Eyiafirdi hvad ec vmskygnde med bestu manna radi er þar voro þa til samans komner. og eg til nefndi at skoda og rannsaka fyrr greint kaupbref og dandi manna dom med þeirra jnnsiglum er svo hliodandi var. at þeir hofdu dæmt fyrr greint kaupbref og giorning fyrr greindra manna Jsleifs Sygurdzsonar og hustru Þorvnar Jonsdotter myndugan og skiæligan j allañ mata epter þui sem þeirra kaupmalabref vtvisar og inne helldur. þui j Gudz nafne amen og

bestu manna radi er ec til med mier kalladi til at skoda og tractera sierhveria grein j tittnefndu kaupbrefi og dandi manna dome hvad mier og þeim virtist þrattnefnd bref mýndug og skiælig med aullum greinum og arthiculis er þau innehallda þui vier vissum þar ecki ne saum þar laugmal til standa at huer bondi mætte ecki suo kaupa vid sina konu sem annañ mann riettum kaupum med sins bonda orlofe. Þui urskurda ec adur nefndur Ormur laugmann nordan og vestan ꝫ Jslandi. med þessum minum fullum og aullum laga vrskurdi þrattnefnt kaupbref og dañdi manna dom sem hier er med festur mýndug og stadfaust og obrigduliga halldast skule med aullum sinum greinum og arthiculis sem þratt nefnt kaupbref inne helldur og titt nefnd hion hefdi hier sin ꝫ millum giort Jsleifur Sýgurdzson og hustrv Þorunn Jonsdotter. Og til sanninda hier vm seth ec mitt Jnnsigle fyrir þennañ minn lagaurskurd. hver skrifadur var og samþycktur þa þar af dañdi monnum og ollum þingbændunu mvid Vallarlaug enn jnnsigladur ꝫ Munckaþvera[r]-klaustri j Eyiafirde manvdaginn næstañ epter Magnusmesso vm veturinn[1]) af mier Orme Stullasyne laugmanne ꝫ sama are sem fyrr seiger.

---

## 171. 5. október 1551. á Bustarfelli.

Kaup Lopts Kolbeinssonar á jörðunni Gili í Jökuldal að Markúsi Hemingssyni.

AM. Apogr. 4538 „Ex origin. membran.“ (AM.). 1. innsiglið var ólæsilegt, 2.—4. dottið frá. — AM. Apogr. 4412, frumritað stafrétt transscriptum síra Páls Högnasonar og Pétrs Ásmundssonar, gert að Skriðuklaustri 13. júní 1704. Árni Magnússon ritar við þetta bréf „habeo ex orig.“, og er sú uppskrift AM. Apogr. 4538. — Eftirrit beggja þessara uppskrifta m. h. Jóns þjóðskjalavarðar Þorkelssonar er í þjóðskjalasafni.

Þat giorum vier Stefan Snorrason. Tume Raugnvallsson. Jon Jonsson. Olafur Joñsson. Arne Brandsson godum monnum kunnigt med þessu voru ôpnu brefi. þꝫ lidit

---

1) þ. e. 14. dec.

var fra gudz burd. ꝍ. d.c l. og .j. Vorum vier ȷ hia. saum og heyrdum ꝍ́ ord og haṅdabaṅd þessara manna. ꝍarkusar Hemingssonar og Lopts Kolbeinssonar. faldist þat og skildist vnder þeirra handabaṅdi ath Marcus Hemingsson selldi Lopte Kolbeinssyni ȷordina alla Gil ȷ Jokulsdal. er liggur ȷ Hofteigsstada[1]) kirkiusokn. med ollum þeim gognum og gedum sem fyrr greindri ȷordu fylger og fylgt hefer ath fornu og nyiu med sodan vmmerkium ꝍ́ nefndum. fram ȷ lekin þann nestur er Valabiorgum og ʀettsyne upp ȷ Sǻndæ. og suo austur ȷ Saṅdvatṅ og vt epter heidinne ȷ þann stora stein sem stendur fyrir heidar enda. ʀettsyne fra honum og ofan ȷ Jôkulsæ. Sagdi hann þessi landamerki hefdi sǻgt sier tueir gamler menn. er[2]) þar vissu glauggliga til.[3]) Selldi hann honum þetta land ȷtaululaust. skylldi fyrnefṅdur Markus suara lagaʀiptiṅgum ꝍ́ fyrr greindri ȷordu. en Loptur til laga hallda. enn ef ȷordiṅ geingi aptur med logum. þꝍ́ skildi Loptur[4]) sier aptur slika peninga sem hann hefdi fyrir ȷordina greitt [og hier greiner. vij. malnytvkugillde, ij kyr og .v. æsavdarkugillde. xij fiordvnga smiorz jc. vod vadmalz. xiij. marka pott jc. eitt gelldfiar hvndrat. c ȷ leigur ȷ . . . ij ar. fiogra vetra gamallt naut ȷ hvndrat.[5]) Gaf Markus Lôpt aulldungis kuittan og ækęrulausaṅ fyrir sier og sinum epter komendum [vm adur greint ȷardar uerd.[6]) Og til sanneṅda hier vm setur þratt nefṅdur ꝍarkus sitt ȷnnsigli med vorum ȷnnsiglum fyrir þetta ȷardarkaupsbref. Skrifad æ Bustarfelli. ꝍǻnudǻginn nestaṅ epter Michaelsꝍesso ꝍ́ sama are sem fyrr seiger.

---

**172. 12. október 1551. á Torfustöðum.**

Úrskurðr Orms lögmanns Sturlusonar, er dœmir gildan Ánastaðadóm 20. maí 1545 (sjá Dipl. Isl. XI. nr. 355).

Lbs. 61, 8vo., uppskrift gerð handa Árna Magnússyni „Ex orig.“, sem var læst saman við dóm um Ánastaði frá 20. maí 1545. Árni lýsir innsigli.

1) Svo. 2) 4412: eru. 3) Vantar í 4412. 4) 4538: Lôptur. 5) [„Þetta stendur á spatiunni med annari hendi þő eins gamalli“, 4538 (A.M.), en vantar í 4412. 6) [„Jtem þetta og ꝍ́ spatiunne“, 4538 (A.M.), en vantar og í 4412.

Eg Ormur Sturllason logmann nordañ oc vestan ꝺ̃ Jslañdi medkennest med þessv minv opuv brefi at saker þess at fyrir mic kom ein ærlig oc heidurlig persona siera Sigurdur Niculasson ȷ logligu vm̃bodi heidurligrar oc ærligrar dañdi kvinnv Steinunar Jonsdottur. birtandi fyrir mier þad giorningsbref oc dandi manna dom sem ȷ millum þeirra var giort. Serra[2]) Biarnar heitens Joñssonar huers sæl at gud gledie oc Gisla[1]) Jonssonar. hier med bidiande mic oc til krafdi upp æ laganna uegña at ec skilldi hier fullan laga utskurd[2]) upp æ gefa huad mier virdtizt logligast vm̃ þenna giorning oc dañdi manna ælit sem þetta bref ȷnnehelldur oc hier er med fest. þui ȷ gudz nafñi amen at ollu suo profudu mæli fyrir mic komnv oc med allra bestra manna samþíjcki er ec þar til med mier kalladi til at skoda oc rannsaka epter þui sem brefit ȷnnehelldur. þui virdztizt[2]) þeim þad ȷ allañ mata míȷ́ndugt oc skialigt. hier med [utt skurda[3]) ec titt nefñdur Ormur logmadur med minum fullmegtugum laga utskurdi.[2]) þennan enn sama dom oc giorning dandi manna med ollum sinum Greinum oc articulis er þetta bref ȷnne helldur. stodogañ oc stadfastañ oc af aungum mega rivfast vtan af nadugasta herra kongin[2]) Sialfum oc med rikessens radi. epter þui sem vor Noregs kongs laug oc ȷslensk ȷnnehallda oc utt uijsa. Oc til sanniñda hier um̃ set ec mitt ȷnsigli fyrir þennan minn laga oc logmanns vtskurd.[2]) huer er giordur var oc skrifadur æ Torfustodum ȷ Midfirdi ꝺ̃ almenniligu þriggia hreppa þiñgi. ꝺ̃ manvdaginn næstan epter Dioníȷ́síȷ́ dag um̃ haustid þꝺ̃ lidid var fra Gudz burd. ꝏ. D. L oc eitt ar.

---

173. **13. október 1551. í Kaupmannahöfn.**

Bréf Kristjáns konungs þriðja um, að haldnir verði þrír bænadagar, mönnum til yfirbótar.

Samkynja bréf var sent öllum byskupum í Danmörku, Noregi, Íslandi og Færeyjum (sbr. Tegn. o. a. L. 3, 421b og 420b, Kancelliets Brevböger 1551—5, bls. 82, Norske Rigsregistranter 1, bls. 142, Ny

1) þ. e. Þorgils. 2) Svo. 3) [Svo.

kirkehist. Saml. III. bls. 46 (frumbréf Hans Rípabyskups Tavsens), Christian III.s Hist. II. bls. 474.

### A. *Á dönsku.*

JS. 375, 4to., bls. 166—7, með hendi Erlends sýslumanns Ólafssonar: „Þetta bref er epter originali". Steph. 57, 8vo., bl. 385, eftir frumriti, skrifað handa Árna Magnússyni; önnur uppskrift einnig í sama hdr. bl 389. (Eftirrit beggja þessara handrita eru í þjóðskjalasafni). — Prentað í FJ. Hist. eccl Isl. II. bls. 307—8 (eftir frumr.) og MKet. I. bls. 294—5 (einnig eftir frumr.). Frumbréfið í öllum þessum stöðum er til Marteins byskups, en samhljóða bréf hefir og verið sent Ólafi Hjaltasyni, sbr. Tegn. o. a. L. 3, 421 b: „Olaff Hieltheson ij Holle stiigt".

[Skickader þrir Bænadagar.[1])

Christian mett guds naade Danmarckis. Norgis. Wendis oc Gottis koning etc.

Vor synderlige gunst tilfforn.

Wiider att wij formercke[2]) att mangesteds wtj wortt laudtt Jslandtt formeres synd och wndskaff och ceremonier icke holles weed magtt om guds skiick hellige ordtt. oc Euangelium. Thaa paa thet att guds store fortornelsse syndtt och wndskaff maa affleggis oc fortientte straff och pine maa naadeligen affuendis och huer wilde rette sig sielff mett penitens oc bederringh haffue vij nu mett wor elskelige Dannmarckis Rigis raadtt som nu her hoes oss tilstede ere beuilgett och sambtycktt att wttj alle sogne kiercker offuer wortt Rige Norge skall holles trende bededage. Thij bede wij etther oc wille attj mett thet allerforste etther mueligtt ere oc thette wortt breff etther tilhande kommendis worder bestiller thet saa offuer altt Skalholtt stigtt att ther holles wtj huer sognekiercke trende bede dage och attj sielff berammer ther till iij bequemme dage oc tesligiste mett faster[3]) messe att holle och letaniepredicken oc attj ther hoes wille haffue flyttige oc goed indsseende mett saa att synd oc wndskaff motte nederleggis oc affuendis thet mieste etther mugligtt er att giöre som wij etther tiltroe oc i paa Religions wegñe pligtige ere. her wiid att rette etther epther och lad thet jngen-

1) [ Að eins í 57; MKet.: Om trende Bededage at skal holdes.
2) formurcke, 375. 3) 375 og FJ.; 57 og MKet.: fasten.

lunde. Beffalendis etther gud. Screffuitt paa wortt slott Kiopnehaffuen tisdagen nest epther Sancti Dionisij dag aar et cetera mdlj.

Wnder wortt ssignett.

[In dorso.[1])

[Oss elskelige hederlig och hoglerdend mand her Mortthenn superintendentt wtj Skalholtt stigtt paa wortt land Jslandtt.[2])

## B. *Þýðingarágrip á íslenzku.*

Dómabók þjóðskjalasafnsins í fol. bl 96, skr. ca. 1600 (= *a*). — Lbs. 72, 4to., bls. 532—3, með hendi síra Jóns Halldórssonar í Hítardal, ca. 1720.

Kongs Christians þridia Sendibref wm bænardaga til Jslandz.

[Christianus tertius et cetera.[3])

Wier haufum med wort Elskuligt Rykisins Ráad [i[3]) Danmaurk oc Noregi skipat og samþýckt ad wtij aullum soknarkirkium ýfer wort Rijki Noregi skuli halldast þrenner bænadagar. þui bidium wier ydur. og wilium ad þier med þad allra fýrsta mauguligt er. skicka[4]) þad suo til yfer allt Skalholltzstickti ad þar halldist j huerri soknarkirkiu þrijr bænadagar. og þier sialfer þar til þria bijkuæmiliga daga welied j þenan mata med faustum med[5]) predikan og letaníu oc ad þier wilied hier med hafa gloggua og goda wmsion svo ad sýnder og wondskapur meigi nadugliga kuijttast og afuendast. witid ýdur hier epter ad retta.

Skrifat [j[6]) Kaupinhafn [þridjudagin næstan epter[7]) sancti Dionisii[8]) dag[9]) [Anno ꝏ. d. lj.[10])

[Wnder wort signeth.[11])

---

1) [57 og MKet. 2) Þessi áritun bréfsins er ekki í FJ. 3) [b. v. 72. 4) skickid 72. 5) sl. 72. 6) [a voru sloti, 72. 7) [b. v. 72. 8) Dionisi *a*; Dijonijsii 72. 9) [sl. *a*. 10 [1551 (með annarri hendi) 72; sl. *a*. 11) [sl. 72.

174. **16. október 1551. í Kaupmannahöfn.**

BRÉF Kristjáns konungs þriðja til Kristófers Hvitfelds og boð til Páls Hvitfelds, bróður hans, að hann skuli koma á fund konungs, með því að hann hafi í hyggju að nota hann til Íslandsferðar (ágrip).

Tegn. o. a. L. 3, 431 b. — Eftirrit Laursens ríkisskjalavarðar í þjóðskjalasafni. Sbr. Norske Rigsregistranter I. bls. 143.

Christopher Huitfeld fiick ko. matts breff. att hannd schulle forschicke synn broder Pouell Huitfeld hiid neder til ko. matts. Tesligiste fick forne Pouel Huitfeld oc ett breff, att hannd schulle komme hiidt neder til ko. matt. thij att hans ko. matt. agter att bruge hannom til Islannd. Datum Kiopnehaffuen Sanctj Gallj confessoris dag aar etc. 1551.

---

175. **16. október 1551. í Kaupmannahöfn.**

VEITINGARBRÉF síra Ólafs Hjaltasonar fyrir Hólabyskupsdœmi, gefið út af Kristjáni konungi þriðja.

JS. 375, 4to., bls. 165—6, með hendi Erlends sýslumanns Ólafssonar, vafalaust eftir frumriti, sem verið hefir í fórum Árna Magnússonar og Ólafr byskup hefir haft með sér til Íslands. (Uppskrift Jóns þjóðskjalavarðar Þorkelssonar þaðan er í þjóðskjalasafni). — Í þessari mynd er og bréfið prentað í MKet. I. bls. 296—7.

Vi Christian med Guds Naade Danmarckis. Norgis. Vendis og Gottis konning. Hertug udi Slesvig. Holsten. Stormarn og Dyttmersken. Grefue udi Oldenborg och Delmenhorst. Giöre alle vitterligt att vi hafue forordineret. tiltroet och befalit. och nu med dette vort obne breff. forordner. tiltroe. befale och fuldmagt gifue oss elskelig Her Oluf Hialtessen. at være Superintendent. oc överste tilsiunsmand over alt Holestigt for norden paa vort land Jssland. der at drage omkring og have god tilsiun med alle geistlige sager. og prædicke og lære Guds ord. och det hellige Evangelium reent og klart for almúen. og visitere alle sognekirkerne. og hafve flittig tilsiun. saa gudz ord og Evangelium prædickes og læres reent og klart over alt stigted. och at religionen haal-

des ved magt och i alle maade rette sig epter de vore obne brefe Reformatz og Ordinantz som vi hannem medgifuet have. Thi bede vi og binde alle vore kiere troe undersatte over alt forne Holle sticht boendis. at j forne Her Oluff Hialtesen udi samme sitt Superintendenz embede paa vore vegne ere bestandige. och hannem der hos handthefue och beschierme. Disligest biude vi menige allmue geistlige och verslige. ingen undertagendis der samme steds at i rette Eder epter samme vor Reformatz. och Ordinantz[1]) som hand Eder udi saa maade paa vore vegne foregivendis vorder de udi alle maader at fuldgiöre vedtage og holde. efter som de udi alle maade udviser och indholder. ladendes det ingenlunde. Givet paa vort Slot Kiöbenhaun Sancti Galli confessoris dag. aar M. D. Lj.

Vnder vort Signet.
(L. S)
Christian.

---

176. **16. október 1551. í Kaupmannahöfn.**

Kristján konungr þriði veitir Ólafi byskupi Hjaltasyni allar tekjur og réttindi Hólastóls, er Jón byskup hafi notið, til þess er konungr geri aðra skipan á, en byskup standi skil á árlega.

Ríkisskjalasafn Dana, Reg. p. a. L. 5, 536. Eftirrit Jóns Sigurðssonar í JS. 372, 4to., bls. 163—4 Eftirrit Laursens ríkisskjalavarðar er í þjóðskjalasafni.

Her Oluf Hialthessens bestiillinng paa Islandt.

Wij Chriistian etc. giöre alle wiitherliigt. att wij haffue tiiltroet oc beffallett oc nu mett thette wort obne breff tiiltroer oc beffaller oss elskelige her Oluff Hialthessen. superintendent offuer Holle stiigt paa wort landt Islandtt. att mue oc schulle her epther wppebere alt then renthe oc rettiighett ehuodt thett helst er eller neffnis kandt. inthett wndertaget. som hörrer tiill Holle stiigt oc biscop Joen tiilffornn tiill szamme stiigt haffde[1]) . tiill saa lenge wij anderledis ther

1) Hdr.: Ordinanatnz. 2) Vafasamt; hefir fyrst verið skrifað „haffuer“, en síðan krotað ofan í.

om tiilsiigendis worder oc samme renthe foruende tiill superintendenthens oc schollens wnderholling. Thesligiste tiill kirckens bygning. oc hues handt ther tiill wdleggendis worder eller oc handt beholler. schall hand arliigenn giôre oss ther fore gode redde oc reggenskaff. Thij bede wij oc biude alle giesteliige oc werdtzliige. som bôgge oc boe offuer alt Holle stiigt paa Islandt. atj her epther rette etther epther att giöre oc giiffue forne her Oluff Hialthessenn paa wore wegne oc ingen anden aldt huiss renthe oc rettighett. som ij Holle stiigt mett rette pliictige ere att giôre oc giiffue oc j aff gammel tiidt giortt oc giiffuit haffue. handt skall igenn skicke siig modt etther baade wdj leffnet oc lerdum. som en chriisten biscop bôr att giôre Thij lader thett ingenlunde. Giiffuit paa wort slot Kiôbenhaffn Stj. Galli confessoris dag aar etc. m d l j.

---

## 177. 16. október 1551. í Kaupmannahöfn.

Bréf Kristjáns konungs þriðja um, að börn presta, þeirra er eiginkvæntir eru, megi taka arf eftir foreldra sína.

### A. *Á dönsku.*

AM. Fasc. Lij,1, frumrit á skinni, og við innsigli konungs (eftirrit Jóns þjóðskjalavarðar Þorkelssonar þaðan er í þjóðskjalasafni). Eftirrit eftir frumskjalinu er i AM. Apogr. 3730 (tvö eftirrit þaðan eru í þjóðskjalasafni). — Samhljóða er bréfið í ríkisskjalasafni Dana. Reg. p. a. L. 5, 537 (eftirrit Jóns Sigurðssonar þaðan i JS. 372, 4to., bls. 165, og Laursens ríkisskjalavarðar einnig þaðan í þjóðskjalasafni). Prentað í Chr. III.s Hist. II. bls. 457—8. — Prentað og i FJ. Hist. eccl. Isl. II. bls. 308 og MKet. I. bls. 297, með nokkuð öðru orðfæri; en þarflaust er að rekja orðamun, með því að hér er farið eftir sjálfu frumskjalinu.

Att prestebôrn paa Jsland maa arffue.[1])

Wij Christiann mett gudz naade Dammarckis.[2]) Norgis. Wendis och Gottis Konning. Hertug wtj Slessuig. Holstenn. Stormarn och Dijttmerschenn. Greffue wtj Oldenborrig och Delmenhorst Giôr alle witterligtt att wij aff wor sŷnderlige

1) Utan á bréfinu með gamalli hendi, en ártal „1551“ með hendi Árna. 2) Svo.

gunst och naade haffue wntt och tiilladett och nu mett thette wortt obne breff wnde och tiillade att alle preste som er egttegiffthe heller her epther egttegiffte worde offuer altt wortt Landtt Jslandtt att theris bôrnn och affkomme mue erffue[1]) theris fader och moder som andre werdtzslige egtefolck paa wortt Landtt Jslandtt Giôrrendis worder. Thij forbiude wij alle ehou[1]) thee helst ere eller were kunde. Serdeles wor fogetth. Embitzmendt och alle andre forne prestemendtt som egttegifftt ere och theris egttebôrn her emodtt paa arffue offuer altt forne Jslandtt epthersom forschreffuitt staar att hindre eller i noger mode forffang att giôre. Wnder wortt hyllest och naade. Giffuitt paa wortt slott Kiôpnehaffuen Sanctj Gallj confessoris dagh Aar etc. Mdlj.

Wnder wortt Signett.
Christian.

### B. *Þýðing á íslenzku.*

Skjalabók þjóðskjalasafns í fol., bl. 87, skr. ca. 1600 (= a); prentað í Jónsbók („Lögbok Islendinga“), Hól. 1578 (og síðari útgáfum hennar), 1. bl. í örkinni Ll (= b). Munr er einungis á stafsetningu; gæti skjalabókin verið nær þýðanda að því leyti, ef uppskriftin þar er runnin frá skjali úr fórum Jóns lögmanns Jónssonar, og er það ekki ólíklegt.

[Kongs Bref wm presta barña arftauku.[2])

Wier Christian med Gudz Nad et cetera. Giaurum aullum maunnum witurligt[3]) ad wier af worri sierligri Guñst og nad haufum leyft og lofad og nu med þessu woru opnu brefi leyfum og lofum ad aller þeir prestar sem gipter eru edur giptast kunna wpp fra þessum deigi yfer allt wort land Jslañd þa skulu þeira baurñ oc afspringi arfa taka epter faudur og modur eiñs suo sem epter aunnur weralldlig skilfeiñgiñ hion wm allt wort lañd Jslañd. Þar fyrer fyrerbiodum wier aullum huerier hellst þeir eru edur wera kunna sierdeilis worum fouitum Embættismaunnum og aullum audrum wm̃ allt fyrrnefñt Jslañd ad giaura nauckra hiñdran edur forfañg adurnefndum eigiñgiptum kiennimaunnum edur

1) Svo. 2) [a; b: kong Christians Bref og Riettarbot Vm Skilgietning Presta Barna. 3) vitanlegt, b.

þeira skilgietnum baurnum wm̄ þeira Erfder epter þui sem hier fyrr skrifad stendur suo framt sem þeir wilia eigi mæta reidi og oblijdu af oss. Giefid æ woru sloti Kaupinhafn̄[1]) æ sancti Galli confessoris dag þa ed lidit war fra Gudz burd 1551[2]) ār.

---

## 178. 17. október 1551. á Þingeyrum.

Eiðr Helgu Jónsdóttur, að hún hafi aldrei fargað jörðunum Krossanesi og Mýri, er faðir sinn, Jón Sigmundsson, hafi gefið sér.

AM. Apogr. 385 „Ex transsumto 1562“. — Uppskrift Jóns þjóðskjalavarðar Þorkelssonar er í þjóðskjalasafni.

Suo felldan vitnisburd berum vier broder[3]) Helge abote a Þingeyrum. Sira Hōgne Petursson og Sira Jon Jonsson. ad Ormur Stullason lōgmadur tok so felldan eid af Helgu Jonsdottur[4]) løgardaginn fyrstan ȷ vetre a Þingeyrum ȷ Vatzdal sem hier epter skrifadur stendur.

til þess legg eg hond á helga bok og so skyt eg minu male til gudz ad ec hefe huorke sølum sellt nie giofum gefit ȷardernar Krossanes og Myre[5]) er fader minn Jon heitinn Sigmundzson gaf mier og ongua peninga vpp fyrir borid ad minu vite. So sie mier gud hollur sem eg satt seige.

Og til sanninda hier vm setium vier fyrrskrifader menn vor ȷncigle fyrir þetta bref er skrifat var ȷ sama stad og dag sem fyrr seiger arum epter gudz burd m. d. l. j.

---

## 179. 17. október 1551. í Kaupmannahöfn.

Kvittun Kristjáns þriðja til Axels Juuls fyrir gulli, silfri, peningum og öðrum dýrgripum, er hann, Kristófer Trondsson og Ólafr byskup Hjaltason hafi fært sér úr Hóladóm-

1) Kopmañа hofn, *b*. 2) með latneskum tölum í *b*. 3) Hdr. brodur. 4) „Sigmundzsonar er vered hafde lōgmadur“ (AM.). 5) „Helga mun hafa ætlad ad ripta þessar ȷarder, sem þā hafa vered fallnar under kong. Vide þad sem skrifad er aptan ā skiptabref Jons Sigmundzsonar dat. 1505“ (AM.). Sjá Dipl. Isl. VII. nr. 691.

kirkju og klaustrunum á Munkaþverá, Möðruvöllum og Þingeyrum.

Ríkisskjalasafn Dana, Reg. p. a. L. 5, 126 b. Eftirrit Jóns Sigurðssonar í JS. 369, 4to. (eftirrit Jóns þjóðskjalavarðar Þorkelssonar þaðan er í þjóðskjalasafni). Eftirrit Laursens ríkisskjalavarðar er í þjóðskjalasafni. — Prentað í FJ. Hist. eccl. Isl. IV. bls. 252—3; ágrip í Kancelliets Brevböger 1551—5, bls. 83—4.

Axell Jyull till Willestrup lanndzdommer vdj Nôre iyttlanndt fick konglig maiestets quittanndz som heer effter fôlger om hues handt hagde vppeborett paa Jslanndt.
et cetera. Anno. et cetera. mdl paa thett fôrste.

Christiann et cetera.

Giôre alle witterligtt att oss elskelige Axell Jull till Willestrup lanndzdommer vdj wortt lanndt Nôrreiyttlanndt oc Christoffer Trundsenn wore menndt oc tienere oc her Oluff Hiellttesenn superintendent vdj Hole stigtt paa wortt lanndt Jslandt haffue nu giordt oss reede oc regennskaff for huis guldt sôlff daler krogestaffue aff rosmertanndt beslagenn mett sôlff oc kalckonske nôdder beslagenn mett sôlff oc kober som the paa wore wegne hagde vppeborett aff Huole domkircke norden paa Islanndt oc vdj iij muncke clostre som er Munckeueraae closter Nôdreualdt(!) closter oc Tingôr closter. Sameledis for hues the hagde vpborett effter biscop Joens sônner ther sammestedz oc belôb seg offuer altt the vdj saa maade vpborett hagde effter theris registers oc regennskaffs lydelse:

En Henrickus nobbell.
vij golt gylden.
vj Deffuenter gylden.
en guld kalck mett dysk.
et mastrandtie med viij glar taffler.
ny forgyltte kalck oc dysk.
lxxxxiij daler vj ß lubsk.
iiijᴹ. iijᶜ. xl. lod sôlff.
iij krogestaffue aff rosmertandt beslagenne met sôlff.
iij kalckonske nôdder beslagenn mett sôlff.
en beslagenn mett kobber.

terris vdgifft ther aff først som the haffue anttuordett oss selff till hande.

j guldt kalck mett dysk.

ett mastrantie mett otte glartaffler weyde lxvj loedt.

ny forgyltte kalck oc dysk.

iij krogestaffue aff rosmertanndt beslagenne mett sølff.

iij kalckonske nødder beslagenne mett sølff.

en beslagenn mett kobber.

Thesliigiste anttuorde the oss elskelige Eskeld Oxe vor renttemestere.

en Henrichus nobell.

vij goltt gylden.

vj Deffuenther gylden.

lxxxxiij daler vj ß lubsk.

iiijᵐ ijᶜ xxvj loedt sølff.

sameledis haffue wij oc omdragett mett thennom otte oc xl loedt sølff som restedt i theris leffuereringh effter kolneske wegtt thij the hagde thett indtagett mett dalere oc norske wegtt.

Sammeledis haffue wij oc naadeligenn wnnt oc skengtt forne Axell Jyll och Christoffer Trundsen j sølff kande j skolle aff sølff oc ij sølff stobbe som icke vdj forne hoffuittsum beregnett ere.

Oc ther mett ere theris regennskaff paa forne theris indtegtt vppebøringh ther emodt clartt oc fuldgiordt oc bleffue the ther aff intett ydermere skylligh effter theris registers oc regennskaffs lydelsse.

Item haffue the oc nu anttuordett oss. xxxviij løde marcis forgylltte kobber som the och vdj forne domkircke oc clostre vppeborett hagde.

Thij lade vij forne Axell Jyull. Christoffer Trundsen oc her Oluff Hieltessen oc theris arffuinge effter samme theris registers oc regennskaffs lydelse quitt frij ledig oc løess aff oss wore arffuinge oc effterkommere konninger vdj Danmarc for forne guld sølff daler krogestauffue oc kalckonske nødder som forscreffuet staar vdj alle maade.

Datum Haffnie løffuerdagenn post sancti Galli dagh et cetera 1551.

---

180. [6. nóvember 1551]

Skrá um lausafé það, er síra Þorleifi Eiríkssyni á Breiðabólstað í Fljótshlíð skiptist eftir bróður sinn, síra Jón Eiríksson í Vatnsfirði.

AM. Apogr. 765, með hendi Árna Magnússonar. Eftirrit þaðan er í þjóðskjalasafni.

Skiptust svo mikler peningar sira Þorleife Eirikssyne epter sinn brodur sira Jon heitinn Eirikson. i
fridu og ofridu. anno 155[1].

J fyrstu 1. kugillde og xx. á leigustodum.
lxxx. asauda
x. kyr [med]
3. kvigum.
4. uxa.
2. gridunga tvævetra
5. naut veturgaumul.
lxxx. s[au]de gellda tvævetra og elldre med hrutum.
14. saude veturgamla og . . .
4. kapla. 2. tvævetra.
hest afgamlañ og hestamoder.

Þetta i daudum peninge:
2. attæringa med rá og reida.
x. t[rog] xx god og ny. og
xx uppgiordar kierolld med godum og illum. og
. . . storkierolld. og
ij. litla sáe.
Eirn strockur
xx. diska med smám og s[torum].
4. skierdiskar
4. tin faut
5. tinkaunnur.
iij. tinker.
iij munnl[a]ugar.
. . . hornstaup.
ein ampla.
vij. katla med godum og illum.

4. potta.
2 [ponn]ur.
12. liaer.
iij. axer.
eirn hardsteinn.
xxx asmunda.
2. vonda stedia.
[einn] litinn hamar.
uppa 2. hesta reip
eina saug.
tvær sængur alfærar.
eina sessu.
halfa adra hud.
2. tunnur ullar.
eina smā vod.

## 181. 6. nóvember 1551. á Breiðabólstað.

Skipti þeirra brœðra, síra Þorleifs og Sæmundar Eiríkssona á jarðeignum bróður þeirra, síra Jóns í Vatnsfirði.

AM. Apogr. 766, með hendi Árna Magnússonar. — ÍB. 79, 4to., bls. 338, skr. ca. 1680 með hendi síra Guðbrands Jónssonar (er og með sömu hendi í Bibl. Bodl. í Oxford, MS. Bor. 55, 4to., bls. 136—7). — Eftirrit beggja eru í þjóðskjalasafni með hendi Jóns þjóðskjalavarðar Þorkelssonar.

Skiptabref a millum Sæmundar heitins[1]) Eirikssonar og hans brodur Sira Þorleifs heitins[1]) Eirikssonar.
epter Sira Jon h[eitinn] Eiriksson.

Þad giorum vid[2]) Olafur diakne og Jon Augmundzson godum monnum kunnugt med þessu ockru opnu brefe. ad arum epter gudz burd 1551. faustudaginn næstan epter allra heilagra messu um haustid a Breidabolstad i Fliotzhlid. vorum vid[2]) i hia. saum og heyrdum a ord og handaband þessara manna. af eirne alfu Sira Þorleifur Eiriksson. enn af annare alfu Arne Gislason. giordu þesser fyrrgreinder[3]) menn Sira Þolleifur Eirikson og Arne Gislason. i umbode Sæ-

1) b. v. 79. 2) vier, 79. 3) fyrnefnder, 79.

mundar Eirikssonar. so felld peningaskipte med s[ier[1]) af þeim arfe sem Þolleife Eirikssyne og Sæmunde Eirikssyne haf[de til erfda fallid[1]) epter sinn brodur Sira Jon heitinn Eiriksson.

J fyrstu skyllde[3]) sira Þolleifur eignast og ad sier taka i sitt hlutskipte

Heydal fyrer 18c.[4])
Botn fyrer 12c.
Haurshlid fyrer 12c.
Sæbol fyrer 16c.
Garda fyrer 8c.[5])
Reykiarfiord fyrer 4c.
Eydikot i Veidelaus fyrer 4c.

Hier i mot skyllde Sæmundur Eiriksson eignast [og ad sier taka[6]) i sitt hlutskipte þessar iarder:

fyrst[3]) Reykiarfiord i Jsafirde fyrer[3]) xxxc.
Biarnastader[7]) xijc.
Eyre fyrer[3]) 6c.
Þverdalur[8]) xvjc.
Steig 6c.[9])
Latursfiörd 4c.

Enn þeir peningar. sem oskipter voru. skylldu skiptast med þeim ad næstu[10]) fardaugum.

Og til sanninda hier um setium vid ockar innsigle fyrer [þetta bref.[6])

---

## 182. 11. nóvember 1551. í Hvammi.

Sjöttardómr klerka, kvaddr af síra Árna officialis Arnórssyni, um ágreining milli Hvols og Neðra-Múla í Saurbœ um beit á Bugi.

Uppskrift með hendi Magnúsar sýslumanns Ketilssonar, ça. 1770, meðal Hvols, Neðra-Múla og Máskeldubréfa í þjóðskjalasafni, er komu 7. júní 1914 frá Jónínu Steinvöru Eggertsdóttur (d. 1914).

1) frá [ eftir 79, vantar i 766. 2) b. v. 79. 3) Vantar i 766. 4) Allar hundraðatölur eru með latneskum tölum i 79. 5) xijc, 79. 6) frá [ b. v. 79. 7) Biarnastade fyrer, 79. 8) Þuerdal, 79. 9) viijc, 79. 10) næstum, 79.

Ollum þeim monnum. sem þetta bréf siá eda heyra. sendum ver Þordur Olafsson. Jon Asmundzson. Gudmundur Einarsson. Magnus Jonsson. Clemus Asmundzson. prestar Skálholltz biskupsdæmis quediu Guds og vora kunnugt giörande árum epter Guds burd M. D. L. og eitt ár á Marteinsmesso um vetrinn í Hvamme í Hvamssveit vorum ver í dom nefnder af erligum manne Síjra Arna Arnorssyne officialis heilagrar Skálhollts Domkirkiu í millum Hvítár í Borgarfirde og Gilsfiardar at skoda og rannsaca og med fullnadar Doms atqvæde urskurd[1]) á at leggia um þá agreining sem vered hefur[1]) um lánga tíma millum þeirra manna. sem vered hafa a Hvole í Saurbæ og þeirra sem átt hafa og enn[2]) eiga nedra Múla. Jtem fyrir þá grein at svo stendr i máldaga kirkiunnar á Hvole at hun skal eiga tvegia mánada beit á Buge á vetr öllu fé. Enn þeim sem jördina nedre Mula átt hafa og enn eiga. þiker þat ecki helldur greina i sitt land eñ annarstadar. Jtem kom Biörn Jonsson sem þá atte jordena nedre Múla þar fram̄ fyrir oss og vændizt þui at hann hefde lagt sína jörd under lög vid herra Martein med handsölum mörgum gódum monnum nærverandum og ver vissum at þat var satt. So oc medkénnezt sijra Arne Arnorsson officialis at herra biskupinn hefde skipat ser at vera svaramadr kirkiunnar hier um og hier dóm yfer ad nefna. hvar kirkian skylde þessa beit eiga. hvert þar eda annarsstadar. Jtem kom adrgreindr Biörn Jonsson þar fram̄ fyrer oss med fiogra manna vitnesburde enu elldre manna[3]). sem ecke höfdu vered í hans minne. sem þat báru at þeir ráku aptr þeirra peninga Hvolsmanna og þeir höfdu þar alldrei beit nema fyrir fullan betalíng[4]) þeim sem jördina Múla áttu. [og] þotte þar alldrei rettr til standa. Og þvi framar seger Thomas Oddsson. ad eg var eignarmadr á Hvole og minn fader og lagde hann fyrer beitina .v. aura hvert ár. enn eg xx. alner. þvi eg atte minna fé eñ hann. og fyrer þessar greiner at máldaginn greiner ecki helldr Nedra Múla jord eñ annarstadar og þat hefr alldrei ágreiníngarlaust vered um lánga tíma um þessa beit. leist oss underlag-

1) b. v.; sl. uppskr. 2) tviskrifað. 3) b. v.; vantar í uppskr. 4) Svo.

it lôglegt og skiallegt fyrir þá grein ad so stendr i kirkiunnar lôgum. at biskup vor skal kirkium ráda[1]) og þeira eignum og at heilags anda nád tilkalladre at so prófudu og fyrer oss komnu. dæmdum ver adrskrifader domsmenn med fullu doms atqvæde ádrskrifad ítak kirkiunnar beit á Buge ôllu kirkiunnar fé á Hvole. þvi sem nu ætte hún á alla þá Buge. sem med Hvolsá eru ofan frá Höskulzlæk er kalladr er i millum Efra Múla og Belgsdals og þar jafngegnt Hvols megin begia vegna ofan ad Dardavade.

Samþikte þennañ vorn dom Síjra Arne Arnors[son] officialis og sette sitt innsigle med vorum inciglum á þetta blad.

## 183. 26. nóvember 1551. í Skriðu.

Kaup Magnúsar Jónssonar á tilkalli til Jarlsstaða í Bárðarardal að Guðrúnu Hallsdóttur fyrir lausafé.

AM. Apogr. 4543 a, með hendi Páls Hákonarsonar „Ex originali Sira Halldors Jonssonar á Stad i Grunnavik“ (AM.). Af 3 innsiglum var 1 glatað. Eftirrit Jóns þjóðskjalavarðar Þorkelssonar er í þjóðskjalasafni.

Þat giorum vier Sýgurdur Asgrimsson. Þorsteinn Sýgurdsson. Steingrimur Þorsteinsson. godum monnum kunigt med þessu woru opnu brefe árum epter Guds burd m. d l j a fimtudaginn næstañ fýrer Andreasmessu vm weturin i Skridu j Reykiadal. worum vier i hiá. savm og heyrdum æ ord og hañsol þessara manna Magnusar Jonssonar og Gudrunar Hallsdotter. at suo fýrer skildu ath Gudrun sellldi greindum Magnusi jordina Jarllstadi j Bardardal j Eýardalsár kirkiusokñ er henni hefur til erfda fallid epter fodur og modr sina og Jon Hallsson broder hennar hafdi i burtt feingit an hennar leýfiss. med ollum þeim gognum og giædum sem greindri jordu fýlger og fýlgt hefur at fornu og nýiu og hun vard fremzt eigandi ath. Hier med fieck hun honum alla sokñ. klogun og ækiæru æ þessari jordu med samþycki Þorlacks Jonssonar manns sins. Hier i mót gaf

1) rádum. uppskr.

sagdur Magnus vi. hundrut i ollum þarflegum peningum og skylldi vt golldit ath iij arum fra þvi er jordin ýrdi hans at logum. Og til sanninda hier [um] setium vier greinder menn vor insigli fyrer þetta bref er skrifath var j sama stad deigi og ari sem fýr seigir.

---

**184. 27. nóvember 1551. á Munkaþverá.**

Úrskurðr Orms lögmanns Sturlusonar um dóm um landamerki milli Baldrsheims og Grœnavatns.

ÍB. 67, 4to, Lxxxvj, bl. 89, með hendi síra Eyjólfs Jónssonar á Völlum.

Af ǫ̊drum orskurdi Orms lǫ̊gmanns Sturlusonar.

Eg Ormur Sturlason lǫ̊gmann nordan og vestan æ Islandi medkennist med þessu minu opnu brefi. at saker þess at fyrir mic kom einn ærligur dændimann Þordur Petursson i lǫ̊gligu umbodi Nikolæss Þorsteinssonar og Fusa Þorsteinssonar med dom dændimanna sem hier er med festur. og hliodandi uppæ landamerki þæ sem ero midli Balldursheims og Grenavatns. so og þæ eida sem goder menn hafa þar um svarit. at haldiñ hefdu verit ï xx eda xl ær ætǫ̊lulæst at sinu viti. Þvi ï Guds nafni Amen. at ǫ̊llu so prǫ̊f-udu mæli og fyrir mic komnu. þæ orskurda eg ædurnefndur Ormur lǫ̊gmadur þenna hinn sama dom og eida lǫ̊gliga og mýnduga med ǫ̊llum sinum greinum og articulis sem þessi domur og eidur innihallda. en segi þann orskurd ǫ̊nýtan sem eg giǫ̊rdi æ Grenavatni. og med minu innsigli er hiæ Kolbeini Arngrïmssyni fyrir þæ grein at annat fram kom sannara fyrir mic med svǫ̊rnum eidum og lǫ̊gmanns orskurdi oc dændi manna domi. Og til sanninda hier um set eg milt innsigli fyrir þenna minn laga orskurd. er skrifadur var æ Munkaþveræ ï Eyafyrdi fǫ̊studaginn næstan epter Sesseliu Messo um vetrinn. ærum epter Guds burd M D L og eitt.

---

185. [30. nóvember] 1551. í Drottningarborg.

Kafli úr bréfi Kristjáns konungs þriðja til Eske Bilde og Áskels Oxe, meðal annars um að athuga, hvernig konungi verði ódýrast að senda Pál Hvitfeld til Íslands, vegna mótþróa landsmanna við verzlun borgarstjórnar Kaupmannahafnar.

Tegn. o. a L. 3, 457. Eftirrit Jóns Sigurðssonar í JS., 372, 4to., bls. 199—200. Eftirrit Laursens ríkisskjalavarðar er í þjóðskjalasafni.

Breff till her Eske Bille ridder och Eskildt Oxe renntte-mester, somm heer effter fyllgere.

Christiann etc.

[Hér er fellt niðr það, er ekki varðar Ísland].

Szedell vdj samme breff som heer effterfylger.

Sammeledis som etther well fortenncker om then Islanndz handell att the Islennder ere the Kiôpnehaffnns borger môgett vlydige och thennom ingtett agtte och môgett mynnde the Hamborger och wij ther fore haffue forscreffuit till oss Pouell Huittfeldt wor mand och tienner och agtte att skicke hannom for en fogett till Islanndt dogh the Kiôpnnehaffnns at bruge theris handell effther wortt breffs lydelse som wij thennom ther paa giffuitt haffuer. Thij bede wij etther och begiere attj offuerweye huorledis wij mett ringgesth omkostningh kunde hannom tiidt forskicke saa att wij och kronnen kunde bliffue wedt then rettighett som oss bôr att haffue ther aff lanndett.

---

186. 1551.

Reikningsgreinir nokkurar rentumeistara konungs um gjöld af Íslandi í féhirzlu konungs og útgreiðslur nokkurar til hermanna í herferðinni til Íslands og til annars, er Ísland varðar.

Ríkisskjalasafn Dana, Repert. Reale nr. 90 (Regnskabsbog 1551). Eftirrit Jóns Sigurðssonar í JS. 369, 4to. (Uppskrift Jóns Þorkelssonar þaðan er í þjóðskjalasafni).

aff Jslanth.

Samme tiidt[1]) annammit aff Axell Juell och Christoffer Tiuendssen ssom the kongelige Maiestett skyldige bliffue aff theris Islands Regenskaff the samme tiidt giorde och finge Kongelig Maiestets egenn endelige quitansse.

lxxxxiij daller vj ſs lubsk i Henrikus nobele.

vj Deffuenther gyldene.

iiijꝏ ijc xxvi lott ssølff.

---

Samme tiidt annammit aff Otthe Stigssen ssom er paa Regenskaff aff hans Jndtegt ssom hand haffuer wp baarit paa Island i thette aar.

xxxviij daller vj ſs lubsk.

---

Affgiffther som ere vpborne aff Lensmend anno ꝏdlj.

---

aff Jslanth.

Jtem thenn xvii dag nouembris annammit aff burgemestere och Raadmennd aff Kiøpnehaffn ssom er therris affgifft aff Jsland the Kongelige Maiestett pligtige vore tiill sancti Michels dag nest forleden jꝏ marck lubsk. giør udj daller

vc xvj daller iiij ſs lubsk.

Giffuit skiffs høffuitzmend nogle Slotz thiennere och Superintendens tiill poske mdlj therris Bessolding.

Her Jacop ssom kom tiill Jslandt paa Julian . . . xxiiij mk.

Her Jacop schriffuere ssom war predicant paa
Hamborg Julian tiill Islandt . . . . . . . . xxiiij mk.

---

Giffuit landsknechte och Trabanther tiill Bessolding anno mdlj.

Jtem mandagenn nest epther ssøndagenn cantate mustredt och bettaldt Jacob Windssis knechte ssom haffue liggit wdi Nørre Jutland. och giffuit thennom therris bessolding hues the forthient haffde frann sancti Morthenns dag mdl och tiill Philipi och Jacobi dag nest forledenn ssom er eth halfft aars bessolding och beløff thet sseg offuer alt epther Jacop

1) Næsta dagsetning á undan er Mand. efter St. Gallidag.

Windssis quitansse och komme samme knechte paa reysse tiill Islandt.

v.ᴹ ijᶜ xl mk. viijᶜ xıx alen engelst J. W.

End samme tiidt giffuit xxij knechte ssom wore nyes antagne och komne tiill skiffs met the andre. huer j daller paa handenn och een daller for ij alne clede ssom the skulde haffue behoff. xliiij daller.

---

[fyrir klæðnað 1551]

Jtem onsdagen nest epther ssöndagen cantate vdi Kiöpnehaffn kiöptis aff Frederick Nefuell ij stöcker beredt engelst at giffue the beffels mennd wnder knechtene ssom skulde tiill Islandt for huert stöcke xxıx daller belöff: Lviij daller.

Samme dag giffuit Batzer Ricker landsknecht for een fenicke hand giorde ssom kom tiill Islandt. ij mk. danske.

Jtem giffuit Lydke van Skonneborg tiill mackerlön for een fenicke hand giorde ssom kom tiill Islandt och Marckus Plug fenrick fick met sseg. 1 daller.

Jtem samme dag kiöptis aff Peder Jørgenssen wdi Kiöpnehaffn eth stöcke aussen bryggerst ssom her Hans Diricksen fick tiill viij Islands drenge ssom ere wdi helligesthus. vij daller.

End samme dag giffuit Karine Niels Jacopssens for L alne wadmell som kiöptis aff hende tiill fodder som samme drenge skulde haffue tiill fodder wnder theris kiortle for hver alne viij alb. er viij mk v ß i alb.

Jtem vigilia natiuitatis Marie giffuit skipper Arnth[1]) styremannd tiill Islandt for vj alne engelst hans borge clede som hand skulde hafft huer alne ij mk iiij ß belöff . . . xı daller.

Jtem [lögerdagen nest epther sancti Michelsdag] giffuit Hans Wetticke styremannd for vj alne engelst ssom hand skulde haffdt paa thenn reysse vdj Ijsland. iiij daller.

---

1) Vafasamt.

## 187. 1551.

Minnisgrein sira Gottskálks Jónssonar i Glaumbœ um búpening sinn.

Add. British Museum 11,242 (FM. 206), bl. 22 r. Eftirrit Jóns þjóðskjalavarðar Þorkelssonar í þjóðskjalasafni.

m. d. l. j.

Kyr .xxj.

þriu naut gomul. ij ueturgomul oc .j. er Herdis æ oc ij kalfar.

asaudr lxxuj. tuævetrer x oc .ij. hrutar. xx ueturgamler oc Herdis . . .

kaplar xv med folalldi oc tryfi[1]) Gudrunar Olaf[s]dottur. golldit audrum.

Einare ku oc ij saudi ueturgamla.
Jone æ oc gymbil.
Gudrunu ij æ[r].

---

## 188. 1551.

Minnisgrein sira Gottskálks Jónssonar í Glaumbœ um heimtur og lóganir á sauðfé.

Add. British Museum 11,242 (FM. 206), bl. 30 r. Eftirrit Jóns þjóðskjalavarðar Þorkelssonar í þjóðskjalasafni.

m. d. xl. xj.

komv vr Vazdal xiiij savder veturgamler oc iiij hrvtar veturgamler oc þar til vj gymbrar oc dilkur oc þrevetur saudur oc iij ær ueturgamlar at auk er for til Backa. feingit Magnuse eina dilkgymbur oc fatækre konv adra lamblausa liet ec skera einn hrut veturgamlan at ueturnottum vr ofa en hinir dou ur m[eg]vrd. feingid j bvrt ij saudi hier af Gudrunu Olafsdottur en þridi var skorin vr hellti j lærinu firir jol.

[var] at veturnottum til asaudr lxxxx oc viiij tuæ . . . . . . . . . veturgamler [xxvij ur Vazdal sunnau.[2])

1) ɔ: tryppi. 2) [Strikað út. Kemr hér neðan þetta brot: [m]. d. l. iij. a atta dag a Mel . . . . . . . vij sauder gellder . . . . . .

189. [1551].

Minnisgrein síra Gottskálks Jónssonar í Glaumbœ um leigur og landskyldir af jörðum sínum.

Add. British Museum 11,242 (FM. 206), bl. 28 v. Blaðið skaddað. Eftirrit Jóns þjóðskjalavarðar Þorkelssonar í þjóðskjalasafni.

. . . . bygd . . . jarder.

. . . . landskylld kugilldi. iij daga slattur oc .xl. alner.

. . . . landskylld iij ær [a] vorid. iij daga slattr eda v. aura elldi.

. . . . kvgilldi landskylld ij ær med lombum .xvj. alner uadmalz. iij daga slattr. iiij [lam]ba elldi.

. . . . landskylld kvgillde iij daga slattr.

. . . . landskylld kvgilldi. iij vætter fiska eda adra x. aura.

. . . . landskylld kugilldi.

. . . dastodum .v. kugilldi. landskylld kvgilldi. iij daga slättur oc viij alner uadmalz.

. . . . . stodum landskylld ij ær med lombum uætt eda halfa oc iij daga slatt.

. . . . . . landskylld .x. aurar.

---

190. 3. janúar 1552. í Glæsibœ.

Vitnisburðr fjögurra manna um lýsing Þorgerðar Jónsdóttur á því, að síra Jón Filippusson „hefði próventu aldrei að sínum vilja gefið“ og lofað því, að jörðin „Vetrliðastaðir skyldi hníga til barna sinna“.

AM. Apogr. 4549. tvær uppskriftir: *a*) „Ex pagina pergamena, originali, ut videtur“; *b*) „Ex originali. 4 reimar hanga vid brefed, enn synist sem alldri hafi innsiglen vid fest vered“ (AM.). Hér fylgt *b*.

Jhesus.

Þat giorum viær[1]) Þosteinn prestur Hallzson. Eireikur Þordarson. Gudbrandur Joñsson. Magnus Sugurdsson godum monnum kunnigt med þessu voru opñu brefi at vær

1) vier *a*.

heyrdum Þorgerdi heitina.[1]) Joñsdotter. sem Gud hennar sǻl nadi. þui lysa fyrir oss optsinnis. at sira Joñ Philiipusson.[2]) godrar minningar. hefdi profeñtu alldri at sinum vilia gefit. ok ǻdurgreindur sira Jon hefdi lofat þui ath þesse jord Væturlijdastader[3]) skyllde hniga til barña sinna. ok þui sagdizt hun alldri æ þeiri profentu skylldu væra.[3]) nie samþycki þar thil gefa. ok oñgva peninga viisu[3]) vær þau hafa[3]) vpp tirer[3]) hafa[3]) borit firer[3]) þessa ȷord. var þessi hennar lysing næsta ær fyr enn gud haña kallade thil siñ. Og thil sanninda hier vm heingium vær vor ȷnnsigle firer þetta vitnisburdarbref. hvert et skrifat var j Glæsibæ .x. dag Jola. þa lydit var frǻ Gudz burd. ꝏ. d. l. og ij[4]) ar.

---

## 191. 14. janúar 1552. í Hafrafellstungu.

Þorsteinn sýslumaðr Finnbogason fær Vigfúsi, syni sínum, jörðina Hafrafellstungu, tjáir þar með eignir kirkju þar og reikningsskap hennar.

Eftir gamalli uppskrift frá ca. 1650 meðal Hafrafellstungubréfa í þjóðskjalasafni með gömlu blaðatali „124“, svo sem úr bók væri (= *a*). — Uppskrift meðal Hafrafellstungubréfa, gerð eptir *a* og staðfest í Hafrafellstungu 16. júní 1858 af Sigfúsi sýslumanni Schulesen og G. Þórðarsyni, ekki nákvæm og mislesið ártalið „1549“, og þar frá stafar tilvitnun í Dipl. Isl. X. bls. 56.

Þetta Er Bref Hafrafellstungu.

Þad giörum wier Sıȷra Oddur Jonsson. Jon Sigurdsson. Gottskalk Saulfuason. Eirekur Arnason godum monnum viturligt med þessu voru opnu briefi. ad arum̃ Eptir guds burd. ꝏ.c v.c xl. og xii[5]) ar. ȷ Hafrafellztungu ȷ Auxarfirdi fimtudaginn næstañ fyrir Anthon[i]j confessoris.[6]) vorum vier ȷ hia saum og heyrdum a ord og handaband þessara manna Þorsteins bonda Finnbogasonar og Vigfusar Þorsteinssonar. sonar hans. ad firr greindur Þorsteinn fieck og gallt fir skriffudum Vigfusi sini sıȷnvm̃ ȷordina Hafrafellztungu. med ollum þeim gaugnum og giædum sem greindri ȷordu Hafra-

1) heitna *a*. 2) Philipusson *a*. 3) Svo *a*, *b*. 4) „ij er þad enn ei v“ (AM.). 5) „1549“ *b*(!). 6) „ɔ fesoris“ *a*; „og . . . . . . .“ *b*.

fellzstungu fylgier og fyllgt hefur ad fornu og nyiu. og hann heffur fremst Eigandi ad ordit. Hier ȷ mot gaff Vigfus Þorsteinsson og kuittañ giordi faudur sinn vm þa. xx.c ȷord sem hann skylldi giallda fyrir Hiartastadi sem hann og hans dandi Qvinna laugdu ȷ walld Þorsteins Finnbogasonar og Ceciliu Thorfadottir. þa hann keypti fyrr skriffada ȷord. Hafrafellzstungu. Skylldi Þorsteinn Finnbogason og hans Qvinna hallda og hafa þessa firr skriffada ȷörd. alla sıȷna lıȷffdaga. og suara ollum laugskilum aff greindri ȷordu. Enn þar ȷ moti gaf Þorsteinn Finnbogason syni sıȷnum Vigfusi vııȷc ȷ afgialld af þeirri ȷordu sem hann skylldi giallda honum. Enn greindur Vigfus gaff hann kuittañ vm. skylldi huor þeirra fedga hallda þeirra ȷordu til laga Er keipti. Enn sa suara laga riftingum Er selldi. Sagdi Þorsteinn Finnbogason. ad kirkiañ ȷ Tungu ætti þriu kot. Er so heita Smiorholl. Jonsstadi. og Hrafnstadi. og skog ȷ Slettafelli og skog i[1]) Lækiardals landi. veidivötn fimm og heitir Eitt Kalldavatn. og þriu Burfellz votn. og Eitt sudur fra Tungufialli. landar Eign suo langt anstur a fioll sem adrır dandi menn hafa bref og skilriki thil ad þeir Eigu þar ȷ moti. so a kirkiañ Eingie a Nupsmyre Er Leıȷstur heitir. og Ormsnes a Sandi tueggia manada verk. suo og a kirkiañ ȷ Tungu allañ vidreka og þria hluti ȷ hualreka a Sandi ȷ milli Kleifarreka og Ærlækiar reka. og allañ vidreka a Huitasandi og fiordung ȷ vidrek[a] ȷ Ormarsloni þa aff Eru afdrættir. Stod suo ȷ gomlum og nyum kirkiunnar maldaga ȷ Hafrafellztungu þa þessi fyrr skriffadur giorningur giordist. ad biskup gaf kuittañ Jon Finnbogason vm̃ gamlañ kirkiunnar Reikning ȷ Tungu fyrir kirkiu vppgiord. þar næst stod Jon Jonsson Reikningsskap kirkiunnar Biskup Gottskalk og gallt kirkiunni messuklædi at aullu og Mariu lickneski. var þa kuittur allur kirkiunnar reikningur fornur[2]) og nyr. Enn Jon Jonsson var þa Enn skylldugur þriu c ȷ reikning. Stod og so Jon Sæmundsson reikningsskap kirkiunnar ȷ Hafrafellzstungu biskup Joni Arasyni og gallt honum Smiorhol fyrir iiȷc og þar thil skilldi hann greida xȷc ȷ þarffligum peningum. gaf

1) b. v. b. 2) Svo.

biskup Jon fyrrskriffadañ Jon Sæmundsson kuittañ vm̄ allañ kyrkiunnar Reikning fornan og nijañ. Gallt Þorsteinn Finnbogason kirkiunni ȷ Tungu suo vier heyrdum ȷ þennan gamlañ Reikningsskap xc ȷ fridum peningum og ofnȷdum. Enn huad sȷdañ hefur fallid sagdist Þorsteinn skylldi greida. þa hann stædi sinn Reikningsskap fyrir kirkiunnar valldi. medkienni eg Þorsteinn Finnbogason allan þennan fyr skriffadan giorning og vitnisburd sem fyr skrifad stendur. og þui set eg mitt ȷn̄cigle med þessara man[n]a insiglum fyrir þetta vitnisburdarbref skrifad ȷ sama stad deigi [og] ari sem fyrr seigir.

---

## 192. 27. febrúar 1552. á Munkaþverá.

Kvittun Orms lögmanns Sturlusonar og staðfesting á jarðaskiptum Jóns byskups Arasonar vegna Munkaþverárklaustrs og Þórðar bónda Pétrssonar.

AM. Fasc. LII,8, frumrit á skinni, sem sýnist vera með eiginhendi Orms lögmanns. Innsiglið er dottið frá. Árni ritar utan á: „Orms Stullasonar 1552“. — AM. Apogr. 4544.

Eg Ormvr Stvllason laugmann nordan oc vestan æ Jslandi medkennust med þessu minu opnu brefe ad ek hefi kuittan gefid Þord bonda Peturs[s]on vm þav ȷardar kaup er hann hafdi vid biskup heitin Jon Arason huers sal ad gvd gledie sem var Klifshægi huad hann fyrir gaf so heitandi jarder Laugar j Reykiadal ȷ Eina[rs]stada kirkiu sogn[1]) fyrir sex hvndrvd og .xx. Grimsnes er liggur j Grytvbacka kirkiv sogn[1]) fyrir tolf hundrud og Jardbrur j Suarfadardal j Tiarnar kirkiv sogn[1]) fyrir sextan hvndrvd hvad mier likar þessar jarder klaustvrsins vegna. þui gef eg adur gre[i]ndan Þord Petursson med radi og samþycki herra abota Thomasar Eireik[s]sonar[1]) og conuentubrædra aulldungis kuittan og akiærulausan vm adur greind jardakaup fyrir mier og aullvm minum audrum klaustursens vmbodsmonnum og epterkomendum. Og til sanenda hier vm set eg hier mitt in-

1) Svo.

sigli fyrir þetta mitt kuittunarbref skrifad a Mvkaþuera æ laugardægin næstan fyrir Jo[n]sdag[1]) datum. ꝏ. d. xl xi og eitt ar.

---

## 193. Á langaföstu 1552. í Vatnsfirði.

Vitnisburðr um skipaskipti Árna Gíslasonar og Markúsar Þórarinssonar.

AM. Apogr. 4545. „Ex orig. Hlidarend. oriett, enn ecki stafriett. A brefinu virdizt mier vera eigenhönd Arna Gislasonar" (AM.). Innsiglið var dottið frá.

Suo felldañ vitnisburd ber Eg Jon Þorsteinsson ath arum epter Guds burd ꝏ d. Lij.[2]) ȷ Vatnzfirde ȷ Jsafirdi æ langafaustu vm veturinn var eg ȷ hia sæ eg og heyrde æ. ath Markus Þorarinsson fieck Arna Gijslasyne med handsaulum thil fullrar eignar þad skip. er hann sagde Torfi Fusason hefde gripid firir sier æ Sæbole ȷ Adalvıȷk ȷ aunguo sıȷnu leyfe nie frelse. gaf fyʀgreindur Markus ædur nefndum Árna alla sauk og sokn klaga og kuitt ath giefa gripdeilld æ fyʀ nefndu skipe. Lofade þrætt nefndur Arne Gıȷslason opt nefndum Marcuse Þorarinssyne audru skipe firer adur greint skip ttl fullrar eignar med handsaulum suo honüm skylldi vel lıȷka. Og til sanninda hier vm set eg mitt Jnnsigle fyrer þetta vitnisburdarbrief er skrifad var ȷ sama stad og Are sem fyʀ seiger.

---

## 194. 11. mars 1552. í Drottningarborg.

Bréf Kristjáns konungs þriðja til Pétrs byskups Palladíuss, um að hraða frœðslu Ólafs byskups Hjaltasonar.

Ríkisskjalasafn Dana, Tegn. o. a. L. 4, 48. — Prentað í FJ. Hist. Eccl. Isl. II. bls. 310 og MKet. I. bls. 307—8. — Eftirrit Laursens ríkisskjalavarðar er í þjóðskjalasafni.

Docter Peder. superintendent i Selland stigt. fick breff etc.
Christiann etc.

---

1) Verðr víst að vera Jónsdagur 3. mars. 2) „Arstaled er oskirt. L. er skirt. ıȷ er burtu enn ¨ eru synileger. á öefad ad vera 52" (AM.).

vd hver vid hofum sied og yfer lesit med oskoddvdum þeirra biskupanna innsigllvm. Og til sanninda hier vm̃ setium vid ockur insiglli fyrir þetta ockart vitnisbvrdarbref hvert er skrifad var á Mvnckaþvera i Eyiafirde á skirdag sialfan vm̃ veturinn þa lidit var fra gudz bvrd ∞°. d. l. og iij ar.

## 300. 5. apríl 1553. í Skálholti.

JARÐASKIPTABRÉF Marteins byskups Einarssonar við Ólaf Árnason, og fær byskup Ólafi Hægindi í Grímsnesi fyrir Tungu í Grafningi.

Bps. Skalh. VI, 20, transscriptum á skinni, þeirra síra Sigurðar Einarssonar og síra Hákonar Ásgeirssonar, frá 12. mars 1591, gert í í Skálholti (uppskrift Jóns þjóðskjalavarðar Þorkelssonar er í þjóðskjalasafni). — Eftirrit í AM. Apogr. 2575.

Vm Tungu j Grafninge[1]).

Eg Marteinn Einarsson under gudz þolinmædi biskup j Skalhollti giori godum monnum kunnugt med þessu mijnu opnu brefi ad med rádi og samþicki kirkiunnar radz[2]) j Skalhollti hefi eg giort suoddan jardakaup uid Olaf Arnason ad hann hefur feingid kyrkiunne j Skalhollti jordina alla Tungu j Grafninge er liggur j Vlfliotzuatz kirkiu sokn til fullrar eignar. og frials forrædiss undan sier og sijnum erfingium. enn under Skalholltz kyrkiv og hennar formenn. Hier j mot fieck eg honum jordina Hæginde j Grijmsnesi er liggur j Hola kirkiu sokñ til fullrar eignar og frials forrædiss undan optnefndri Skalholltz kirkiu. enn under hann og hans erfingia. Selldi huor ockar fyrer sig greindar jarder med ollum þeim gognum og giædum sem þeim hefur fylgt ad fornu og nyu. og uid hofum fremzst eignast. hefur advrnefndvr Olafur Arnason feingid kirkiunne a millum jardanna hundrazhest og malnýtu kvigilldi. Er jofn leiga a þessum badum jordum. skilldi sa hallda til laga huorri jordi[nni] fyrir sig er keipti enn sa sware laga riptingum er selldi. voru þesser giorningzuottar. Sera Einar Olafsson. Sera Loptur Narfason. Jon bondi Sygvrdzson og Nichulas Þorkiels-

1) Utan á bréfinu. 2) í efstu rönd bréfsins.

son. Og til sanninda hier vm. set eg mitt innsigli med fyrrnefndra manna innsiglum. fyrir þetta kaupbref. skrifad ȷ Skalhollti fiorda dag ȷ paskum anno domini m. d. liij.

---

301. 8. apríl 1553. í Viðvík.

Samþykki Ólafs byskups Hjaltasonar á hjónabandi Þorsteins Guðmundssonar og Þórunnar Jónsdóttur.

AM. Fasc. LIII, 7, frumrit á skinni með eiginhendi Ólafs byskups, og er innsigli hans fyrir bréfinu. Frumritið var frá síra Skúla Þorlákssyni (uppskrift Jóns þjóðskjalavarðar Þorkelssonar er í þjóðskjalasafni). — Eftirrit í AM. Apogr. 560.

Stadfestıȷngar Breff Biskups Olafz Hialltasonar vppa hionaband Þorsteinz Gudmundssonar og Þorunar Jonsdottur 1553[1]).

Jesuz.

Eg Olafur Hialltason vnder gvdz þolinmæde biskup a Holvm. og Svperintendens allz Holabiskupsdæmis giore godum monnum kvnnigtt med þessv minv opnu brefe. at epter þvi andligu og biskupligu vallde sem eg overdugvr hefe af Gude. og konunglig maiestat. hefe [eg] fullkomliga leyft og samþyckt. hier med samþyckur ordit. herra. Orme Stullasyne Logmanne. nordan og vestan a Islande. vm þat hionaband. sem heidarliger menn. Þorsteinn bonde Gudmundzson. og hustru Þorvn Jonsdotter hafa giört og bundit sin ȷ millunı. med hennar rade. og brodurs[2]) samþycke Sira Sigvrdar Jonssonar. ȷ þrimennings mægdum og audrum minnum. Enn af þui at so stendur ȷ Levitico skrifat ȷ xviij capitula. at þrimenningum leyfizt þar og skipazt hiuskaparband at skulldugleika. enn mægder finnazt þar eigi inn settar ne skipadar. Nu saker þess at gudz logmal ȷ greindre bok Levitico. og konunglig maiestatis ordinantia. samhlioda hier med i morgum greinum heilagrar skriptar. og gamals logmals. motfalla eii greindar mægder. til hiuskaparbands. helldur sannarliga styrkia og stadfesta at hiuskapurin mege epter gudz logum og fyrnefndum greinum. med biskups rade. sam-

1) Utan á bréfinu með hendi frá 17. öld. 2) Svo.

an bindazt. Þui fyrir þessar greiner. og allar adrar. sem hier at hniga. j gudz. ritningum. og logmali. Og ath heilags anda nad til kalladre. Seigie eg og giore fyrr nefndur biskup Olaf þetta þeirra hiuskaparband stadtt og stôdugtt og logligtt. og med ollu obrigdanligt. og myndugt vera. epter gudz logum. sem þesse fyrr greind hion hafa sin a millum bundit. So og medkennunzt eg fyrr skrifadur biskup Olaf at eg hefe kuittan gefit adur greindan Þorstein bonda Gudmundzson og hustru Þorune Jonsdotter fyrir þat. at þau bundu sitt hiőnaband fyrr enn þau feingu mitt insiglad bref. Nu gef eg og giore eg fyrrskrifud hion. Þorstein og Þorune aullungis kuitt og akærulaus fyrer mier og ollum minum epterkomendum Hola domkirkiu formonnum þar fyrir. Þui fyrirbiodum vier ollum. og sierhuerium. vorum andligum epterkomendum greindrar domkirkiu formonnum þeirra hiuskap og hionaband. at hindra. eda hindra lata. eda nockud forfang at giora. vnder gudz rettlæti og hegnd. Og til sanninda hier vm. setium vier vortt insigli fyrir þetta leyfisbref og stadfestingar þeirra hionabandz huert ed skrifat var j Vidvik j Vidvikursueit laugardagin j paskaviku. Aarum epter Gudz burd. ∞. d. l. og iij. mea propria manu.

---

302. 9. apríl 1553. á Þverá.

Úrskurðr og samþykki Orms lögmanns Sturlusonar á hjónabandi Þorsteins Guðmundssonar og Þórunnar Jónsdóttur.

AM. 255, 4to., bréfabók síra Skúla Þerlákssonar á Grenjaðarstöðum, bls. 364—5. — Uppskrift Einars Þorkelssonar er í þjóðskjalasafni.

Vrskurdur Orms Sturlassonar lôgmanns vppa hionaband Þorsteinz Gudmundssonar og hustru Þorunar Jonsdottur 1553 med einu hangandi jnncigle.

Þad medkiennist eg Ormur Stullasson lôgmann nordañ og vestañ a Jsslande med þessu mynu opnu brieffe. ad saker þess ad fyrer mig kom Einn ærlegur og Heidarlegur dandiss mann Þorsteirn Bondj Gudmundsson. og birtj fyrer mier sitt Hionabands brief med oskôddu ha[n]gande jncigle

Herra Biskupsins Olaffs Hialltassonar. huar þar suo jnne stod j þuij brieffe. ad hann haffdj med ollu samþickt og stadfest þeirra hionaband hustru Þorunnar Jons dotter og Þorsteins Gudmundssonar loglegt og mindugt j allañ mata og epter guds logmale og nadugasta herra kongssinz ordinantiu giört hafa verid. Þuij j guds naffne Amen. og ad ollu suo profudu male. og fyrer mig komnu. og med þeirra enu bestu manna radj er eg til med mier kalladj ad skoda og tragtera adurgreint hiuskapar brieff sem herra Olafur biskup a Hoolum Hialltasson hafdi vtgiefed Þorsteine bonda Gudmundssyne og Hustru Þorunne. Huort mier og þeim virtest þetta ed sama hionaband og hiuskapar brieff skiælligt og mindugt vera j allañ mata. med ollum sıȷnum greinum og Articulis er þad jnehelldur. Hier med vrskurda eg adurneffndur Ormur logmann med mıȷnum fullum lagavrskurde og epter þeim greinum sem j guds lögum standa. og j lögmale gomlu og nyu stendur. suo og epter þeim greinum fleirum er j vorre landzlagabok standa og mijns Herra kongsins ordinancia vppa hliodar. vm hionabandid. ad hans nad fyrerbydur ad frilluliffnadinn ad hafa. helldur tilskilldar hans nad og kongleg majestat alla. ad þeir skylldi guds lögmalid filla og hiuskaparbanded vel og ærlega Hallda. Þuij seige eg nu og vrskurda þetta mıȷns herra biskups brieff. og adurgreindra manna hionaband Þorsteinz bonda Gudmundssonar og optneffndrar heidurs kuinu Hustru Þorunnar Jonsdottur mindugt og skiælligt vera. og aff aunguum manne riuffast meiga vtan aff mıȷnum herra konge sialffum. Og aff aunguum manni hier j lande Riufast meiga hiedañ aff. þuij eg optneffndur Ormur logmann seie þeirra optneffndra heidursmanna Þorsteins og hustru Þorunar Jonzdotter hionaband. logligt vera. og epter logum giört haffa vered. og æviñlega vndir guds vitne. og mıȷns nadugasta herra kongsinz vrskurd halldast meiga aff þeirra hendj ef nockrer villdu hier vppa klaga edur þeirra hionaband Reingia j motj guds logmalj. og til sannenda hier vm̃ set eg mitt jncigle fyrer þennañ minn laga vrskurd. huor skriffadur var a Þueraa j Skagafirde. Sunnudaginn næstañ eptir Paskaviku þa lidid var fra gudsburd ↄ. d. l og iij ar. (L S).

303. 13. apríl 1553. Á Þorkelshvoli.

Sjöttardómr, kvaddr af Ormi lögmanni Sturlusyni, dæmir löglegt tilkall síra Einars Úlfssonar og systkina hans til Strjúgs í Langadal, Sæunnarstaða í Hallárdal og Refsstaða í Laxárdal.

JS. 66, 8vo., m. h. Grunnavíkr-Jóns eftir transskripti 10. mars 1560. — Uppskrift Jóns þjóðskjalavarðar Þorkelssonar er í þjóðskjalasafni.

Øllum monnum sem þetta bref sia edur heyra sendum vier Þorsteinn Ionzson. Magnus Gijslason. Hoskolldur Ionzson. Biarni Þorsteinzson. Jngemundur Marteinzson. Loptur Eirickzson. kūedio gudz ok vora. kunnigt giorandi at þa lijdit var fra gudz burde ꝏ. d. L og iij. fimtodagin næstan epter paskauiko vm sumarit a Þorkielshuoli a þingstad riettum i Vijdidal vorum uier ȷ dom nefnder af Ormi Stullasyni logmanne nordan og vestan a Ijslandi thil ad skoda og ransaka. hier med fullnadardomz atkuædi a ad leggia vm þa klogun og akiæro. er Sera Einar Wlfson klagadi og kiærdi. suo og tilkrafdi. adurnefndan Orm laugmann at giöra sier riett a. hūerso fara skylldi vm þa peninga. er hann sagdi af sier ok sinum syskȷnum hefdi uerit hafder an sins vilia ok sijnar[1]) riett moder og fodurz eign hefdi verit. ok suo sinn logligur arfur. ef hann hefdi orætur verit. hueriar iarder suo heita og kallast: ȷ fyrsto Striūgur i Langadal er liggur i Holltastada kirkiusokn. og hañz fader i burtto fieck med onguo hañz iayrde nie logligo samþyckie. þa adra iord er Sæunnarstader heiter og liggur i Halladal i Spakonofellz kirkiu sokn. þridio þa iord er heiter Refstader i Laxardal er liggur i Holtastadar kirkiusokn. huad hann einnen hier med fram̄bar fyrir oss adur nefndum domzmonnum. at hann hefdi huorki giofum giefit nie solum sellt. edur nockra menn vm bedit ad þeir skilldi selia adur greindar iarder. ok ongūa peninga sagdist hann upp hafa borit ad sino viti edur minne. Þui ȷ gudz nafne amen: at ollo suo profudo mali og fyrir oss komno. þa vmskygndum vier vora landzlagabok. er hun suo inne helldur. at epter gogn-

1) Svo.

um og vitnum skal huertt mal dæma. J annare grein seiger hun suo i landabrigdarbælki: at menn skulo lond brigda innan x vetra. vtan honum banne logligar naudsyniar. huar at vier vissum at adur nefndum Sera Einare meinodo loglig forfoll til fyrir sokum ofrikis sinna yfermanna. Item i þridio grein forbanna logen þat. at fader og moder skuli selia lond edur iarder vndan erfingium sinum. vtan med þeirra ordlofi ok samþycke sinna logligra erfingia. Stendur ok suo i þeim [tuenna tylftar manna domi[1]) sem dæmdur var a Oddeyri ok wtnefndur af Ormi Stullasyni logmanni nordan ok vestan a Ijslandi med radi ok samþycki ærligra herra: herra Kristoforss Trandssonar og herra Axil Iul kongs vmbodzmanna. er þa hofdo mins herra kongsins vmbod yfer Nordlendingafiordungi til at skickia[2]) og giora huerium manni log og riett sem vanhaldner ero. stod ok suo i þeim sama domi at ollum uar dæmtt riett geingtt aptur ad sinum peningum huar þeir uære: huortt helldur þat være iarder eda adrer logaurar. at þeir ætti og þeim fullnadist gaungn ok vitni ad. med suornum eidum. edur brefum og insiglum: at þesso vnno og framkomno dæmdo þeir huer madur skyllde sina peninga aptur mega taka nær þeir villdo og huar þeir stædi. Og nu fyrir allar þessar greiner og epter þeim dandomanna domi sem fram fyrir oss kom: dæmdum vier adur nefnder domsmenn. med fullo doms atkuæde. adurnefndan Sera Einar Vlfsson skylldugan til ad sueria suo latandi eid fyrer Ormi logmanni epter sinum framburde: at hann hefdi huorki giofum giefit nie solum selltt adurgreindar iarder. ok ongua peninga upp fyrer borit ad hans viti edur minne: huorn ed[2]) hann sör þar strax a þingino ok ij valenkunner menn med honum: ok sære sonnodo oss ollum hia verandi. Þui dæmdom vier opt nefnder domsmenn þrattnefndum Sera Einare Vlfssyni allar þessar adur greindar iarder sem honum bæri med logum ad eiga vid sijn loglig syskyn: og hann edur hans logligan vmbodsmann riettiliga mega ad sier taka opt nefndar iarder. nu strax. edur nær hann vill. Enn þeim monnum sem jardernar hafa at hallda dæmdum

1) [Svo. 2) Svo

[vier] aptur sijnar jarder oc þä adra peninga sem fullnaudust gögn oc vitni at. ad þeir hefdi fyrir þessar jarder gefit. oc þa riettilega mega at sier taka. sina logaura. huar þeir standa epter þui log giora rad fyrir at huer skule sitt hafa. sem hann hefur med logum at komist. Og til sanninda hier vm̃. samþyckti oc vrskurdadi adur nefndur Ormur logmadur þenna vorn dom oc setti sitt jnnsigli med vorum innsiglum fyrir þenna vorn sama dom huer ed skrifadur var i sama stad og dag oc are sem fyrr seiger.

304. 18. apríl 1553. á Ökrum.

Úrskurðr Orms lögmanns Sturlusonar um, að gildr sé dómr, er Gunnar Gíslason lét ganga um þá giöf, er Jón byskup Árason gaf Guðrúnu Magnúsdóttur, sonardóttur sinni, Þórisstaði (Þórustaði) á Svalbarðsströnd, og dæmt hafði gjöfina gilda.

AM. Fasc. LIII, 8, frumrit á skinni, og er innsigli lögmanns fyrir bréfinu. — Uppskrift Jóns þjóðskjalavarðar Þorkelssonar er í þjóðskjalasafni.

Þad giaure eg Ormur Stullason laugmann nordan̄ og vestan̄ a Jslande godum̃ monnum kunnigt med þessu minu opnu brefe ad eg hefe skodad. rannsakad og yferlesed þann sama dom sem Gunnar Gislason liet dæma og hann doms á beiddest vm̃ þa giauf er biskup Jon gud hans sal næde gaf sonardottur sinne Gudrunu Magnusdottur kuinnu fyrr nefndz Gunnars jaurdena Þorestade er liggur a Sualbardstraund og þar til xx malnytu kugillde og xlc j þarbligum peningum̃. beidde mig og krafde tijttnefndur Gunnar Gislason a fyrr sagdan̄ dom fullnadar vrskurd a ad leggia. leist mier domurenn j sinum greinum ad aullu laugligur. myndugur vera. Þui j gudz nafne amen og heilax anda næd til kalladre vrskurda eg Ormur Stullason laugmann med minum fullum̃ og laugligum lagavrskurde þessa adur greinda jaurd og peninga obrigdanlig[1]) eign Gudrunar Magnusdottur vera og vered hafa sidan̄ tijttnefnder peningar henne gefa-

1) Svo.

er voru og ad suo profudu male og fÿrir mig komnu set eg mitt jnnsigle fyrir þetta mitt vrskurdarbref huert ed skrifad var a Aukrum j Blaunduhlid þridiudægenn næstañ fyrir Jhohannis Holensis þa lidit var fra gudz burd. m. d. L. iij.

---

305. 29. apríl 1553. á Eyri.

Brot úr vitnisburðarbréfi um mann, sem orðið hafði fyrir áverka og sætzt á, síðan látið taka af sér fótinn og brugðið upp sættina, að áeggjan Guðrúnar Björnsdóttur og sonar hennar, Eggerts Hannessonar. (Gæti átt við þá Brynjólf Sigurðsson og Lokinhamrabræðr).

AM. Apogr. 4562, m. h. Árna Magnússonar „Ex originali Sira Þorleifs Arnasonar á Kalfafelli". „Ofan af þessu brefi er skorid so mikid sem svara kynni nærri halfu brefinu. og vantar þad hier" (AM.). Árni segir, að tvö innsigli hafi hangið við bréfið og á þeim hafi staðið „S. SIGFUSI. brum." og „S. Greipi. Prs." Er af því að ráða, að útgefendr bréfsins hafi verið *Sigfús Brumannsson* og *Greipr prestr Þorleifsson*. — Uppskrift Jóns þjóðskjalavarðar Þorkelssonar er í þjóðskjalasafni.

. . . . . . rka. for han og skemde sig. og kom i kullda. En a tolf manudu seina[1]) og halfu audru myssere seina beide han þyska at saga af sier fottin fyrir ofan skemdena. bra han upp sættina. at aegun[1]) Gudrunar Biornsdottur og henar sonar Egirs[1]). Og til meire saninda hier um settium[1]) vid adurgreinder men[1]) ockur insigle fyrir þetta vitnisburdarbref hvertt er giortt var a Eyre i Seydisfirde laugardægiinn fyrir krosmessu um vorit arum eptter gudz burd ꝏ. d. xl. og xiij ar et cetera.

---

306. 29. apríl 1553. í (Bólstaðar)hlíð.

Dómr, kvaddr af Ormi lögmanni Sturlusyni, dæmir Páli bónda Grímssyni Narfastaði í Reykjadal og 12 hundruð í Hallbjarnarstöðum í stað jarða þeirra, er dæmdar höfðu verið síra Einari Úlfssyni, Strjúgs, Refsstaða og Sæunnarstaða.

1) Svo.

AM. Apogr. 4569, m. h. Styrs Þorvaldssonar „Ex originali hia lögmanninum Sigurdi Biörnssyne. 9 innsigle hafa vered under brefinu. nu eru 4 þar af i burtu. Þetta bref er ritad ä uppskafning ur latinskre bok sæmelega vel skrifadre og ecki nyrre. Synist vered hafa ur patre einhverium, eda annad homileticum". (AM.).— JS. 66, 8vo., m. h. Grunnavikr-Jóns, eftir transskripti 10. mars 1560 (og er því gagnslaust hjá hinu). — Uppskriftir beggja í þjóðskjalasafni m. h. Jóns þjóðskjalavarðar Þorkelssonar.

Øllum monnum sem þetta vort bref sia edur heyra sendum vier Skulli Gudmundzson. Ellindur Jonsson. Gudmundur Skullason svarner logrettumenn. Þorsteinn Jonson. Hoskolldur Jonsson. Einar Bessason. Gudmundur Einarsson. Einar Þorarinsson. Tumas Þorgilzson. Hoskolldur Einarsson. Oddur Einarsson[1]). kuediu Gudz og vora. kunnegt giorandi. ad þa lidit var fra Gudz burdi ꝏ. d. L. og iiј. ar. ä allmen[n]iligu hiera[d]sþingi er Ormur logmann setti i Hlijd j Langadal a laugardaginn næstan fyrir tveggia postula messo um vorit. vorum vier j dom nefnder af adurnefndum Ormi logmanni til ad skoda og ad ransaka. hier med fullnadardoms adkvædi a ad leggia. hvar oss virtist ad Pall bondi Grimzson skÿlldi logligan adgang eiga fyrir þær ij ȷarder er af honum hofdu verit dæmdar med logmanz urskurdi og svo heitandi ȷarder[2]) Striugur og Refstader. huoriar ad adur greindar ȷarder voru af adurnefndum Pali dæmdar. enn til logligrar eignar og frials forrædis Sera Einari Ulfssyni og hanz syskinum epter þui log ävissa[2]). Þui virtist oss sa domur i allañ mata myndugur vera og skiælligur med ollum sijnum greinum og Articulis er hann jnnehelldur og optnefndur Ormur logmann hafdi uttnefnt og samþyckt ä Þorkielshvoli um Striug og Refstadi og Sæunarstadi sem til logligrar eignar voru dæmdar tıȷttnefndum sera Einari Ulfzsyni epter þeim domi sem dæmdur var ä Oddeyri og svo hliodandi var ad hvorium voru dæmder aptur sıȷner peningar hvort helldur ad þad være ȷarder edur adrer lauser aurar. ad þeim fullnadist gogñ og vitni ad. edur med svornum eidum ad þeir ætti þa peninga sem þeir uppa klogudu. Þui i Gudz nafne Amen. og ad ollu svo profudu

1) Svo; ekki fleiri dómsmenn. 2) Svo.

mali og fyrir oss komnu. og epter þui sem vor landslög innehallda. þar hun[1]) svo avissar[1]) og seiger svo. ad hvor sa madur sem sellur[1]) þad audrum. er hann á ecki j. þad kaup skal aptur ganga. enn hinum skipar hun andvirde sitt. Þui dæmum vier adurgreinder domsmenn med fullu doms adkvæde tyttnefndum Palli[1]) bonda Grimssyni sina logliga eign jordina Narfastadi j Reÿckiardal og xij hundrud j Hallbiarnarstodum þær er hans fader hafdi ått og j Einarzstadar kirkiu sonckn[1]) liggia. og hann hafdi adur sellt Ara heitnum Jonzsyni. og epter þui er þeirra kaupbref innehelldur og utvissar[1]). og upp var lesit oss áheyranda[1]). og þui dæmdum vier med fullu doms adkvædi og ad ollu svo profud[u] mali og fyrir oss komnu Pall[1]) Grimzsson rettiliga meiga ad sier tacka adur nefnda jord og jardarpart ad næstum fardogum nu er kemur og huorn annan rettiliga meiga snuast á sinn salla[1]) og sina logaura aptur hafa epter sinu logligu kaupi og hann sig til leidi med logum.

Og til sanninda hier um samþyckti og urskurdadi adurgreindur Ormur log[mann] þennan vorn enn sama dóm. svo og þennan enn sama dom er hier er nu med festur[2]) og setti sitt jnnsigli med vorum jnnsiglum fyrir þetta vort domzsbref. huort skrifat var j sama stad og dag ári sem fyr seier.

---

**307. 29. apríl 1553. í Bólstaðarhlíð.**

Sjöttardómr, kvaddr af Ormi lögmanni Sturlusyni, dæmir Margréti Erlendsdóttur eða hennar réttum forsvarsmanni, Páli bónda Grímssyni, eiginmanni hennar, rétta sókn þeirra peninga (Hofs á Höfðaströnd), er hann hafði gefið henni á brúðkaupsdegi þeirra, en síðan selt af ótta við ofríki.

AM. Apogr. 4555 „Ex apographo vetusto vidimato fra Gröf á Höfdaströnd“. — AM. Apogr. 721 m. h. Jóns Magnússonar „Ex originali“ „a pergament“ (að sumu lakari). — Uppskrift Jóns þjóðskjalavarðar Þorkelssonar er í þjóðskjalasafni.

---

1) Svo. 2) „Sa dómur er nu hier fra slitenn“ (AM.); mun vera átt við dóminn 13. april 1553 (sjá nr. 303).

[Domur um klögun Margretar Erlendsdottur konu Pals Grimssonar. um Hof a Höfdaströnd[1]).

Ollum mönnum þeim sem þetta bref sia edur heyra sendum vier Skuli Gudmundsson, Ellendur Jonsson. Gudmundur Skulason Lögrettumenn. Þosteinn Jonsson. Einar Bessason og Einar Þorarinsson kvediu guds og sina[2]) kunnigt giorande þa lidit var fra guds burd M. D. L. iij. laugardagin næstan fyrer tveggia postula messu um vorid vorum vier i dom nefnder [i Bolstadarhlid a þingstad riettum[3]). af Orme Stullasyne. laugmanne nordan og vestan a Islande til at skoda og ransaka hier med fullnadardoms atkvædi a at leggia hveria magt edur afl hafa skylldi su aklögun er kvinna Pals Grimssonar Margriet Ellendzdotter ahrærdi og klagadi fyrer Orme Stullasyne lögmanne nordan og vestan a Islandi, med Rade og samþycki bonda sins. at hann hefdi i burtu feingid sinar iarder og sinn faudurarf i Austfiordnm. og sinn[4]) heimanmund af sinum brodurgardi. Enn Þorsteinn Fimbogason er þa var hennar giptingarmadur i umbodi hennar brodur. tilskildi a [hennar brudkaupsdeigi[5]). at hun skylldi eignast iördena Hof [a Hofdastrond[6]) i [sina[6]) fiordungsgiöf og tilgiöf ur iij hundrut hundrada. svo framarliga sem hann mætti þad med lögum giöra. Svo og skildi Þorsteinn bondi þad til at Pall Grimsson skylldi fystur selia sinne kvinno Margretu þær iij utiarder er Pall þar med atte. og þui vard Pall Grimsson iatza. fyrer hennar malajarder i Austfiördum. stendur og svo i vorre landzlagabok. at bondi skal eigi selia eigner husfreyiu sinnar. eda þær þau eiga bædi saman. utan hennar lof[og iayrdi et cetera[7]). nema full naudsyn gange til og þo med skynsamra[8]) manna radi. [Sör og þar fyrer[9]) Margret Ellendzdotter lyrittareid fyrer laugmannenum Orme at hun hefdi þar alldrij jayrdi [ne samþycki[6]) til þess giefit. at þessar iarder [sem Pall þar atti med[6]) skylldi seliast biskup Jone. [j audru lagi[6]) stendur svo [oc[6]) i vorre laugbok þar sem madur kauper þat annar á. þad kaup skal aptur ganga. enn hinum skipar sitt andvirde

1) [með hendi Árna. 2) Svo bæði. 3) sl. 721. 4) sl. 721. 5) [brudlaupsdegi hennar 721. 6) [b. v. 721. 7) [sl. 721. 8) -somuztu 721. 9) [oc þar fyrir sor 721.

[med þeim fleirum greinum[1]) er hier at luta. og i Kaupabælke stendur. Og i guds nafne Amen og at öllu so profudu sem fyrir oss kom. og epter þeim greinum sem i lögbokinne stendur. þa dæmdum vier med fullu doms atkvæde Pål Grimsson eigi [hafa[2]) mått selia sinnar kvinnu peninga utan med hennar radi og samþycki. Þui leizt oss optnefndum domsmönnum Margret Ellendzdotter. og hennar lauglígur forsvarsmadur riettiliga epter þeim peningum [mega sækia[3]) sem hennar bondi Pall Grimsson hafdi henni gefit[4]) lofad [oc feingit[3]). a þeirra brudkaupsdeigi. Sagdizt Påll hafa ottast nockud ofriki i þann[5]) tid. og þui selldi hann. sem einhverier munu þat heýrt hafa. Dæmdum vier epter þui sem henne fullnadizt vitne med innsigludum brefum. virdtizt oss Þosteine bonda [Fimbogasyne þad[6]) skylldazt at giefa hier uppa sinn vitnisburd. [med sinu jncigle[3]) um hans skilmala hennar vegna a hennar giptingardeigi. Og til sanninda hier um samþyckti þennan vorn dom [adurnefndur[3]) Ormur laugmann. og sette sitt innsigle med fyrnefndra manna innsiglum fyrer þennan dom hver ed dæmdizt og uppsagdizt i sama stad og dag sem fyrr seiger.

---

**308.** **5. maí 1553.** **í Kópavogi.**
**1. júlí —** **á Öxarárþingi.**

Dómr, kvaddr af Eggert Hannessyni, dæmir Ingunni Einarsdóttur Anastaði og Skarð eftir mann hennar, Gisla Jónsson, er hann hafi löglega fengið af síra Birni Jónssyni í þjónustulaun sín (Brot).

Eptir uppskript Magnúsar sýslumanns Ketilssonar í þjóðskjalasafni meðal skjala, er komu 7 júní 1914 frá Jóninu Steinvöru Eggertsdóttur frá Kleifum í Gilsfirði, en Magnús ritaði eftir rotnu frumriti á kálfskinni. — Uppskrift Jóns þjóðskjalavarðar Þorkelssonar er í sama stað.

Domur Eggerts lögmanns H[annes]s[onar] um Anastade og Skard.

---

1) [oc þær fleiri greiner 721. 2) [b, v.; vantar í 4555 og 721. 3) [b. v. 721. 4) og, b. v. 4555. 5) þessari 721. 6) [sl. 721.

Ollum þeim gódum monnum. sem þetta bréf siá eðr heyra. sendum vier . . . . onzson. Teitur Magnusson. Hallur . . . . Oddur Sigu . son . . . . Þordarson. Þorsteinn Hallbiarnarson svarner lögriettumenn kuediu guds og vora kvnigt giorande med [þessu voru] opnu brefe [at arum eptir guds burd]. ꝏ. d. l. ııȷ. faustudaginn næstañ eptir krossmessu vm vored i Kopavoge a almenniligu þrig[g]ia hreppa þinge vorum vier [ȷ] dom nefnder af Eggert Hannessyne vors allra kiærazta nádugasta herra kongsins foveta yfer allt Ísland einuirduliga [at sko]da [og] rannsaka [og] fullnad[ardoms] atkuæde á ad leggia epter lögum. hveria mackt og afl at hafa skyllde þau skyr skilricke sem Einar Gislason og hans samborn . . . . [B]iarne Gislason þar frã báru vegna sinnar modur Ingvnnar Einarsdottur sem ad hliodudu upa ȷordina Anastade og Skard er liggia [ȷ Mid]firde i Kirckiuhvams kirckiusockn. kom þar frã fyrir oss þriggia manna vitnesburder med þeirra heilum og osködduðum [hangande innsiglum] so hliódande ȷ millum annara orda ad sira Biorn heitinn Ionsson sem gud hans sál náde hefde selt Gisla heitnum [Ionssyne hvers sal] gud gledie halfa ȷordina Anastade og Skard fyrir jördina Myrar er liggr í Hrutafirde i Mels kirkiu sokn en fyr greinda [Anastade] og Skard hefde adur nefndur sira Biörn goldid og feingid fyrskrifudum Gisla Ionssyni j sín þionustulaun. J annare grein [voro] sömu vitnesburder so hliodande á millum annara orda. ad þrattskrifadur sira Biörn Ionsson tilskilde siálfur í þann sa[ma tima sem] hann gallt og selde þráttnefndum Gisla fyrskrifada ȷord Anastade og Skard. þá skylde þær vera eign [Ingvnnar] Einarsdottur í hennar [mala. huer]iu at Gisle vard [at] lofa í þeirra handabande. Og nu sækir þess ad suo[1]) býdur syslumonnum og ödrum valldsmonnum kongsins bref ad [þeir skulu suo dæma hu]ers man[n]s mal sem þeirra bref [til] hlióda. item seiger og so [annad] bref herra Magnusar kóngs . . . . . . byriar um erfd . . . . . . . sem til hafa fallit um landabrigde og vígaferle og öll önnur lagamal under hverium lögum [sem þau urdu] þá skulu öll epter [þui] vera. er

1) gud, uppskr. MK. með eforði.

þá geingu lǫg i lande er þar mál giǫrdust ef eige er adur lǫglegr sáttmále á kominn . . . . og retta bókarinnar . . . . . at epter gǫgnum og vitnum skal hvert mál dæma enn eige epter eins mans . . . . . it . . . . . . ef menn caupa iarder etc. [her var lángt sticke olæselegt[1]) epter skírlegre skipun laganna eda fyrir liosañ tilbúnad málaferla. og epter ǫllum þessum gǫgnum . . . . . . . . um og heimilldartǫkum. vitordum og vottasǫgnum. sem fyrir oss hefur komid í ádurgreindum stad. [Þui ȷ guds na]fne amen ad heilax anda nád tilkalladre oss i dómsæte sitiande at so profudu og fyrer oss komnu þa dæmdum vær fyʀnefnder domsmenn med fullu doms atqvæde þráttskrifada Anastade og Skard vera og vered hafa [obrigdanliga] eig[n adurskrif]adrar Ingunnar Einarsdóttur. sidan at síra Biǫrn heitinn Ionsson þessar iarder sellde og gallt Gisla heitnum Ionssyne [ȷ sin þionustulaun]. hvad oss leizt epter lǫgbókarinnar ordum einginn . . . . . hafa mátt forbrióta hvorke med [or]du[m nie ver]cke. [suo og] eige helldur í burtu fá hvorke ad giǫf ne giallde án hennar vilia og vitordz ef þráttnefnd . . . . ans lǫgunum. ȷ annare grein dæmum vær med fullu dóms atqvæde optskrifada Ingunne edur hennar lǫgliga[n umbods]mann frí og frialslega meiga ad sier taka nær hún villde fyrskrifadar ȷarder Anastade og Skard. byggia [og bæla sem] henne best líkade. enn ef nockrer menn kynne þeir at vera sem nockur skiǫl edur skilrike vænazt hafa í mót fyrskrifudum vitnisburdum og þessum vorum dóme. þá dæmdum ver þá skylduga ad koma i almennelega lǫgréttu nu í [sumar med þau. elle]gar skylldu þar seinna eckert afl hafa og onýt vera. ȷ þridiu grein dæmdum vær [vitnin] skyldug at sveria eid e[pter] sinvm innsiglum [ȷnna]ñ xiiȷ [natta] at heyrdum domnum fyrir þeim sem kongleg [maiestets fovite] Eggert Hannesson [þar til skick]ade og skipade et cetera.

Logsamde og samþickte þennañ vorn dom med oss ádurgreindur Eggert Hannesson og allur annar almúge þar saman komenn og sette sitt innsigle med vorra fyrnefndra domsmanna innsiglum fyrir þetta domsbref hvort ed skrifad

1) [Athugasemd MKet.

var á Bessastöðum á Alptanese a sama áre deige sidar enn fyr seiger.

[Þesse domr er skrifadr epter miog rotnu kálfskinsbrefe. Þar med fylgde annar dómr uppsagdr í Lögréttu sama ár, til stadfestingar þeim fyrra dómnum á eins rotnu kálfskinne. Þesse domr byriar so:[1])

Eg Eggert Hannesson lögmann fyrir sunnan og a'stan á Íslande giöre gódum monnum kunnigt med þessu mínu opnu brefe ad arum epter guds burd m. d. l. iij. lavgardaginn næstañ epter Petrs messo og Páls[2]) um sumarid a Exaarþingi[3]) á[3]) almenniligre lögrettu. etc.

---

**309. 6. maí 1553. á Svalbarði.**

JARÐASKIPTABRÉF Jóns Magnússonar og Gunnars Gíslasonar, og skiptast þeir á Mannskapshóli og Mýrarkoti á Höfðaströnd fyrir Þórustaði á Eyjafjarðarströnd.

AM. Fasc. LIII, 9, frumrit á skinni. Öll (6) innsiglin eru dottin frá. — Uppskrift Jóns þjóðskjalavarðar Þorkelssonar er í þjóðskjalasafni.

Kaupbref fyrir Mañskafshole[4]).

Þad giorum wier Jon prestur Olafsson. Oddur Fijlpusson. Halldor Sigurdsson og Eirikur Þordarson godum monnum kunnig[t] med þessu voro opnu brefe ad arum epter gudz burd m d l iij á laugardagin næstan epter krossmesso vm vorit á Sualbarde á Eyiafiardarstrond worum uier i hia saum og heyrdum á ord og handaband þessara manna Ions Magnussonar af eine(!) alfu. enn Gunnars Gijslasonar af annare med samþycke og vpplage Gudnyiar Grimsdottur. kuinno fyr nefndz Ions Magnussonar ad suo fyrir skildu ad adur greindur Ion Magnusson sagdist i fullo og laugligu vmbode Magnusar Ionssonar sonar sins selia og sellde fyr nefndum Gunnare Gijslasyni ıordina Manskapshol[5]) og Myrarkot er liggia á Haufdastrond i Hof[s] kirk[i]u sokn til fullrar eignar og frials forrædis med ollum þeim gognum

1) [Athugasemd MKet. 2) þ. e. 1. júlí. 3) Svo. 4) Svo, utan á bréfinu með sömu hendi sem bréfið. 5) Svo hér.

og giædum sem greindre iordu fÿlger og fylgt hefur ad fornu og nyiu og þau adur greind hion Ion Magnusson og Gudny Grimsdotter vrdu fremst eigande ad vndan Magnuse og hans kuino Eleno Ionsdottur og þeirra erfingium. enn under Gunnar Gijslason og hans kuino og þeirra erfing[i]a. Hier i mot sellde tijdt nefndur Gunnar Gijslason eign sinnar kuino Gudrunar Magnusdottur iordina Þorustade er liggur ꜳ́ Eyiafiardarstrond i Sualbardz kirk[i]u sokn med ollum þeim gognum og giædum sem greindre iordu hefur fylgt ad fornu og nyiu og þau vrdu fremst eigande ad vndan sier og sinum erfingium enn vnder Magnus Ionsson og hans kuino og þeirra erfingia. skyllde sa suara lagariptingum er sellde enn hinn hallda til laga er keypte huorer vm sig og ad suo fyrir skildo setium vid þratt nefnder menn Ion Magnusson og Gunnar Gijslason ockur incigli med fyr skrifadra manna jnciglum fyrir þetta iardakanpsbref huert er skrifad var j sama stad. deige og ꜳ́re sem fyr seiger.

---

## 310. 16. maí 1553. á Ljósavatni.

Dómr, kvaddr af Ormi lögmanni Sturlusyni, dæmir gilt tilkall Halls Ásmundssonar til Daðastaða (dönsk þýðing).

Lbs. 69, 4to., bl. 183—5, skr. ca. 1640. — Uppskrift Jóns þjóðskjalavarðar Þorkelssonar er í þjóðskjalasafni.

Doms Copia j Donsku Orms Stullasonar wm Daattsstade.

Alle de mend som dette Breff sie eller hôre sender Besse Thorlaksson. Thorsteirn Jonsson. Magnus Jonsson. Jon Petursson. Thomas Kolbeinsson. Jon Hallsson. Jon Semingsson. Pavel Assmundsson. Jon Jonsson sene[1]) helsen med Gud giorendiss vitterligt at paa de[n] thid mandt schriffuede fra Guds burdt CIϽ IϽ Liij Aar deñ neste thiirsdag for pins hellige dage paa den ɴette thingstedt Liusevandt vdi Barderdal vore vii neffnde thill dombs aft Orm̄e Stulleseñ lôgmandt nordeñ oc vesten paa Jsslandt att vii schulle ɴandsage och ómdome huad for krafft eller makt the[t] gaaffvebreff schulle haffue huilket Haller Assmundsson haffde for

1) = sin.

den jord Daattstödum liggendis vdi Einersteds kyrkne[1]) sokne. huilken forne jord salige meder[2]) gud Biörn Sæmundssenn haffde giiffued Haller Jönssen. sin egen slechtinge. som var forne Haller Asmundssens Ølldefader. thill En Rett oc fullkomelig Egedom och frij offuerraad all som mest oc jyderligest medt alle de gaffne oc Gaade som forne jord Daattsstede fulger och fullgt haffuer thill forne och nyeligen. der thil hafde hand giiffued oc gaff och giorde denne giorning med Raad och samthiche sijns sons Siguatys[1]) och Bar nu dette samme Breff for oss medt vbrottne och vskadde dombs jnncigler. fremdelis bekiende forne Haller Assmundssen der för oss forne domsmend adt hand haffde hafft vdi sine Egen hender hoss sig ett breff. huort ed var saa liudende. adt Snæfrider Biornsdatter Ecktequinde Biorns hafde samthicht thenne hans gaffue och giorning och effter denne siin frembürd soor han der strax paa thingedt Eyd forne[1]) Lögmand neruerendis adt handt haffde saadant ett Breff hafft selffuer hoss sig [och thenne Eid[3]) vandt och suore med[4]) hannem tho vel fornumstige[5]) danemendt adt the haffde seed saadant Breff hoss forne Haller Assmundssen. Nu staar der saa vdii[6]) vores Logboch och Retten adt mand schal handle och dome vdi alle Sager effter [schiel och uidnissburd[7]). och end andersteds siiger bogen saa adt engen schall selge thet ein anden huad hand er jche selffer Eignemand. thil the[t] kaup schall jche holldis. Dissliger kom der Ein dom for oss som domder hafde veredt paa Oddeyre aff thoe thilltther mend och haffde voridt stadfest aff Lougmanden Ormer Stullessen medt Raad och samthicke the tho herrer och hoffuedsmend huilke vore naadige konning hafde vdsendtt hiid thill landedt ved naffn Christoffuer Thrandssen och Axell Jul med all andre menige mands samticke adt alle En och serhuer våre dømde thill baage sitt gottz och penninge vdi land saa vel som löse øre fride och ofriide ther som ther kunde medt fullmindige schiell och vednisburde beuiise[s] adt theris gottz eller de penninge var deris Egedom Effter lägen. och adt thie haffde thet mist for thiirannie och offueruolld eller vdi

1) Svo. 2) = medur. 3) [tvískrifað í hdr. 4) mend, hdr. 5) storneunstige (!), hdr. 6) vdu, hdr, 7) [schiluednissburd, hdr.

saa maade stedes fra sig. adt the mätte friiligen tage jgenn. forne gottz och pendinge paa huilken thiide de ville ther som de meder schel oc vednisburd medt Breff eller suoreñ Ede soge the Effter laugligen. thii domde vii forne domdsmend vdi guds naffn Amen medt fuldmindig domdsord och ved schel. Effter all sågen saa beuijsedt och for oss vnder Rettedt forne Breffue och gåffue. dissliigest Alle hañdz gierning fullmindig och schielig medt Alle siin Articulis som thet jñdthollder. Oc forne Haller Assmundzsen Retteligen maa thil sig tage forne jord Daattzstade nu strags vdi fardage och adt the er hans louglig Egedom och veredt haffuer. vden saa see[1]) adt nogen andre visse skel och provelsse Eller Beuiising freñkommer medt breffue och suorne Eede.

Och thill mere Sandhed her om samthichtte och stadfeste thenne vorn dom med oss forne Ormer Lögmand och sette sitt jnnsigl medt voris jnnsigler for denne samme vore dom huilken var schriffuen samme steds Ar och thag som for er sagt.

Thed Bekiende vii éffterschreffne mend Thorgrimer Thorleffssen och Otte Einerssen att vii haffuer seedt och offuerledst jtt domsbreff saa liudendis som forschreffued står med vbroden och vschadde dande mends jnnsigler. thil ydermere vydnissburd ther om thricher vii vore signeter for neden på dette Breff huilked skriffued var paa Eyreland j Eyfiord thenn femte Augusti Anno 1588.

**311. 18. eða 25. maí 1553. á Ökrum.**

Gjafabréf Helgu Sigurðardóttur til Guðrúnar Magnúsdóttur, sonardóttur sinnar, fyrir hálfum Syðri-Ökrum.

AM. Apogr. 4122 m. h. Jóns Magnússonar á Sólheimum „Ex originali á kalfskinn“. — Uppskrift Einar Þorkelssonar er í þjóðskjalasafni.

Jhesus.

Þad giaurum vid Olafur Ormsson. Eyolfur Arngrim[sson] godum moñnum kunnigt med þessu ockru opnu brefe

1) Svo.

arum epter gudz burd. m. d l iij fimtudægenn næstan[1]) huitasunnu æ Aukrum j Skagafirde vorum vid j hia saum og heyrdum æ ad Helga Sygurdardotter gaf Gudrunu Magnusdottur sonar dottur sinn[i] med handsaulum jaurdena halfa Sydre akre[2]) j Skagafirde er liggur j Mıjklabæiar kirkiu sokn med aullum þeim gaugnum og giædum sem greindre halfre jaurdu fylger og fylgt hefur ad fornu og nyiu vndañ sier og siuum erfing[i]um enn vnder Gudrunu Magnusdottur og hennar skilgeten baurn med þeim skilmala ad fyrrnefnd Gudrun skal vnna Helgu ad hallda greinda jaurd leigulaust j sinne lifstid vtan adurnefnd Helga vile firre lausa lata. med þvi skilorde ad greind Helga skilde aftur vnder sig. þessa jaurd ef optnefnd Gudrun Magnusdotter kynne fyrre fra ad falla enn Helga suo ad hun æ ei skilgeten baurn efter sig Enn ef tijttnefnd Gudrun Magnusdotter æ ecke skilgeten baurn efter sig og hun lifer þrattnefndre Helgu leingur þa skyllde sama jaurd falla vnder erfingia oftnefndrar Gudrunar Magnusdottur þa sem af ættlegg biskups Jons komner eru huers sal gud fride og til sanninda hier vm̃ setium vid ockar jnsigle fyrir þetta bref huert ed skrifat var j sama stad deige og ære sem fyrr seiger.

---

**312. 25. maí 1553. á Þingeyrum.**

Síra Gottskálk Jónsson og síra Hákon Gíslason skiptast á Þorsteinsstöðum í Tungusveit og Gili í Staðarsveit í Skagafirði.

AM. Apogr. 4125 m. h. Jóns Magnússonar „Ex originali“ á kálfskinn. — Uppskrift Einars Þorkelssonar er í þjóðskjalasafni.

Þath giorum vier Haugne prestur Petursson. Einar Petursson og Þorolfur Sueinsson godum monnum kunnigt med þessu voru opnu brefe ath ãrum eptir gudz burd ꝏ. D. l. og iij. ath Mel j Midfirde miduikudaginn næstañ fyrir huitasunnu[3]) vm vorid vorum vier. j. hia saum og heyrdum æ ord og handaband þessara manna. af eirne alfu. Gottskalk

1) Svo; hér vantar „fyrir“ eða „eftir“. 2) Svo. 3) þ. e. 17. maí.

prestz Jonssonar. enn annare Hakonar prestz Gislasonar. ath suo fyrirskildu ad fÿrgreindur sera Gottskall selldi fÿrnefndum sira Hakone jordina Þorsteinstade j Tungusueit fyrir. xlc. er liggur j Mælifellz kirkiusokn til fullrar eignar og frials forrædis vndañ sier og sinum erfingium med ollum þeim gognum og giædum sem greindre jordu fÿlgt hefur ad fornu og nÿiu og hann vard fremst ad eigande. Hier j mot gaf sira Hakon Gottskall Jonssyne jordina Gil j Stadarsueit fyrir xlc. er liggur j Borgar kirkiusokn med sama skilorde sem fÿrr seiger. skyllde huor hallda þeirre jordu til laga er keypte enn suara lagariftingum a þeirre er sellde. Og thil sannenda hier vm setium vier fÿrgreinder menn vor jnsigle fyrir þetta kaupbref er skrifad var æ Þingeyrum j Vatzdal. fimtudaginn næstañ fyrir trinitatis sunnodag æ sama ǻre sem fÿr seiger.

---

## 313. 27. maí 1553. á Stóru-Borg.

Kvittun Pétrs Einarssonar, umboðsmanns konungs yfir eignum sira Bjarnar Jónssonar, til Jóns Magnússonar um skil á tilgreindu lausafé.

AM. 238, 4to., bl. 33 (83). Bessastaðabók, skr. c. 1560. — Uppskrift Jóns þjóðskjalavarðar Þorkelssonar er í þjóðskjalasafni.

Kvittvñarbref Jons Magnvssonar af Petre Einarssyne. Þad giore eg Petvr Enarsson kongs vmbodzmadur yfer þui godze sem att hefur sira Biorñ heitenn Jonsson hvors sal gud nadi. godvm monnum kvnnigtt med þessv minv opnv brefi. at ec hefi kongdomzens vegna til reikningskapar komit vid bondan Jon Magnvsson vegna barna sira Biarnar heitins Jonssonar og reiknvdvzt ockvr þav kvgilldi vera sem vorv med kongzens jordvm. og annara manna jordvm. ij hvndrvd. og iiij kvgilldi betvr. hverivm kvgilldvm at vid skiptvm. epter ockarre bifalningv. epter þui sem vid þeinktvm at kongdomenvm og bornvnvm mvndi hagligazt vera. at margra godra manna vitordi og þa hia ockvr nærverande. Svo og hefi ec samþyckur ordit oc suo kongdomzins vegna. at mier tekit. þav xxv malnÿtv kvgilldi og xvc jord sem

liggur nærre kongzens jordvm og heiter Tiorñ j Midfirde med eydekotinv Haukastodvm fyrir þav xlᶜ [j] jordvm og eydekotvm. sem hann var Ara heitinvm Jonssyne skýlldvgur. Þui j gvdz nafni ameñ. giori ec og gef adur skrifadañ Jon bonda Magnvsson avllvngis kvittañ og ækærvlavsañ vm fyrr skrifadañ reikningskap og peñinga fyrir mier og ollvm minvm epterkomendvm mins herra kongzins vmbodzmonnum Og til meire avdsyningar hier vm. set eg mitt jnnsigle fyrir þetta kvittvñarbref. hvort ed skrifad var á Storv borg j Vestvrhopi lavgardeigenn j fardagavikv þa lidit var fra hingatbýrd vors herra Jesv Christi ⅿ d l iij ar.

---

314. 28. maí 1553. 13. mars 1556. á Möðruvöllum.

Ættleiðing Finnboga Einarssonar á börnum sínum, Einari Þorgrími, Jóni, Ingibjörgu og Oddnýju.

AM. Fasc. LIII, 10, frumrit á skinni. Öll (6) innsiglin dottin frá (uppskrift Jóns þjóðskjalavarðar Þorkelssonar er í þjóðskjalasafni). — Eftirrit í AM. Apogr. 567. — Semikommur í frumritinu, hér punktar.

Þat giorum vær Biorn prestur Gijslason. Einar Sigurdzson. Olafur Olafsson. Gunnar Þorsteinsson. oc Brandur Sueinsson. godum monnum kunnigt med þessu voru opnu brefi. at arum epter Gudz burd. ⅿ. d. l. iij a ⅿodruvollum [i] Heyrgardal. sunnodaginn de trinitate vm̃ vorid. vorum vier i hia saum oc heyrdum a at þesser aller menn geingu fyrir kirkiudyr oc hielldu a einne bok. Finnbogi Einarsson. oc Einar Halfdana[r]son fader hans sem þa var logligur erfingi nefndz Finnboga. oc Einar. Þorgrimur. Jon. Ingibiorg. oc Oddny. hier epter samstundis ættleiddi. og arfleiddi oft nefndur Finnbogi Einarzson fyr nefnd born sijn. Einar. Þorgrim̃. og Jon. Jngibiorgu og Oddnyu. til fiar þess er hann gaf þeim og allz arfs efter sig. og allz þess rиettar er logbok vottar at ættleidingar eiga med logum at hafa med þeim skilmala at ij dættur taki jafnt vid einn son. var þesse ættleidiñg gior efter logbokarinnar ordum i ollum greinum. samþyckti nefndur Einar Halfdanarson þessa arfleidiñg.

og jatadi greindum arfi. setiandi sitt jnsigli med vorum jnsiglum fyrir þetta bref er skrifad var a fostudaginn næstañ efter Gregorius messu dag vm̃ veturinn j sama stad. þremur arum sidar enn fyr seiger.

— —

**315.** **31. maí.** **í Múla.**

Síra Illugi Guðmundsson og Brynjólfr Jónsson skiptast á Hólum í Fljótum fyrir 20 hundruð í Höskuldsstöðum og Þyrnishóli með 10 hundr. í lausafé.

AM. 255. 4to., bréfabók síra Skúla Þorlákssonar á Grenjaðarstöðum, bls. 346—7. — Uppskrift Einars Þorkelssonar er í þjóðskjalasafni.

Hoola j Fliötum fyrer xx^c j Hoskulldstodum og Þyrnisshol ahrærande.

Þad Giorum vier Jon Einarsson. Þordur Eigilsson. Arni Tidigsson og Helge Jonsson godum mönnum kunnigt med þessu voru opnu brieffe. ad arum epter guds burd ∞ d l og iij manudagenn næstañ effter fardagaviku[1]) a Hoskulldstöd[um] j Reikiadal j Helgastada kirkiusokn. vorum vier j hiasaum og heirdum a ord og handaband þessara manna af eirnri alfu Jlluga prestz Gudmundssonar Enn aff annare Briniolffs Jonssonar og Kristijnar Þorsteinsdottur konu hañs. ad so fyrerskilldu. ad neffnd hion selldu greindum sira Jlluga jordena Hoola j Fliotum j Holltz kirkiusokn. med öllum þeim gögnum og giædum og skilmala sem Jon Einarsson nu strax þeim hana sellde og sogdu hana xxx^c. Hier j mot gaff firrneffndur sira Jlluge xx^c j Hauskulldstödum og Þirnishoole. er þaug hoffdu adur sellt sira Jlluga. og þar til x^c j lausagotse. atte offtneffndur Sira Jlluge ad hallda jordunne Hoolum til laga. enn ef hun geinge af eda være ei sem̃ Jon hafdj sagt. eda af hennar landareign. þa skillde sira Jlluge þann allañ adgang eiga ad Jone Einarssyne og ad öllu suo thilskilldu vm̃ Stockahlade sem Brinjulfur og Kristijn skilldu fyrer j þeirra kaupe vid adursagdañ Jon þa þau keiptu Stockahlodum og Hoolum og vier vorum nu

1) þ. e. 29. maí.

strax vottar ad kallader. nema hann villdj helldur ganga aptur ad þuij andvirdj sem hann sellde Briniulfe fyrer Hoola: þa skillde hann þad meiga. Enn ef nefnd hiőn villdu nockud sinn selia þaug xx^c j Hauskulldstodum sem sira Jlluge þeim þa selldj. þa lofudu þaug honum þad first selia fyrer xx^c j lausagotze so og ef hann villde selia þann part sem Thorfe hafdj honum sellt fyrer lausagotz. þa skillde hann þeim selia eff þaug sialff giæte keipt. ok til sanninda Hier vm̄ setium vier vor jnncigle fyrer þetta brieff. Skriffad j Mula j AdalReikiadal ij nottum sıjdar enn firr seiger.

Þad Giörum vid Oddur prestur Jonsson og Oddur Asmundsson godum monnum kunnigt med þessu ockar opnu brieffe ad vid hofum sied og yferlesed so latande brieff med þrimur oskőddudum hangandi innciglum sem hier fyrer ofansteudur skriffad. ord epter ord. og til sannenda hier vm̄ setium vid ockar jnncigle fyrer þetta brieff skriffad j Mula j AdalReikiadal j fardőgum arum Epter guds burd ꝏ. d. lx og ij aar.

(L S) (L S).

---

**316. 31. maí 1553. í Hjarðarholti.**

Sjöttardómr, kvaddr af Daða Guðmundssyni, umboðsmanni konungs í Borgarfirði vestan Hvítár, dæmir Kristínu Ormsdóttur réttilega mega að sér taka jörðina Steina.

AM. Apogr. 4475 „Ex origin. Ur hustru Þrudar brefum fra Pali lögmanni sendum 1723. enn sendum tilbaka 1724. Collata accurate satis“ (AM.). Uppskriftin er með hendi Árna Magnússonar, sem lýsir svo innsiglum: „Under dominum hafa vered 6. innsigle. og ecki fleire. 1. er Dada Gudmundzsonar ólæselegt. so ad kalla. mund verdur nockurnveiginn lesed. 2 er burtu. 3. er Oddz Tumassonar aflageslega illa stunged og staferner nockrer aptur á bak: Odd . . . innani synest ad vera 4. 4. 5. 6. eru burtu. 7da. hefur alldri hier vid hangt“. — Uppskrift Jóns þjóðskjalavarðar Þorkelssonar er í þjóðskjalasafni.

## Domur um Steina.

Ollum monnum þeim sem þetta bref sia edur heyra senda Sygurdur Oddzson. Oddur Tumasson. svarner logrettumenn. Ormur Þorleifsson. Steinn Eyiolfsson. Þorvalldur

Styrsson og Gudbrandur Amundason. kvediu gudz og sina. kunnigt gioranda. þa lidit var fra guds burd ꝏ d l. og iii. ar. i Hiardarhollti i Borgarfirde. a þingstad rettum. a þridiudaginn næstan fyrir Dyradag[1]) um sumarit. vorum vier i dom nefnder af Dada Gudmundzsyne. sem þa hafde kongsins syslu og umbod i Borgarfirde. fyrer vestan Hvitæ. ad skoda og ransaka. og fullnadardom a at leggia. hveria mackt edur afl at hafa skylldu þau bref. er Kristin husfreyia Ormsdotter hafdi fyrer iordunne Steinum. sem liggur i Borgarfirde i Hiardarhollz kirkiu sokn. J fyrstu grein var þar upplesid fyrer oss bref med godra manna innsiglum. svo latande. at Jon Ellingsson kom fyrer fyrrnefndañ valldzmann Dada Gudmundzson i umbode modur sinnar. adurnefndrar Kristinar Ormsdottur. beidde hann og krafde at lata skoda og rannsaka med logligum domi. hvort at fyrrnefnd Kristin eda hennar logligur umbodsmadur skyllde mega at sier taka. edur ei. adurnefnda iord Steina. J annare grein var þar upplesinn vı. manna domur. hvern dom ut hafde nefnt Hirdstiorinn Eggert Hannesson og samþyckt. svo latande. at optnefnd iord Steinar var dæmd eign þrattnefndrar Kristinar Ormsdottur. og hennar svarsmadur. sem þa var Ellingur heitinn Gislason. var þesse iord dæmd i þessum sama dome. sem upp var lesinn fyrer oss. og hlydde uppä gardinn Sidumula i Borgarfirde. J þridiu grein kom þar fram logmannz urskurdur upp ä fyrskrifadañ dom. svo latande. at hann hefde tilnefnt med sier vj. logriettumenn a Alþinge. at skoda og skynsamlega at tracktera fyrrnefndan dom. Nu fyrer þat at hann og þeir dæma optnefndan dom myndugan. skæleg-an og loglegan. med ollum sinum greinum og articulis. sem hann inne helldur. og hier uppä urskurdade logmadurinn hann med fullum lagaurskurde. þvi at svo profudu og fyrer oss komnu. dæmdu vær adurnefnder domsmenn med fullu domsatkvæde. titt nefnda iord Steina eign þrattnefndrar Kristinar husfreyiu Ormsdottur vera og verid hafa. sidan hun var henne dæmd og urskurdut. og hana eda hennar loglegann umbodsmann mega riettilega at sier taka. nær

1) þ. e. 30. maí.

er hun edur hann vill. þrattskrifada iord. Var þar og upplesit fyrer oss suo latanda bref. ad adurnefndur Jon Erlingsson gaf Dada Gudmundzsyne fullt og logligt umbod til at taka ad sier optskrifada iord Steina i umbode modur sinnar Kristinar Ormsdottur. Þvi dæmdum vær þat bref myndugt og skiælegt. og þrattnefndan Dada mega at sier taka optskrifada iord. nær sem hann vill. Samþyckte þennan vorn dom adurnefndur kongs umbodsmadur. og sette sitt innsigle med vorum fyrrnefndra domsmanna innsiglum fyrir þetta domsbref. hvert er skrifat var á sama are deige sidar enn fyrr seiger.

---

**317. 6. júní 1553. í Ási.**

Nikulás Þorsteinsson fær Vigfúsi, bróður sínum, brennistein í Fremri-Námum og heima í Hlíðarnámum og alla Kröflu til ævinlegrar eignar.

AM. Fasc. LIII, 11, frumrit á skinni, og er innsiglið fyrir (uppskrift Jóns þjóðskjalavarðar Þorkelssonar er í þjóðskjalasafni). — Eftirrit í AM. Apogr. 92.

Kroflvbref [vm brennestein. Brieff vm Kroflu[1]).

Þat giore ec Nichulas Þorsteinsson godum monnum kvnigtt med þessv minv opnu brefi ath ec medkenvnst og vid geing ath ec hefi feingid Vigfussi brodur minvm til fullrar eignar og frials forrædis brenvstein ȷ fremre namum og heima ȷ Hlidar namum fyrir sig og sina menn. skal hann þessv meiga hallda og fram fylgia so leingi sem vid lifvm bader til. So og medkenunst ec ath ec hefi gefid adur nefndvm Vigfvsi brodur minum alla Kravflv til æuenligrar eignar undan mier og minum erfingium en vnder hann og hans erfingia. til obrigduligrar stadfestv og til sanenda hier um set ec mitt ȷnsigle fyrir þetta bref skrifad ȷ Asi ȷ Auxarfirde þridivdagin næstan epter festvm corpus Christi. arum epter gudz burd þvshundrut u$^{c}$. l. og iij.

---

1) Utan á bréfinu; frá [ með hendi frá 17. öld; hitt samtíða.

xx^c og þar thil vj kugildi Strandhöffn fyrer austan fyrer[1]) xij^c og þar til adra goda penıȷnga so ad hennar heimañmundur skillde vera[2]) full lx^c. skilldi greindur Arni Brandsson þad thil hannz [opt neffnd[3]) dottir Þorunn skilldj vera malakona og Jon skilldi gieffa hennj j thilgiöff og fiordungs giöff xl^c sem væri jördeñ Hoffstadir eff ad hun lifdj honum leingur. var þa hennar male samañreiknadur attatiju hundrud. giördist allur þessi giörnijngur og skilmali og for þar strax fram̄ med handsölum og fullkomlegu jairde og samþickj af adurgreindum optnefndum Arna B[onda] Brandssine og þar epter keipti j sama stad og dag tijttnefndur Jon Sigurdsson optneffnda Þorunne. lyste þuij þar fyrer oss adur skriffadur Arni B[ondi] Brandsson ad þo eigi hefdi hann vered sialffur þar vid staddur personulega þa hefdi þau þessa sıȷna dottur giefed j fullkomlegt valld hennar afa og Ømmu Þorsteinz Bonda Fimbogasonar og Sesseliu Thorfadottur thil allz forrædiss og giptıȷngar ad jafnfullu og hann sialffur vid væri og sagdist fyrer þuij nu wppa nytt stadfesta og samþickia. var forsagnarvottur ad ollum þessum giörnijnge greindur biskup Olaffur med Radi og vndirtale Heidurlegs manns Þorsteins B[onda] Fimbogassonar og setti sitt jnnsigle med vorum firrgreindra manna jnnsiglum fyrer þetta brieff huört ad giört og vpp skriffad var j sama stad x dogum sıȷdar eñ firr seiger.

(L. S.) (L. S.) (L. S.) (L. S.).
(O. H. S.)

---

**341.** **25. september 1553.** **við Vallalaug.**

Tylftardómr, kvaddr af Oddi lögmanni Gottskálkssyni, dæmir síra Magnúsi Eyjólfssyni og Þorleifi, bróður hans, hálfa jörðina Syðri-Akra í Blönduhlíð, er Gunnar Gíslason hélt fyrir þeim og taldi eign konu sinnar.

AM. Apogr. 4124 m. h. Jóns Magnússonar á Sólheimum. „Ex originali“ á kálfskinn; lýst er innsiglum. — Uppskrift Einars Þorkelssonar er í þjóðskjalasafni.

---

1) sl. b. 2) verda, b. 3) [b.

Þeim godum monnum sem þetta bref sia edur heyra sendum vier Jon Grimsson. Þorbergur Bessason. Biarne Skulason. Halldor Sigurdsson. Jon Þorarinsson. Tum̄e Þorgrimsson. Eẏolfur Arngrimsson. Asgrimur Jonsson. Þorgrimur Gudmundsson. Sæmundur Sijmonarsson. Magnus Jonsson. Oddur Filippusson. kuediu Gudz og vora. kunnigt giorande ad arum epter Gudz burd M. D. l. og iij a manudaginn næstan̄ fyrir Leodegarij episcopi vm haustid vid Vallalaug. j Skagafirde a almenneligu þriggia hreppa þinge vorum vier til doms nefndir af heidurligum manni Odde Gottskalckssyni logmanni fyrir nordan̄ og vestan̄ æ Jslande ad skoda ȷnuirdulega. rannsaka og fullnadar dom æ ad leggia vm þa aklogun er sera Magnus Eẏolfsson kiærde til Gunnars Gijslasonar ad hann hielldi fyrir sier og sinum brodur Þorleife Eẏolfssyni ȷordunne halfre sydri Aukrum er liggur j Blonduhlid j Skagafirde. var adurgreindur Gunnar þar samdægris stefndur af sera Magnuse fyrir greinda sauk ad oss aheyrundum og þui leẏst oss sagdur Gunnar riettiliga fyrirkalladur. j annari grein hiellt nefndur Gunnar fẏrsagda halfa jord eign sinnar kuinnu Gudrunar Magnusdottur eptir þvi sem jnnsiglad bref þar vm giort vtuisade. en̄ fyrnefndur sera Magnus reiknadi sier og sinum brodur Þorleife til erfda fallit hafa epter þeirra modur Helgu Þorleifsdottur. J þridiu grein kom þar og fram̄ fyrir oss ad nefndur sera Magnus med godra manna vitorde hefdi somu jord optsinnis aklagad og æhrært vid þa sem halldit hafa. suo og bar sera Magnus þad þar fram ad sin moder Helga Þorleifsdotter hefdi vnt og lied til vmskipta a landskylldum nefnda halfa jord. Akre. biskup Augmundi en̄ alldri hefdi hun sagda ȷord solum sellt nie giofum giefit og eigi j nein sakferli golldit. og þar epter hefdi biskup Augmundur halldit sagda jord fyrir greindre Helgu sinne modur suo hun hefdi eigi laugum æ nad saker ofrikis biskups Augmundar. og af þui ad morgum godum monnum var þad kunnigt. þvi leitzt oss optnefndum sera Magnuse full naudsyn og forfoll til hafa dreigit fyrir sama ofrikis sakir sem logmalit giorir rad fyrir þar er suo seigir. nu ef honum fellzt þessi brigd fyrir einhuerra naudsynia saker edur vankunnendi og mete þad vj skẏn-

samer menn þa brigdi þeirre jordu þott sidar sie. hier vissum vier med sannindum ad greind half jord Akrer var obrigdanlig eign og odal optnefndrar Helgu Þorleifsdottur eñ eigi kom þar fram̄ med sannindum ad tidtnefnd Helga hefdi greinda jord j nockurn mata sier afsalad. edur til eignar j burt feingit vndañ sier edur sinum erfingium. j fiordu grein kom þar fram fyrir oss ad biskup heitinn Augmundur hefdi sellt greinda jord halfa Akre biskup heitnum Jone huerra beggia saler Gud nade. vikur logmalit suo æ nema madur selie oheimillt edur sie fals j þa skal kaup aptur ganga eñ hinn hafe andvirde sitt. Þui ad heilags anda nad til kalladre og ad suo profudu male og fyrir oss komnu dæmdum vier med fullu domz atkuæde optnefndan sera Magnus skylldugañ ad sueria fullañ bokareid og ij skilriker menn med honum ad hann hefdi alldreigi somu jord halfa Akre solum sellt ne giofum giefit og alldri neinum vmbodit ad selia. edur j burt fa og eigi golldit. j nein sakferle huorke kongdomsins vegna ne kirkiunnar og eigi helldur hans moder tittnefnd Helga og ecki hans broder þrattnefndur Þorleifur suo hann af visse. Sor optnefndur sera Magnus greindañ eid þar samdægris fyrir adurnefndum lǫgmanni Odde ad oss aheýrundum. Þui firir þessar greiner og fleire adrar er j logunum standa og hier ad hniga. somuleidis og ad þessum eide vnnum. dæmdum vier med fullnadar domsatkuæde tidtnefnda halfa jord sydri Akri. vera og verit hafa obrigdanliga eign þrattnefndz sera Magnusar Eýolfssonar og hans brodur Þorleifs Eýolfssonar epter þui sem þeim hafdi fremst þesse jord til erfda fallit epter sina modur fyrrgreinda Helgu Þorleifsdottur. Samþyckte þenna vorn dom adurgreindur Oddur logmadur og til sanninda hier vm setium vier adurnefnder domsmenn vor jnnsigle fyrir þetta domsbref skrifad j sama stad og áre sem fyr seiger.

---

**342. 25. september 1553. við Vallalaug.**

Kaupbréf fyrir hálfum Syðri-Ökrum í Blönduhlíð, er síra Magnús Eyjólfsson seldi Gunnari Gíslasyni.

AM. Apogr. 4123 m. h. Jóns Magnússvnar á Sólheimum „Ex originali“ á kálfskinn. Tvö innsigli höfðu verið fyrir, og er þeim lýst. — Uppskrift Einars Þorkelssonar er í þjóðskjalasafni.

Þad gjorum vær Biarne Skulason. Jon Oddsson. Ottar Eywindsson godum monnum kunnigtt med þsssu voru oppnu brefij. arum eptir gudz burd. ɱ. d. l. oc iij. manudaginn næstan fyrir Leodegarij episcopi vm̃ haustit vid Wallarlaug j Skagafirdi vorum vier j hia saum oc heyrdum ꝺ ord oc handaband þessara mauna. sera Magnusar Eyolfssonar. oc Gunnars Gislassonar ad so fyrirskilldu ad fyrrnefndur Magnus sellde Gunnare Gislassyne jordena halfa sydre Akríj j Skagafirdi er liggur j Myklabæar kirkiusokn med ollum þeim gognum oc giædum sem greindri jordu hefer fylgt at fornu oc niju oc adurnefndur Magnus vard fremst eigandi at. so oc samþyckti Þorleifur Eyolfsson broder tittnefndz Magnusar Eyolfssonar þennañ kaupskap med handsolum hier ȷ mot gaf fyrrnefndur Gunnar Gislasson þrattnefndum badum brædrum. Magnuse oc Þorleifi so ordna peninga. xx$^{c}$ jaurd fyrir vestan oc þar til xxx$^{c}$ sem þeim vel semdi oc saman kiæmi skylldu huorer hallda sinu kaupi til laga. eñ sa skylldi suara lagaxiptingum er selldi. oc til sannenda hier vm̃ setium vær fyrrnefnder menn vor jnncigli fyrir þetta kaupsbref skrifad j sama stad Deigi oc are sem fyrr seier.

---

**343.** **1. október 1553. á Urðum.**
**19. mars 1556. á Hólum.**

Festingarbréf síra Steins Ólafssonar og Arnbjargar Brandsdóttur.

AM. Apogr. 141, m. h. Jóns Magnússonar á Sólheimum „Ex originali“ á kálfskinn. Innsigli byskups var fyrir brèfinu, en 3 innsigli dottin frá. — Uppskrift Jóns þjóðskjalavarðar Þorkelssonar er í þjóðskjalasafni.

Jhesus.

Eg Olafur Hialltason vnder guds þolinmædi biskup at Holum og superintendens Holabiskupsdæmis giore godum monnum kunnigt med þessu voru opnu brefi. at arum epter gudz burd. ɱ d l og iij. a svnnudagin næstan epter ɱicaels-

messo. æ Vrdum ȷ Suarbadardal vm haustid giordum vier suo felldan giorning epter guds logum. konglig maiestets ordinancio og uor[r]e biskupligre skylldu ȷ millvm sira Steins Olafssonar og Arnbiargar Brandzdottur sem adur hafdi verit hans frilla og barnamoder ȷ moti ollum guds retti. skylldi hann giora eiginord til greindrar kuinnu. og giora þeirra born skilgetin. Enn af þui at fyrskrifud Arnbiorg hafdi æ sin rad[1]) sleigit adur hvert þad hafdi uerit med radi faudur og modur eda ei þa uirtist oss med dandemanna radi hennar radahagur til betra efnis eiga at fara. suo sem annarar eckiu. med einhvers frænda radi. þui for greindur sira Steirn til med uoru radi og greindrar Arnbiargar ȷayrdi. med samþycki sin[n]ar modur Gudrunar Arnadottur og nafrænda sins Jons bonda Sigurdssonar. keypti og festi sier til logligrar eiginkonu tittnefnda Arn̄biorgu. epter rettum bokarinnar ordum. Enn þa þessi giorningur for fram var oss sagt at hennar fader uære kominn og ei vissum vier þat og at honum til kolludum gaf hann mier sina hond vppa þat at sa giorningur sem þeirra æ millum giordist. skylldi af [honum] obrigdiligur standa. lysti adur nefndur sira Steirn at hann ætti þa xx^c^. gaf hann þa kuinnu sinne at auk þess sem hun atti adur i sinn gard vr þeim xx^c^ suo mikit at hennar mali skylldi vera x^c^. reiknadist at hun[2]) ætti adur ȷ hans gard. v^c^. med þui tillagi sem eg hafdi adur med [nockrum] annara hennar vina til lagt. og sæker allra fyrskrifadra greina og mala tilbunadar og epter þui konglig maiestets brefi. skipan og bifalningu sem ec hefi sialfur inn ȷ landit haft. og æ alþingi tuisuar ful[l]komliga samþygt uerit. um skilgetning prestabarna. wrskurdum vier med dandi presta radi þeirra born rett skilgetin vera. og arfa at sier taka meiga. þa sem þeim at rettum erfdum til falla suo sem onnur skilgetin festarkonu born. war ec adurnefndur biskup Olafur forsagnarvottur at ollum adursogdum giorningi. og þessir forsagnarvottar Þorbergur bondi Bessason. Gudmundur Einarsson og Þoraren Gudmundsson hverier at settu sin innsigli med uorv

---

1) Hér stendr „adur", en punktað undir það svo sem ofskrifað.
2) hū, Apogr.

incigli fyrir þetta bref skrifat a Holum ȷ Hialltadal xıxa dag Marcii. anno domini. ꝏ. d. l. vj.

---

344. 2. október 1553. á Felli.

Vitnisburðr síra Gísla Jónssonar í Selárdal, er lýsir því, að eftirrit af griðabréfi, sem með fylgdi, gefið Guðrúnu Jónsdóttur af Friðreki konungi II., sé samhljóða frumritinu.

AM. Apogr. 4556 „Ex originali Hlidarend.“ Bréfið sjálft er m. h. Hans Beckers, en athugasemdirnar m. h. Árna, nema ein klausa m. h. Páls Hákonarsonar. Árni lýsir innsiglinu: „Jnnsiglesþveingurinn er skorinn af sialfu bokfellenu, sem brefed er á skrifad, og dreigen so i gegnum æs, og giðrdur á halfur hnutur, more antiqvo. Og eckert gat er hier fyrer utan, nedan á brefenu. Eckert bref fylger nu þessum vitnisburde. Enn honum mun fyrrum fylgt hafa copia af kongs Frederici I. brefe, utgefnu Gudrunu Jonsdottur, þeirre sem fell i obota legordsmaled med Odde Jonssyni modurbrodur sinum, og daterudu 1529.[1]) Nedan á þá Copiu mun hafa vered giðrt gat, og þar i gegnum dregenn þveingurenn þessa nærverande brefs, adur enn Sira Gisle sette þar innsigled á. Ut ur þvi gate á Copiunne hefur sidan rifnad, og sögd Copia so vidskila orded vid þennañ vitnisburd, sem henne átte ad fylgia til sannendamerkis um hennar myndugleika. Sira Gisle hefur lated stinga þetta innsigle epter innsigle annars Sira Gisla Jonssonar, sem var prestur og lifdi circa 1507. Enn þeim sem stinga skylldi hefur missiest i ad setia inscriptionem. hefur þvi kalekurenn orded ad standa á höfdi, ef inscriptio ecke skylldi byriast nedan under innsiglenu. Vide afrissingu þessa innsigles. qvam penes me servo. [Utan á brefed er ritad med hende þeirre sem eg hefe sied utan á mörgum brefum sem tilheýrt hafa þeirre gömlu Ögurs familiæ. Eg smida mier þad mune hönd Þorleifs Magnussonar, þegar hann var ungur og skrifade vel.“[2]) — Uppskrift Jóns þjóðskjalavarðar Þorkelssonar er í þjóðskjalasafni.

Jhesus.

Svo felldañ vitnisburd ber eg Gisle prestur Jonsson. Eg medkennunzt ad eg med minne eigiñ hand. og epter skipañ mins herra biskups Ogmundar. godrar minningar. hefi eg skrifat þetta copium epter virdulegs herra kongs Fridrichs brefi. hvert hans heýgmecktugheit af sinne milldi hafdi ut gefid Gudrunu Jonsdotter. og ad minu vite þá var þat bref i allañ mata svo hliodanda sem þessi copia hlýder til. Og

1) Þetta kgsbr. er nú ókunnugt. 2) m. h. Páls Hákonarsonar.

til audsýningar ad þetta er satt. festi ec mitt ȷnscigli nedan fyrir þetta bref. skrifat ꜳ Felli i Talknafirdi. vj. nonas Octobris. anno et cetera 1553.

---

345. 7. október 1553. í Vatnsfirði.

Dómr, kvaddr af síra Jóni Þorleifssyni í umboði síra Gísla officialis Jónssonar, dæmir Þórð Sigfússon skyldan að lúka Árna bónda Gíslasyni, kirkjunnar vegna í Vatnsfirði, alla þá tolla, er fallið hafa á Ósi í Bolungarvík, síðan Þórðr fyrst átti meðgerð með þeirri jörðu.

AM. Apogr. 915 „Ex orig. Vatzfiord. accuratè. brefed er ritad ꜳ tvô uppskafningsblöð ur latinskre messubók, sem vered hefur in folio, og er skored ofan og nedan af blödunum". „Synest og domurenn skrifadur vera ad[1]) vidvæningi einhverium". Árni segir til innsigla sem aldrei hafa verið fleiri en 5. — Tvær gamlar uppskriptir af þessum dómi eru í AM. 234, 4to., *a*) bls. 524—6, *b*) bls. 534—7, skrifað 1624 fyrir Odd byskup, eftir öðru frumriti, fullt svo góðu. — Bps. Skalh. XIV, 13 transscriptum á skinni, gert í Skálholt 19. apr. 1605 (eftir sama frumriti sem 915) — Uppskrift Jóns þjóðskjalavarðar Þorkelssonar er í þjóðskjalasafni.

Watzfiardar Domur upp ꜳ Þord Fusason um̄ tollver kirckiunnar j Watzfirdi.[2])

Jhesus.

Þat giorum uier Jon Þordarson. Pantalon[3]) Olafsson Olafur Magnusson. Ormur Joṅsson. Jon Olafsson[4]) diakṅe[5]) og Joṅ Steinsson godum monnum kunigt med þessu uoru opnu brefe ath arum epter guds burd. ꝏ. d. l. iij. manudaginn næstan epter natiuitatis sancti[6]) Marie uirginis[7]) ȷ Uazfirdi ȷ Isafirdi uorum uier ȷ doṁ nefṅder aff heidarligri persoṅu sira Jone Þorleifssyni ȷ loglegu uṁbodi sira Gisla Joṅssonar officialis[8]) heilagrar Skalholltz kirkiu at skoda og ransaka og fullnadardoṁ æ ath leggia uṁ þa akæru er Arṅe bondi Gislason klagadi til Þordar Fusasonar[9]) ath hann hafdi[10])

---

1) Svo. 2) 234 a; Domur um fiskitolla 234 b. 3) Pantalion 234 a; Pantaleon 234 b. 4) 234; Olafs, frbr. 5) sl. 234. 6) sanctæ 234. 7) uirgines 915, 234, þ. e. 11. sept. 8) 234; officiali 915. 9) „*Fusasonar* hefur skrifad vered i originalnum, og so stendur þad. Sidan hefr corrigerad vered med annarre hende ꜳlika gamalli, og sett ꜳ spatiunne *Sigfuss sonar*". (AM.). — „Sigfússonar" stendr fullum fetum í XIV, 13.

oriettiliga under sig dreigit kirkiunar tolluuer ij Uazfirdi ȷ svo mata ath hann hefdi ath sier tekit tolla aff þeim monnum roit hafa æ Osi ȷ Bolungaruik og eigi helldur golldit fyrir sig nie sina menn. koṁ þar fram stefna fyrir oss eʀ Arṅe bondi Gislason hafdi stefnt Þordi Fusasẏne[1]) war hun suaren aff tueimur skilrikum uitnum. þui leist oss hun loglig myndug ȷ allaṅ mata og Þord ʀiettiliga fyrir kalladan.

Jtem ȷ fyrstu grein komu þar fraṁ fyrir oss bref med heilum og oskoddum haṅgandi ȷnnsiglum ath Nickulas Joṅsson selldi Birne Einarssyni tuo hluti ȷ tollum ȷ Buluṅgaruik fyrir suo morg hundrud upp ȷ Laugabol ȷ Isafirdi sem þeim[2]) sialfum seṁndi[3]).

J anare grein koṁ þar fram fyrir oss bref sira Halldors Lofzsonar og[4]) sira Steinmods Þorsteinssonar og Þorsteinssonar og Þorleiks[5]) Sygurdarsonar [hver ed svo hielldu. ad[6]) Biorn Einarsson hefdi keyppt at Sȷjgurdi Þordarsyni þann þridiung ȷ tolluṁ ȷ Bolungaruik eʀ Sugurdur atti og hann hafdi feingit aff erfingium Einars heitins Eirexsonar[7]).

Jtem ȷ þridiu grein koṁ þar fram bref þeirra sira Braṅdz Teizsonar og Biarna Biarnasonar[8]) med þeirra heilum og oskoddum hangandi ȷnnsiglum ath þeir hefdi sied og yferlesit testamentum bref Biarnar heitins Einarssonar med hans oskoddu hangandi ȷnsigli huert suo ȷnnehiellt millum annara orda ath Biorn Einarsson hefdi gefit heilagre Uazfiardar kirkiu allaṅ skreidartoll ȷ Bolungaruik[9]).

J fiordu grein kom þar fram fyrir oss bref biskups Sueins. med hans ȷnnsigli ȷ hueriu hann urskurdar heilagri Uazfiardar kirkiu allan skreidartoll ȷ Bolungaruik til æfinligrar eignar epter þui sem adur greind bref þar um giord

1) „Hier stendur sȯmuleidis i originalnum: *Fusasyne*. Enn uppi yfir linunne er sett med annarre hendi, þeirre sȯmu sem fyrr um getur: *Sig.* so þad skylldi heita *Sigfusa*. hann hefur gleymt ad radera *a*. og setia *s*. i stadenn“ (AM.) — Sigfussyne XIV, 13. 2) b. v. 234. 3) Svo 915; semdi 234, seumdi XIV, 13. Sjá bréf frà 3. jan. 1392 (Dipl. Isl, III, 391). 4) sl. 234. 5) Svo 234, sem er rétt (sbr. Dipl. Isl., III, nr. 389); Þorleifs 915. 6) [234; og 915. 7) Sjá bréf frá 9. okt. 1391 — 8. jan. 1392 (Dipl. Isl., III, 389). 8) 234, og er rétt, Biarnasonar, 915, 9) Þetta er *skallabréfið* frá 14. júní 1469. Dipl. Isl., V, nr. 483.

ut uisa suo framt sem ecki kome aunnur bref þau fyrir hann edur uitne er framar geingi hier um̃[1]).

J fimntu[2]) grein kom þar fram fyrir oss uitñesburdarbref Einars Þorleifssonar. Þorleifs Ornolfssonar. Landbiarz Bardarsonar og Sueins Jonssonar. huer at suo jnne hielldu ath þeir hefdu alldri annad heyrtt en Uazfiardar kirkiu hefdi eigñadur uerit allur fiskitollur aff Bolungaruik og golldin arliga ars suo leingi sem þeir hefdi til munad og huergi tollaust[3]) skip ȷ Bolungaruik nema vnder Hlid. helldur og suo bref Þorleifs Ornolfssouar j eirne grein ath hann hefdi sied og yfer lesit þann dom̃ er Sira Narfi heitinn liet dæma uppã eirn mann er roit hafdi æ Osi og eigi uilldi giallda toll Uazfiardar kirkiu. uar tollurenn og sokin dæmnd[4]) kirkiunne ȷ Uazfirdi[5]). Þui ȷ guds nafne amen fyrir þessar adurnefndar greiner. kirkiunar skilriki þau uier skodudum og fram fyrir oss hafa kom̃it ath suo profudu og fyrir oss komnu dæmdum vier med[6]) fullu doms atkuædi æfinliga eign Uazfiardar kirkiu allan skreidartoll æ Osi aff þeim monnum eṙ þar roa epter þui sem kirkiunar bref og biuisingar þar ut uisa og þrattnefndan Þord skylldugan aptur at luka [[Arna bonda [7]) Gijslasyne[8]) kyrkiunar vegna [ȷ Watzfirdi[9]) alla þa tolla [er fallit hafa[10]) a Osi sidan fyrst hann atti medgerd med adur greindri[11]) ȷordu. lika uel af sialfs sins eigin skipi og[12]) kirkiune ȷ Uazfirdi. xu. merkur ȷ sitt fullretti[13]). Enn[14]) Arna bonda[15]) Gislasyni. uij. merknr j sitt fullrietti og mork ȷ stefnufall þeim eṙ [þa sok æ[16]) ath taka. skulu æ þessu utgialldi uera þrenn sol ath heyrdum domenum en alltt ut golldit ath næstum fardogum.

Samþygte þenan uorn dom̃ med oss sira Jon Þorleifsson og setti sitt ȷnnsigli med uorum fyrr greindra dõmz[8]) manna ȷnsiglum fyrir þetta domsbref er skrifad uar ȷ Uaz-

1) frá 27. júní 1469, Dipl. Isl. III. nr. 484. 2) Svo 915. 3) tolllaust 234. 4) Svo 915. 5) Þessir vitnisburðir eru allir frá 1529 og 1530. Dipl. Isl. IX. nr. 402, 437, 439, 440. 6) b. v. 234; sl. 915. 7) sl. 234. 8) b. v. 234. 9) [b. v. 234. 10) [ã hafa fallid 234. 11) nefndri 234. 12) 234; en 915. 13) [[allur þessi kafli var ritaður utanmáls í frumritinu. 14) b. v. 234. 15) sl. 234. 16) [logmalid skipar þa sauk 234.

firdi laugardagin næsta fyrir Calixtus Messo æ sama deigi og ari og fyrr seiger.

---

**346. 20. október 1553. í Koldinghúsi.**

Lögmannsbréf Orms Sturlusonar norðan og vestan á Íslandi, gefið út af Kristjáni konungi þriðja.

Ríkisskjalasafn Dana, Reg. paa alle Landene 6, 597. — Prentað í Safni til sögu Íslands, II. bls. 209—11. — Uppskrift Laursens ríkisskjalavarðar Dana er í þjóðskjalasafni.

Ormar Stollassenn fich laugmandz breff och forleningh som heer effter schreffuit staar. Datum Kollinghus fredagenn post Galli anno et cet. 1553.

Wij Christiann mett guds naade et cet.

Giöre alle witterliigtt att thenne breffuiisere Ormer Stollassenn haffuer nu werett heer for oss och berett huorledis att oss elskelige Pouell Huittfeldt wor manndt tienner och Embitzmanndt paa wortt lanndt Jsland haffuer tagett thett closter frann hannom som Wij hannom mett forlenntt hagde. och tesliigiste affsatt hannom aff laugmandz dommett Och menntte att hannom ther vdindenn war skeett vrett.

Tha haffue wij ther om ladett forfare ald leyliighedenn och ennddogh att hanns brösth oc forsömmelsse findnis Saa att forschreffuenne Pouell Huittfeldt hagde paa wore wegnne goedt orsagh till att sette hannom aff laugmanndz dommett och skiellie hannom aff med samme closter haffue wij aff wor synnderliig gunsth oc naade wnntt och tilladett och nu mett thette wortt obnne breff wnnde och tillade att forschreffuenne Ormer Stollassenn maa och skall heer effter were fuldmegtiige laugmanndt nordenn och westenn paa forschreffuenne wortt lanndt Jslanndt. och ther att skulle skiicke huer manndt fattiig och Riigh lough skiell och rett effter Jslanndz lough till saa lennge wij annderledis ther om tillsiigenndis worder.

Dogh skall hanndt aldelis Jnnttett befatte segh metth laugmanndz dommett förre endt hanndt haffuer till goede

reede vdgiiffuiitt och bethalett altt hues hanndt oss mett rette pliigtiige er.

Sammeledis haffue wij aff samme gunsth och naade wnntt och forlenntt oc nu mett thette wortt obnne breff wnnde och forlenne forne Ormer Stollassenn wortt och kronnens syssell Hunewadt syssell liiggenndis for nordenn paa forne wortt lanndt Jslanndt for synn laugmanndz löenn att haffue nyde brugge och beholle emedenn och aldt thenn stund hanndt er laugmanndt ther paa lanndett och ther aff vppebere aldt kongelig Renntte och rettiighedt sagefaldt oc anndetth som reyser till v marcis sager och icke högre hues ther offuer er schall komme oss och kronnenn till goede Dogh saa att hanndt skall holde bönndernne wedt lough och rett och Jngenn aff thennom vforrette emod Jslanndz lough vdj nogenn maade.

Schall hanndt och were oss och hogbornne förste herttugh Frederiich wor kere söenn effterkommere koningere vdj Dannmarck huldt och troe och wor lennsmanndt ther paa lanndett thenn som nu eller heer effter kommenndis worder höriigh, lydiige och fölgagtiige vdj hues maade hanndt hannom paa wore wegnne tillsiiggenndis worder.

och nar hanndt tesse artiickelle alle och huer serdeliis Jcke hollenndis worder thaa skall hanndt ther mett haffue forbrott tette wortt breff.

Bedenndis etther ther for alle och huer serdeliis byude attj rette etther effter att annamme hannom ther for etthers laugmanndt och söeger etthers rett huos hannom som huos etthers rette laugmanndt giörenndis och giiffuendis hannom hues rettiighedt som i hanns forfeedre laugmennd ther paa lanndett for hannom giordt och giiffuiitt haffuer och i etthers laugmanndt mett rette pliigtiige er Hanndt skall igienn skiicke etther alle och huer serdelis loug skiell och rett effter Jslanndz lough. Thij lader thett Jnngennlunde.

datum vt supra.

dominus rex manu propria subschripsit.

347. 24. október 1553. á Espihóli.

Kaupmálabréf Torfa Þorsteinssonar og Guðnýjar Magnúsdóttur.

AM. Apogr. 4561 „Ex originali Sira Þorleifs Arnasonar ä Kälfafelli". „Innsiglen hanga vid brefed". — Uppskrift Jóns þjóðskjalavarðar Þorkelssonar er i þjóðskjalasafni.

Jn nomini[1]) domini amen.

Lystist og stadfestist so felldur kaupmåli og giorningur j millum Torfa Þorsteinssonar og Gudnyiar Magnusdottur æ þeirra giptingardeigi med logligri festingu og hionavixlu æ drottinsdaginn næstan fyrir Mariumesso sidari[2]) æ Espiholi i Eyiafirdi ærum epter Guds burd ∞. d. l. og iij. at Torfi Þorsteinsson taldi sier til kaups vid Gudnýu Magnusdottur ytri Lauga j Reykiadal i Einarstadar kirkiusokn fyrir lxc og þar til .xxc. Hier i moti reiknadi Einar Bryniolfsson sinni brodurdottur Gudnyu Mugnusdottur .xlc. tilskilinn halfur Kroppur j Eyiafirdi fyrir xxc. eda halfa Hauskulldsstadi j Reykiadal j Helgastada kirkiu sokn fyrir xxc. ef Bryniolfur Jonson villdi þad samþyckia. og hier til hafdi hun j sylfri kross og spensl fyrir xc. og xc j audrum þarflegum peningum. Reiknast þesser peningar fyrir xlc. Skildi Einar Brýniolfsson til at Torfi og Gudnij skylldi fyrst selia sier þessa hælfa jord ef þau villdu selia fyrir lausafie eda jord. Gaf greindur Torfi Þorsteinsson kuinnu sinni Gudnyu Magnusdottur xxc j tilgiof. tilskilin. x. kuijllldi. og .xc. j þarfligum peningum. Hier med gaf Gudný Magnusdotter med handsaulum ædurnefndan Einar Bryniolfsson aulldungis kuittan og ækiærulausan vm̃ alla þæ peninga fasta og lausa. huort þad væri helldur j jardarparti eda audrum hlutum og hun hefdi mått med laugum eignast epter faudur sinn og modur. Ok þessa hennar kuittan samþýckti med handsaulum vid Einar Bryniolfsson. ædur skrifadur Torfi Þorsteinsson. er þæ giordist hennar bondi. Voro þesser menn vottar at þessari festingu og kuittan og Giorningi: Torfi Jonson. Geirmundur Jonsson. Bessi Biornsson. prestar. Nikulæs Þorsteinsson. Helgi Halldorsson. Jon Olafson. Og til sannenda hier

1) Svo. 2) þ. e. 3. sept.

vm setium vier fyʀ skrifader menn vor ȷncigli fyrir þetta bref huert er skrifad var a Espiholi ȷ Eyiafirdi þridiudaginn næstan fyrir Simonsmesso vm̄ veturinn ǻ sama ari sem fyr seiger.

---

348. 1. nóvember 1553. í Holti.

Vitnisburðr síra Ólafs Jónssonar um samtal síra Halldórs Jónssonar við sig, er því hefði lýst, að Ingibjörg Jónsdóttir, systir sín, „ætti undir sér stóra peninga, sem væri föðurarfr hennar og móður".

AM. Apogr. 4560, m. h. Árna Magnússonar „Ex originali". Innsiglið var fyrir bréfinu. — Uppskrift Jóns þjóðskjalavarðar Þorkelssonar er í þjóðskjalasafni.

Jhesus.

Svo felldañ vitnesburd beʀ ec Olafur prestur Jonson. ad ek var opptsinnes i navero og samtale kid Seʀa Halldor heiten Jonson. sem gud hans sal nade. hvad ec afyste hann ad arfleida sin boʀn. gaf hann mier þad svar. ad sw være fiarlæg sin syster. sem þar ætti samþykt til ad gefa. en hann stirdur til langra ferda. Somuleidis innte ek hann epter um̄ adrar sinar systur. en hann gaf mier þad svar. ad hann helldi ecki myndugar til arfs epter sig utan Jngebiorgu Jonsdottur systur sıña. þui hon ætti under sier stoʀa peninga. sem være fodurarfur hennar og modur. er hann hefdi halldit i langa tima og ongvan abata af feingid. og hier epter vil ek sveria ef þurfa þicker. Og til saninda hier um feste ec mitt insigle fyrir þetta vitnesburdarbref. hvertt ad skrifad var i Holte i Onundarfirde. in festo omnium sanctorum. aʀum epter gudz buʀd m. d·l. og iij.

---

349. 5. nóvember 1553. á Hofi.
12. nóvember 1555. í Grímstungum.

Festingarbréf Ólafs Jónssonar og Steinunnar Jónsdóttur frá Svalbarði.

AM. Apogr. 308 „Ex originali, komnum fra Sira Skula Þorlakssyne. 2 innsigle (sem eru prestanna) hanga vid brefed. Þeirra 3ia leikmanna hafa alldri þar under komid" (AM.). Uppskriftin er m. h. Styrs Þorvaldssonar. — Uppskrift Jóns þjóðskjalavarðar Þorkelssonar er í þjóðskjalasafni.

Þat giorum vier Gunnlaugur Arngrimsson. Biarne Helgason prestar. Þorgrimur Arngrimsson. Jon Biornson. og Olafur Oddzson leikmenn. godum mon[n]um kunigt med þessu voru opnu brefi. árum epter Guds burd ᗰ. d. l. og iij. á Hofi j Vatzdal sunnudaginn næstan epter allra heilagra messo um veturinn vorum vier j hia. saum og heyrdum a ord og handaband þessara manna. Olafs Jonssonar af einne alfu. enn Steinunar Jonzdotter kvinnu hans af annare. at svo fyrir skildu. at adur greindur Olafur Jonsson festi fyrnefnda Steinune Jonsdottur sier til lôgligrar eigin kvinnu med vilia og samþycki Jons Magnussonar faudur hennar. Gaf optnefndur Olafur Jonsson Steinunne Jőnsdotter. lx. hundrut j tilgiof. var tilskilin ȷôrdin Hőll j Sæmundarhlid er liggur i Reyninesstadar kirkiu sokn fyrir xl. hundrut og xx. hundrut j godum peningum et cetera. Ok til meire sanninda hier um setium vier fyrgreinder menn vor ȷnsigli fyrir þetta festingarbref hvert er skrifat var i Grimstungum i Vatzdal þridiudaginn næstan epter Marteinsmesso um veturin .ii. arum sijdar enn fyr seiger.

---

## 350. 6. nóvember 1553. í Kolding.

Kvittun Kristjáns konungs þriðja til Páls Hvitfelds fyrir silfri, sem hann hafði tekið við á Íslandi.

Ríkisskjalasafn Dana, Reg. paa alle Landene 6,598. — Uppskriftir eru: Jóns Sigurðssonar í JS. 569, 4to., Laursens ríkisskjalavarðar og Jóns þjóðskjalavarðar Þorkelssonar í þjóðskjalasafni.

Pouell Huittfeldt. embitzmanndt paa Snedstrupgaardt. fiick quitanndz paa sôlff. som hanndt hagde vppeborett paa Jslanndt. som heer effter schreffuiitt staar. Datum
Kollingh manndagenn post omnium
sanctorum anno etc. 1553.

Vij Christiann etc. giôre alle witterliigtt. att oss elske-

lige Pouell Huittfeld. wor manndt. tienner och embitzmanndt paa wor gaardt Snedstrup. haffuer nu frann segh offuer-annttuordett inndt vdj wortt kammer heer paa wortt slott Kollinghus lxvj lôdte marck sôlff. som er j[m] lvj lodt sôlff. som hanndt paa wore wegnne haffuer vppeborett paa wortt lanndt Islanndt vdj thette aar. Thij lade wij forschreffne Pouell Huittfeldt och hanns arffuiinge quitt. frij. lediigh och lôes aff oss. wore arffuinge effterkomere konningere vdj Danmarck for forskreffne lxvj lodte marck sôlff vdj alle maade. efftersom forschreffuiitt staar. Datum vt supra.

Dominus rex manu propria subscripsit.

---

351. **13. nóvember 1553.** **á Heggsstöðum.**

Dómr, kvaddr af Jóni Jónssyni, sýslumanni í Þverárþingi sunnan Hvitár, dæmir Þorsteini Jónssyni að gjalda húsa- og jarðabætr í Ásgarði, er hann hafði vanrækt, og á ofan fullrétti eiganda jarðarinnar, Einari Eiríkssyni.

Skjalabók þjóðskjalasafnsins í fol. (frá Jóni Magnússyni), bl. 245, skr. ca. 1604 (= a). — Dómabók í eigu erfingja Árna landfógeta Thorsteinssonar (d. 1907), sem mestöll er skrifuð á árabilinu 1620—30 (= *b*); dómrinn er hér í heilu lagi, en ártal hefir upprunalega ekkert staðið í þessari uppskrift; síðar hefir Páll Pálsson ritað „1544“ inn í eyðuna, sem ætluð hefir verið fyrir ártalinu í öndverðu; er það ártal rangt, og hefir Páll blandað þessum dómi saman við dóm Jóns sýslumanns Jónssonar dæmdan á Heggsstöðum 5. febrúar 1544, sem er að vísu um jarðarábúð í óleyfi, en þó allt annar (Dipl. Isl. XI, 257). — Lbs. 788. 4to, bl. 188, skr. ca. 1640, og er dómrinn hér heill. Í öðrum en þessum þremur uppskriftum finnst dómr þessi nú varla heill, svo að honum sé ekki eitthvað vikið við eða styttr og úr lagi færðr. Hefir hér verið haft til hliðsjónar ÍB. 125 A og B, 4to., frá miðri 17. öld, og enn framar Ny kgl. Saml. 1945, 4to., m. h. Hannesar Gunnlaugssonar í Reykjarfirði 1666, og er dómrinn þar þó gallaðr, og á þrem stöðum í bókinni: bl. 161 a—b (rangt ártal 1583), bl. 212 (örstutt ágrip, en rétt ártal 1553) og bl. 384 (rangt ártal 1563). — Í enn fleiri ágripum er þessi dómr til, svo sem í dómasyrpu Jóns dans frá ca. 1640 í Lbs. 65, 4to., í tvennu lagi, á öðrum staðnum með réttu ártali 1553 (I, 63), en á hinum (II, 135) árlalslaus; Lbs, 66, 4to., bl. 151, með réttu ártali (1553), skr. ca. 1664; Ny kgl. saml. 1947, 4to., bl. 65v, skr. ca. 1660 (rétt ártal 1553); Lbs. 6, fol. bl. 269, skr. ca. 1670 (rétt ártal 1553); Lbs. 68. 4to , bl. 182, skr. ca. 1690; ÍB. 231., 8vo.

bl. 81 (rangt ártal 1559); Lbs. 100, 4to., bl. 169 (ónýtt ágrip, en ártal rétt 1553). — Uppskrift Jóns þjóðskjalavarðar Þorkelssonar er í þjóðskjalasafni.

Domur vm jardar abud og husbrot.

Þad Giorum wier Stulli Jonsson. Gudmundur Ellendsson[1]). Þordur Gudmundsson. Steirn[2]) Eiolfsson. Jon Jonsson og Eiolfur Jonsson Godum monnum kunnigt med þessu woru opnu Brefi ad[3]) ꜳrum [effter Gudz burd[4]) 1553 manudaginn næstañ[5]) a epter Marteinsmesso a Hegstǫdum j Borgarfirde ꜳ þijngstad riettum worum wier j dom nefnder af heidarligum dandismanni Joni Bonda Jonssyne er þꜳ hafde kongsinz syslu og vmhod j Þuerꜳrþijnge [fyrer sunnan[6]) Huijtꜳ[7]) til ad skoda og rannsaka og fullnadar dom[8]) ꜳ ad leggia vm þꜳ akiæru er Einar Eireksson klagadi þar[9]) til Þorsteins[10]) Jonssonar er þar lagdi sig þæ vnder lǫg.

J fyrstu[11]) klagadi Einar þad til Þorsteins ad hann hefdi ecki lǫgligt abyli weijtt[12]) ꜳ sinni jǫrdu Asgardi. j þui hann hefdi ecke giǫrt þar[13]) neina[14]) leiglendings Bot. og þad annad ad hann hefdi fellt þar af[15]) iij hus a medan hann Biő þar. þad þridia ad[16]) hann hefdi ecki vnnid þar eingiar sem honum Bar. Þad fiorda[17]) ad hann hefdi hǫgguid þar[18]) leyfislaust j skogi sijnum. Þotti oss Þorsteinn ǫngua lǫglega afbatan hafa fyrir þessum sǫkum. Stendur so j [laugunum[19]). Nu skal hann husum vppi hallda þeim sem woru a jǫrdu þꜳ hann kom til jardar. Jtem ad leigulide skal hlada fadms saman[20]) langan vegg [ꜳ are huoriu[21]) edur leingra [effter þaurff[21]). Enn allt þad[22]) sem husbrot nemur [leggie ꜳ[23]) mork. halfa kongi enn landzdrottni halfa. og giǫri hus jafngod epter[24]) sem ædur. Þui [j gudz nafne[25])

1) Erlingsson 1945 b (rangt). 2) Sueirn 788, 1945 b. 3) b. v. 788; sl. *a*. 4) [*b*, 788; sl. *a*. 5) 788, *b*, 125 ab; sl. *a* o. fl. 6) leiðr. jnnañ. 7) [b; sl. hin. 8) domz atkuæde *b*, 788. 9) *b*, sl. hin. 10) *b*, 788, 125ab; Þorsteirn *a* (!). 11) [125 b bætir hér inn: logdu þesser menn sig til laga fyrir vorum dome. Þui dæmdum vier vnderlægit loglegt. 12) haft 125 b; sl. *b*. 13) *b*, 788; sl. *a* o. fl. 14) loglega b. v. 125 b. 15) *b*, 125 ab; jnn 788; sl. *a*. 16) b. v. 125 b. 17) 788; 125; iij *b*; 4. *a*. 18) sl. b, 125. 19) [land laga Bokinne 125 a; logmalenu 788. 20) *a*; sl. hin. 21) [b. v. 788. 22) b. v. 788, 125. 23) [bæti 125 b. 24) sl. b, 788, 125. 25) [b. v. 125 b.

ad so profudu og fyrir oss komnu dæmdum wier firrnefnder domzmenn med fullu domz atkuædi firrgreindañ mann Þorstein Jonsson skylldugañ ad tuigillda[1]) Einare Eirekssyne firer[2]) huðrn lðggardz fadm er hann hafdi ecke[3]) giðrt ȷ þau sie[4]) ǘár er hann Bið̋ þar. dæmdum wier þad xx alner fyrer huorn fadm. Jtem dæmdum wier fyrir husa nidurfall [halfa mork[5]) fyrir huort. og fullriette Einare[6]) a ofan [iiij merkur[7]). Enn ef hann hefdi sialfur nidur[8]) brotid husinn[9]) þæ dæmdum wier hann sekañ mork halfa kongi enn halfa greindum Einari [og fullriette med[10]). Enn þær saker sem fleiri eru[11]) gatu[12]) wier ecki ad giðrt [vegna naumz tijma[13])·

Samþyckte [þennañ vorn dom adurskriffadur kongz vm̄bodzmann[14]).

[Medkienni eg Þordur Gudmundsson ad eg hefi werit ȷ þessum firrskrifudum domi med ðdrum Godum monnum. til merkis er þetta mijn Eigin handskript.

Þordur Gudmundsson[15]).

---

352. 13. nóvember 1553. í Skriðu.

Umboðsbréf, er Magnús Jónsson og Elín Jónsdóttir, kona hans, veita Jóni Magnússyni til að gera lagakaup við Gunnar Gíslason og Guðrúnu Magnúsdóttur, konu hans, um jarðirnar Þórustaði á Svalbarðsströnd og Steðja í Hörgárdal.

AM. Apogr. 4567 „Ex originali Einars Jsleifssonar á Reykium“ m. h. Þórðar Þórðarsonar. — Uppskrift Jóns þjóðskjalavarðar Þorkelssonar er í þjóðskjalasafni.

Þath giorum vid Þorsteirn Sigurdsson. Þorkiel[16]) Semingson godum monnum kunigt med þesso ockro opno brefe

---

1) gialld *b*, 788, 125. 2) b. v. b, 788, 125. 3) 788, b; eij 125; eiei(!) *a*. 4) 125 b; 7, *b*, 788. *a*, 125 a 5) *b*, 125; ȷ mork 788; halfmork *a*. 6) *b*; Einars 125; sl. *a*, 788. 7) [*b*; iij merkur *a*, 125. 8) offañ 788. 9) b. v. 788 10) [b. v. 788. 11) voru 788, 125. 12) gatum *b*, 788, 125. 13) [b. v. *b*, 125. 14) [b. v. *b*. 15) [*a*, og er þó undirskriftin með öðru bleki. — Í *b* hljóðar þetta svo: „Þennañ dom hefur Þordur Gudmundzson samþickt ad nýu þegar hann var ordinn Logmadur“. En í ÍB. 231, 8vo, er klausan svona: „Þesse Doomur var sijdan lðgtekenn og stadfestur af Þorde logmanne 1569“. 16) Svo.

arum epter Gudz burd M. D. L. og iij. a manodagin næstan epter Marteinsmesso wm weturinn j Skridu j Reykiadal worum wier j hia saum og heyrdum a ord og handsol þessara manna Jons Magnussonar og Magnusar Jonsonar og hans kuinno Elinar Jonsdőttur ath svo fyrir skildo at Magnus og Elin gafu Jone Magnussyne fullt lagaumbod thil at giőra fullnadar lagakaup wid heidarligan mann Gunnar Gislason og hans kvinno Gudruno Magnusdottur sem er um jardernar Þorustadi a Svalbardzstrőnd og Stedia j Horgardal. og jardernar Mannskapshől og Myrarkoth woru fyrir komnar epter þui kaupbrefe sem biskup Jon og Jon Magnusson hőfdu hier um adur lagakaup a giőrt. suo og hafdi æruverdugur herra biskup Olafur þetta kaup samþyckt og stadfest med sino innsigludo brefe. skyllde Magnus svara lagariptingum a Mannskapshőle enn Gunnar a Þőrustődum og hvorir hallda til laga er keypti. skylldi þetta standa őbrigdanliga fyrir Magnusi og Elino og þeirra erfingium og epterkomendum. Og til sannenda hier um setium vid greinder menn ockur jnsigle fyrir þetta bref skrifat j sama stad deigi og ari sem fyrr seiger.

---

## 353. 14. nóvember 1553. í Hrauni.

Kaupbréf Jóns bónda Ólafssonar að Guðmundi Guðmundssyni og Sigríði Jónsdóttur, konu hans, fyrir því, er þau ætti eða mætti eiga í Hjarðardölunum báðum í Dýrafirði.

AM. Fasc. LIII, 15, frumrit á skinni. Öll innsiglin eru dottin frá. — AM. Apogr. 4564 m. h. Árna Magnússonar eftir frumritinu: „Brefed hefur ätt sira Torfi Jonsson i Gaulveriabæ. Eg a þad nu sialfur“ (AM). — Uppskrift Jóns þjóðskjalavarðar Þorkelssonar er í þjóðskjalasafni.

Kaup fyrir nockrum hluta j Hiardardolum baadum j Dyrafyrde[1]).

Þat giorum vier Eysteirn prestur Þordarson. Jon diackne Þordarson. Magnus Sveinsson. Þorolfur Jonsson Godvm monnum kvnigt med þessv vorv optnv[2]) brefi at vier vorvm

1) Utan á bréfinu m. h. frá 17. öld. 2) Svo.

ȷ hia saum̃ og heyrdvm æ ord og handaband þessara man[n]a Jons bonda Olafssonar og Gudmundar Gudmunszsonar og Sigridar Jonsdottur kvinv hans. Þat faldizt og skildizt vnder þessv þeirra handabañdi at fyr greinder menn Gudmundur Gudmunszson og Sigridur Jonsdotter kona hans seldv adur greindum Jone bonda Olafsyne allt þat þav ætti edur mætte eiga ȷ iordvnvm Hiardardaulunvm badum er liggia ȷ Dyrafirde ȷ Myra kirk[i]v sokn. med aullv þvi sem þui[1]) fylger og fylt[1]) hefur at fornv og nyv sem þav mætte eigandi ad verda med lavgvm. so framt sem hvsfreyan Sigridur Biornsdotter villdi ecki kavpa þvi þav hefdi lofad hene fystri at kavpa ef hvn villdi et cetera. Svo og mætti Jon bondi Olafson rettliga at sier taka at næstvm fardaugvm. xc. ȷ Hiardardal envm stærra enn iiijc ȷ envm minna er þav þik[i]azt eiga. og þar rettligt laga vmbod yfer hafa til þess at Rettur lagavegur geingur æ þeirra vegna systra. War þetta bref og þessi giorningur giordur ȷ Hravne ȷ Dyrafirdi æ þri[di]vdagin næstan epter Marteinsmessu um veturinn þa lidit var fra gvds bvrd [.ꝏ.] vc. l. og iij ar.

---

## 354. 16. nóvember 1553. á Skinnastöðum.

Vitnisburðr Steinunnar Grimsdóttur um lýsing afa síns, Auðunar Sigurðssonar, á kaupi Þorsteins bónda Finnbogasonar á Héðinshöfða fyrir Hafralæk að Málfríði Jónsdóttur.

AM. 255, 4to., bls. 391—2. — Uppskrift Einars Þorkelssonar er í þjóðskjalasafni.

Witnissburdur Steinunar Grıȷmsdottur vm̃ kaup a Hiedinshoffda Þorsteins Fimbogasonar aff Malfrıȷdj Jonsdottur fyrer Haffralæk. 3 jnnsigle.

So felldan̄ vitnissburd ber eg Steinunn Grıȷmsdotter ad eg heirde Audun Sigurdsson affa minn heitenn þuij lysa fyrir sıȷnu heimafolke þa hann kom heim fra Hiedinshoffda vm̃ veturinn eptir Jonssdag. ad Þorsteirn bondi Fimbogasson. heffde keipt greinda jord Hiedinzhofda ad Malfrıȷde Jonsdottur til fullrar Eignar. En̄ hann hefdi þar j mote gieffed

1) Svo.

jordena Haffralæk. og þar til penijnga sem til kiæmj. og henni vel lijkadj. og hier epter vil eg sueria eff þurffa þiker.

Þad giðrum vier Þorarenn prestur Sigmundsson. Pall Þorsteinsson. Hallvardur Olaffsson. gödum mønnum kunnugt med þessu voru opnu brieffe. ad vier vorum þar j hia og heirdum ǎ. ad Steinunn Grijmsdotter bar suofelldañ vitnissburd sem hier fyrer skriffad stendur. Ok til sanenda hier vm setium vier vor jnsigle fyrer þetta vitnissburdar brieft. skriffad a Skinastødum fimtudægenn næstañ epter Marteinsmessu. arum epter guds burd ꝏ. d. l og iij.

(L. S.) (L. S.) (L. S.)

---

355. **17. december 1553.** **á Meli.**

Minnisgrein síra Gottskálks Jónssonar um lúkning til síra Bjarnar Gíslasonar og virðing á graðungi, er í óskilum var á Meli.

Add. British Museum 11, 242 (FM. 206), bl. 29 r. — Uppskrift Jóns þjóðskjalavarðar Þorkelssonar er í þjóðskjalassfni.

ꝏ. d. l. iij gallt ec sera Birne Gislasyne. v. kugilldi en hann f. . . .

Þad medkennunzt ec Einar Gislason. Einar Gilbriksson Þ. . . . . Þorvarzson. Ketil Gislason. Steinolfur Tvmason. sunnu[daginn næstan] firir langhelgar vm veturen a Melstad j Midfirde vorum [vier tilnefnder] af sera Gothskalc at virda gran gradung er þar [var] sidan Mariumesso fyrri j ongu leyfi. var þetta mark a h[onum] styft ed uinstra heilrifad et hægra oc gab j. [gerdum vier] þad fyrir fimtan alner oc xx. arum epter gudz burd ꝏ. d. [l. iij].

---

356. **1553.**

Minnisgrein síra Gottskálks Jónssonar um skuldaskipti sín.

Add. British Museum 11, 242 (FM. 206) bl. 28 r. — Uppskrift Jóns þjóðskjalavarðar Þorkelssonar er í þjóðskjalasafni.

m. d. l. iij. æ Joacim Scefil hia mier [ij vætter alsvmarz[1]) en goll[dit].

Datum m. d. l. iij. a Jon Gunlaugzson hia [mier] . . . þessi kugilldi j byggingu.

hia Boduare vj ær.
hia sira Ellendi . . . . . .
hia Gudmundi Skulasyni ij kugilldi.
hia Biarna Þoruallzsyni . . . . .
[hia] Olafi Þorsteinssyni iij ær.
hia Sæmundi kugilldi.
sira Stulla . . . . . . .
hia sera Ellendi iiij uetra naut oc iij uett oc ij uett.
[æ] Holi iij uett.
a Horgholi veturgamallt en iiij hier.
asaudur heima lxxxij
en uon æ gomlum gelldum saudum . . . vj med . . . tuæ . . . . . .
lomb æ fialle. Lx. oc ij med lambi Gudrunar.
j Krossnes xiiij vætter [j] haust uon.

---

## 357. 1553.

Minnisgrein sira Gottskálks Jónssonar um gjaldheimtur sínar nokkurar.

Add. British Museum 11, 202 (FM. 206), bl. 28 r. Blaðið skemmt. — Uppskrift Jóns þjóðskjalavarðar Þorkelssonar er í þjóðskjalasafni.

m. d. l. iij

kom fra Hryggium um haustid ij kyr afgamlar. a ec j Krosnesi uon . . . . . . . . half . . . . . . . .

---

## 358, 1553.

Byggingarbréf sira Gottskálks Jónssonar fyrir Ey (Ytri-Ey) á Skagaströnd.

Add. British Museum 11, 242 (FM. 206) bl. 28 v. — Uppskrift Jóns þjóðskjalavarðar Þorkelssonar er í þjóðskjalasafni.

---

1) [strikað út aftr.

ꝏ. d. l. iij.

[By]gt Guendi Ey j þriu ar. ef ec þyrfti ecki sialfur fyrri æ at hallda eda væri ecki selld. firir kugilldi oc iij vætter fiska oc iij ær med lombum ne[ma] hann [geti] ecki j fiski oc xx alner þar til j soluum eda eggium oc suara ollum tiundum . . . . . eins oc . . . .

---

359. 1553.

Minnisgrein sira Gottskálks Jónssonar um fénað sinn nokkurn.

Add. British Museum 11, 242 (FM. 206) bl. 29 r. Blaðið skemmt. — Uppskrift Jóns þjóðskjalavarðar Þorkelssonar er í þjóðskjalasafni.

ꝏ. d. l. iij.

[J] fardogum xx. oc vj tuæuetrer med fimm hrutum . . . . . . . feck mier en vj firir nord[an] . . . xij þrevetrer oc einn þar j iiij uetra.

iiij vetra gamallt naut j Vik oc .ij. kuigur er Herdis a enn hier iij . iij . . . . . iij . tvævetr tarfr j Ase oc kalfr. tarfr æ v. . . astodum.

xiij veturgamler hier æ bæum oc heima. en xij j Uik. vj. j Ualadal . vij. j Stafn[i].

at frafærv.

asaudr lxxx oc vij med gelldum oc mylkum æ fialli lomb. xl. viij.

---

360. 1553.

Minnisgrein sira Gottskálks Jónssonar um leigupening nokkurn.

Add. British Museum 11, 242 (FM. 206) bl. 30 r. Blaðið er mjög skemmt. — Uppskrift Jóns þjóðskjalavarðar Þorkelssonar er í þjóðskjalasafni.

J fridvm peningvm . vj. kugilldi . iiij klarar er . . . . . . . . enz þridia hundradz . ij navt ta . . . . . . . . gomvl . xviij sauder veturgamler iij sa[uder] . . . tvævetrer.

ꝏ. d. l. iij. ar þa ec skiladi s . . . . . [var] med jordum xix kugilldi en fiogur heima. þrir klarar en hann gaf .

....... fiorer oc xx ueturgamler sauder . iiij elldri. iij naut tu[ævetur] sama busgagn oc annat sem ec med tok. Svo ornamentum kirkiu[nnar] en ec gallt j porcio kalek er uo nær iiij aura oc xvj alner vadmalz.

---

## 361. 1553.

Kirkjureikningr og máldagi Hóla (Hrepphóla) í Eystra-Hrepp, er síra Einar Ólafsson tók við eftir síra Guðmund Jónsson.

AM. 66a, 8vo., bl. 9 r, m. h. síra Jóns Egilssonar annálaritara (1592). — AM. 262, 4to., bls. 5, skr. ca. 1600. — Uppskrift Jóns þjóðskjalavarðar Þorkelssonar er í þjóðskjalasafni.

Þrettandi maldagi.

Anno domini 1553 uoru[1]) so micler peningar j Hoolum þa sijra Einar Olafsson medtoc. eptter sijra Gudmund heitinn Jonsson. kyr. xu. lx. asaudar. iiij hestar[2]). og ij hross. vij fiordunga k[etill] bættur. ij. tueggia tunna kier. annad med iij giordum. vj trog. v. [kerolld. gamall[3]) strockur. ein tinkanna[4]). uondur bedur. hægindi. huiluuod.

uar kirckian giord fyrir vijc.

Jtem a hun ij silfurkaleka. ein messoklædi. einn hokull. cantarakapu. jarnkall brakadur. bækur margar og miog rotnar. þar med uond kista. ij altarisklædi. gloarker[5]). ij k[luckur] og ein bialla.

uar stadurinn giordur fyrir xijc.

---

## 361—370. 1553.

Máldagar nokkurra kirkna í Hólabyskupsdæmi við yfirreið Ólafs byskups Hjaltasonar.

Vísitazíu- og máldagabók Ólafs byskups Hjaltasonar í þjóðskjalasafni, frumrit á pappír (= OH.). Endrrit eru í skjalauppskriftum Árna Magnússonar (AM. Apogr.), sem greind verða við hvern stað. Allir þessir máldagar munu vera úr yfirreið byskups 1553, enda er ártalið greint við suma þeirra.

---

1) sl. 262. 2) 262; hesta 66. 3) [kerolld gom[ul]. 66. 4) 262; tunkanna 66. 5) Svo bæði.

## 362. Bægisá.

OH. bls. 44. — AM, Apogr, 219 (JGrv. „31").

Þa sijra Gudmundur giordi reikningskap á Bægisá skrifadist datum ꝏ d l og iij.

Jtem Bægisá eins prests skylld.

Þetta j kuikfie iiij kugillde.

hafdi fallid vm viij ær iiijc tekin þar fyrer j stadarbot

Jtem ij Historiu Bækur. aunnur vm sumar enn aunnur vm wetur. og Sequentiubock fyrer ijc.

War þa kuittur hennar reikningskapur. medan sijra Guondur hafdi halldit.

## 363. Sauðanes.

OH. bls. 23. — AM. Apogr. 19 (JGrv.; „15"); „hǫnd Hr. Olafs Hialltasonar" (AM.).

1553.

Kirk[i]a a Saudanese beneficium. ij presta skylld.

Þetta innan kirk[i]u messoklædi alfær vond og eirn hǫkull. altare med buninge. kalekur brotin og illa farin. J bokum grallare lasin og sequentiobok. messobok syngiandi. med collectum. pistlum og Gudzspiollum fra jolafostu til ix vikna fostu. kyriall. Aspiciensbok syngiandi til passionem. messobok syngiandi fra passionem til pascha. psaltare.

Þetta j jordum. Lon xc. c leiga. Eldjarnstader viijc. iiij agilldi. halft Brimnes ijc.

J kuikfee viiȷ kugillde. c. j gelldfee.

Var sira Mýkel skylldugur kirk[i]une iijc j portionem. hafdi hrest at kirk[i]une til xv aura. Er hann nu skylldugur kirk[i]une vm ijc og v aura betur. fallid j ix ar j portionem ijc og v aurar betur.

## 364. Hafrafellstunga.

OH. bls. 22. — AM. Apogr. 18 (JGrv.; „13—14"); „med hendi Hr. Olafs Hialltasonar" (AM.).

Kirk[i]an i Hafrafellstungu.

Þetta innan kirk[i]u. messoklæde og litin kalek vm ij dale. bokaskrædur litlu nytar.

Þetta i kvikfe. xii kugillde. vij^c i gelldfe. hundradzhest. Jtem lagde bondin kirk[i]une hier til hokul fyrer vj^c og lofade þar til serk. hofudline. stolu og handline fyrer ij^c og þar til skyllde kirk[i]an hafa merkurkalek fyrer iiij^c. er þa kuittur allur forn og nyr reikningskapur. og garduren kuittur. frials og frii bonda eign þui kirk[i]an hefer fullar og allar sinar skylldur. er þa hennar lausafie xx^c. sem obrigdanliga skulu standa fyrer biskupe og preste hiedan i fra. og kirk[i]an sie sæmiliga halldin.

---

## 365. Svalbarð í Þistilsfirði.

OH. bls. 22. — AM. Apogr. 18.

Kirk[i]an a Sualbarde beneficium. ȷ kuikfee hest fyrer c. ȷ gelld[fie] c.

---

## 366. Presthólar.

OH. bls. 23–4. — AM. Apogr. 20 (JGrv.; „16"); „hönd Hr. Olafs Hialltasonar" (AM.).

Kirk[i]a i Prestholum.

Þetta innan kirk[i]u ij messoklæde alfær og þar til hokull godur. sloppur og kapa. eitt aklæde. ij glitader dukar. alltare med tuennum bunade. eitt handklæde. ȷarnkall. metaskaler. vax lx merkur. stor kista. ein klucka ny. og onnur brakud. bokaskrædur fanytar.

Þetta i kuikfe. x kugillde. u^c i gelldfee og. c. i smiore.

Þetta innan gatta ȷ elldzgognum virdt til ij^c. ein sæng dunliett med hæginde og einne re[c]kiuvod. ij fornar sængur med ii fornum reckiuvodum [og] hægindum. eitt aklæde nytt og annat slitid. sængarleppur med reckiuvod og hæginde. ij reflar vonder. ij storkerulld forn. virdt fyrer xij aura. trog virdt fyrer xij aura. xij smakerulld og vj fotur. strockur onytur. allt virt fyrir mork. bordbunadur. xij föt. vj god og vj vond. flote med xij skalum. og atta spæner. dryckiar askur. x skerbord. ij lasar. vlldukur. reidzla. ij munnlaugar. og ein sundur hin þridia. ij oxar. liar. hardsteinn og vondur pall.

hafde fallid vm xx ar. ıxc. ȷ portionem. var þat kuittad [vid sira Ketil Jonsson sem stadin hiellt fyrer kirk[i]uvppgiord og þar vppa lofat hǫnum[1]) kuittan[2]).

---

## 367. Ás í Kelduhverfi.

OH. bl. 24—5. — AM. Apogr. 22 (JGrv. „18"); „med hendi Hr. Olafs Hialltasonar".

Kirk[i]an ȷ Ase bondaeigñ.

Þetta innan kirk[i]u. messoklæde forn. silkehokull og annar steindur. kalekur litil[l] forn. historiebok de sanctis fra Johannis og Pauli og til adventu. onnur de tempore fra lxxe til paska. messubokar skræda. aspiciensbok til paska. sequentio skræda og psaltara skræda. iiij skrædur med grallara vondum. Jtem grallare. þo liettur. Jtem vard kirk[i]u vppgiordin virdt fyrer xijc. golldin kalekur merkur fyrer iiijc. messobok ny fyrer iijc og ij koparhialmar fyrer. c. lofat at giora korin ȷafñan vid kirk[i]una og þar til skyllde kirk[i]an eiga xxc ȷ kuikfe sem æfenliga stande hier epter oskert fyrer biskupe og preste. giordu þennan reikningskap. kirk[i]u vppgiord og allt peninga·gialld Þorstein[n] bonde Finbogason og hans sonur Vigfus bondi Þorsteinsson. og vrdu þeir kuitter og frialser vm allan fornan og nyan reikningskap kirk[i]unar ȷ Ase. og þar med gafum vier gardin frii og frialsan. og allan gardin vera hier epter þeirra obrigdiliga eign og þeirra erfingia.

---

## 368. Garðr í Kelduhverfi.

OH. bls. 21. — AM. Apogr. 17 (JGrv. „12"); „hǫnd Hr. Olafs Hialltasonar" (AM.).

---

1) sl. *b* (sbr. næstu aths.). 2) [efst bæði á bls. 24 og 26 (=*b*). A bls. 24 stendr „anno 1555", en það ártal ætlar Árni eiga við Skinnastaði, sem koma þar næst fyrir neðan, enda má telja það auðsætt af frumritinu sjálfu; hefir þar í fyrstu verið hlaupið yfir eina opnu, byskup séð það eftir á og ritað þá af nýju niðrlagið, og því er það á tveim stöðum.

gaf optnefndr Eigill Jonsson Gvdrvnv kvinnu sinne lxc jord er heiter Seyla j tilgiof oc fiordvngzgiof oc xxc jord j morgvngiof þar næsta er heiter Groargil med þeim skilmala at þessar jarder skylldi vera ævenlig eign Gvdrvnar Þorleifzdotter oc hennar erfingia epter hana. Skylldi adr nefndur Eigill eiga enn besta grip vr hennar eigu ef hann lifde hana leingr. Skillde optnefndr herra Torleifr logman Gvdrvnu dottur sina malakonu j gard Eigilz Jonzsonar [oc þar] med festi Eigill Jonsson Gvdrvnv Torleifzdotter sier til logligrar [eigi]n kvinnu med þeim bokarinar ordum sem þar til heyra. Woru [þessir b]rvdlavpzvottar. Þordr Olafzson. Magnus Þordarson. Biarne Ha . . . . . [H]allr Avgmundzson prestar Schalholltz biskupsdæmiz. Þormodur Ara[son . . . . . .]narson. Gisle Jonsson. Sigvrdr Odzson. Are Jonsson. mo[rgum go]dum monnum næruerundum. oc til meire stadfestu og aud[syningar hier] um setum uier vor jncigle firir þetta kaupmalabref er [skrifat var] æ Skarde j Langadal einne nott epter Olafzmesso [hina . . . . æ sama] are sem fyr seiger.

---

## 478. 17. júlí 1554. í Húsavík.

Þorsteinn Finnbogason kvittar Jón bónda Magnússon um öll kaup og skipti þeirra í millum, að tilgreindum hluta í Svalbarði á Eyjafjarðarströnd, en Jón hafi fengið honum þar fyrir Grímsstaði við Mývatn.

AM. Apogr. 193 „Ex originali Svalbardenesi". Innsiglið var fyrir bréfinu (uppskrift Jóns þjóðskjalavarðar Þorkelssonar er í þjóðskjalasafni).

Þath giore ec Þorsteinn Finnbogason Godum monnum vitanligt med þessu minu opnu brefi ath ec gef Jon bonda Magnusson kuittan og ǽiæruIausañ vm aull þau kaup edur skipte sem vid hôfum til samans haft med tilæeiknudum jardarpǻrte sem ec hefi feingit honum j jordinne Sualbardi æ Eyiafiardarstrond. hier j mote hefur hann feingit mier Grimsstǻdi vid Myvǻtn er liggur j Reykiahlidar kirkiu sokn. Og til sanninda hier vm set ec mitt jnsigli fyrir þetta bref skrif-

at ȷ Husauik þridiudaginn nestan fyrir Thorlacz dåg arum epter guds burd ↀ. D. L. og iiij.

---

479 22. júlí 1554. á Grenjaðarstöðum.

Vitnisburðr Þórðar Pétrssonar, að síra Jón Filippusson hefði lýst því fyrir sér, að hann mætti eigi „upp á tala" Vetrliðastaði, er hann hafi fengið Jóni byskupi Arasyni.

AM. Apogr. 4595 „Ur transscripto giördu laugardag næstan epter dyradag. 1555. Þær tvær differentiæ in margine eru teknar ur transscripto ýfer mörg Veturlidastadabref, giordu 1595" (uppskrift Jóns þjóðskjalavarðar Þorkelssonar er í þjóðskjalasafni).

Um Veturlidastade.

Þat giore ec Þordur Pietursson godum monnum kunniktt med þersu minu opnu brefe. at þå lidit var fra guds burd ↀc dc fioretiger og niu ær ȷ Micklagarde um haustid. þæ ec fann biskup Jon heiten. og sira Jon Filpusson. þar talade ec uid adurnefndan sira Jon um hans peninga og þær jarder sem hann hafde ått. og þå ȷ burtt feingit ok sierdeiles um jordena Ueturlidastade ȷ Hnioskadal. spurde ec hann huortt hann hefde peninga upp fyrir borid edur eige. Edur huðrtt hann edur hans arfar mætte upp å tala. En nefndur sira Jon Filpusson gaf mier þad svar. at hann sagdist þar upp æ eige tala meiga þui biskup Jon hefde sier martt uel til gertt bædi ȷ hægum reikningsskap um þau vaulld og storf sem hann hefde[1]) af honum haftt. ok so margar kvader sem hann gertt hefde[1]) fyrir sig og Þorgerde þionustukonu sina. Þui sagdest hann þar eige meiga upp æ tala. mæ eg hier eptter sveria ef þaurf krefur. Ok til sanninda hier um set ec mitt ȷncigle fyrir þetta bref er gertt uar a Greniadarstodum sunnudagenn næstan fyrir Jåkobbi. anno domini ↀ dc l og iiij.

---

1) hafde (transskr. 1595).

**480.** **22. júlí 1554.** **á Nauteyri.**

Jón Steinsson vitnar, að hann hafi aldrei heyrt Björn Guðnason geta annarra meina í milli Þorleifs Björnssonar og Ingveldar Helgadóttur en fjórmenningsmeina.

AM. Apogr. 1006 „Ex originali Sæmundar Magnússonar á Holi j Bolungarvík“ m. h. Styrs Þorvaldssonar, og var innsiglið þá fyrir bréfinu. (Uppskrift Einars Þorkelssonar er í þjóðskjalasafni).

Suo felldan vitnisburd [ber] eg Jon Steinsson ath eg er nu siotijgi ara gamall. Suo og war eg madur Biarnar heitins Gudnasonar j xx. ar war eg opt sinnis a þeim þingum er Biorn Gudnason þingadi um taladi og uppa kiærdi peninga Biarnar heitins Þorlefssonar. heÿrdi eg alldrej j fÿrgreindum tíjma Biorn Gudnason annara meina gieta millum Þorleifs Biornssonar og Ingvelldar Helgadottur enn fiőrmennings meina og aldrei vissi eg oftnefndan Biorn Gudnason aunnur mein frammi hafa vid Biorn Þorleijfsson medan þeir lifdu bæder Biorn Gudnason og hann. Suo og hef ec aldreij heÿrt annara meina gietid j mína lijfs tijd millum fyrrsagdra manna Þorleifs og Inguelldar enn fiormennings meina fyr enn nu fyrir fæm ærum xij edur þrettan. og hier efter vil eg sueria ef þurfa þiker. Og thil sanninda hier um set eg mitt innsigli fyrir þetta brief er skrifad var á Nauteyri i Jsafirdi Sunnudaginn næstan fyrir Jakobsmesso wm sumarid arum efter Gudz burd m. d. l iiij.

---

**481.** **3. ágúst 1554.** **á Helgastöðum.**

Sjöttardómr á héraðsþingi, kvaddr af Páli Jónssyni, er þá hafði „sýsluna í Þingeyjarþingi“, dæmir síra Halldóri Benediktssyni jörðina Einarsstaði í Kræklingahlíð og fullrétti fyrir ólöglega aðtekt Brynjólfs Jónssonar á þeirri jörðu, en konungi fjórar merkr.

AM. Apogr. 4589 „Ex orig. Sigurdar Einarssonar (Biskups.) 7 innsigle eru under brefenu. Eckert af þeim er Påls Jonssonar, enn Starkadar Valtirssonar hanger tvisvar þar under, ultimis locis“ (uppskrift Jóns þjóðskjalavarðar Þorkelssonar er í þjóðskjalasafni).

Þeim godum maunnum sem þetta bref sia eda heyra senda Jon Magnusson. Tumas Asmundsson. Biarni Benidick[t]sson. Þorlakur Asmundsson. Arnfinnur Simunarson. Starkadur Waltirsson. Quediu Guds og sina. kunegt giorande ad þa er lidit var fra Guds burd ꝏ. d. l. og iiij. á faustudaginn næstan epter Olafsmesso ena fyre[1]) á Helgastodum i Reykiadal áá almenniligu hieradsþinge vorum vier til doms nefnder af heidarligum dande sueine Pale Jonssyne sem þa hafde sysluna j Þijngeyarþinge at skoda og rannsaka oc fullnadardoms atkuædi á at leggia vm þa akiæru er presturinn Sera Halldor Benedicktson klagade oc kiærde til Bryniolfs Jonssonar. J fyrstu at hann villde skiota sier vndan logum epter þvi at fyrnefndur syslumadur Pall Jonsson liet honum ádur logliga til seigia. at hann skyllde koma j adurgreindan stad og dag med oll sin bref oc skilrike. oc hins annars at fyrnefndur Bryniolfur Jonson hafde lagt sig oc sitt mál vnder log vid þrattnefndañ Sera Halldor. at næsta þinge sem være áá Helgastodum. oc fyrskrifadar Greiner. Stefnde sera Halldor Bryniolfe Jonsyne þar strax á þinginu oc oss fyrirskrifudum monnum hiaverendis fyrir þá sok at optnefndur Bryniolfur hefde rofit oc brotid sitt eigit bref oc dandemanna dom oc logmans wrskurd sem greindur Sera Halldor hafde fyrir jordunne Einarsstodum er liggur j Kræklingahlid. Somuleidis vm þau logved sem hann þottest eiga i allre annare fasta eign[2]) Bryniolfs Jonssonar. oc fyrir þessar adurskrifadar saker beidist Sera Halldor doms á adursogdu male oc fyrir oss kom[n]u. dæmdum vier adurnefnder domsmenn med fullu doms atkuæde stefnuna laugliga oc fyrsagdan Bryniolf Jonson logliga fyrir kalladañ oc þad bref. Suo oc þann dande manna dom oc logmans wrskurd sem presturinn Sera Halldor liet þar vpp lesa myndug oc skialeg j ollum sinum Greinum oc Articulis oc obrigdeliga halldast eiga ad logum oc jordina Einarstade eign Siera Halldors Benedicktsonar epter fyrsogdum brefum. Enn Bryniolfe Jonssyne. xlc. af þeim peningum sem vier reiknudum þar á þinginu oc hann var skylldugur at ordinn Sera Halldore Bene-

1) þ. e. 3. ág. á Ólafsmessu síðari. 2) eigin, hdr.

dicktsyne. reiknadiz þad at vera xlvc. Enn Sera Halldore dæmdum vier laga abata á þeim vc. sem vm̄fram̄ voru og afgeingu adurskrifudum xlc. enn fyrir þad at Bryniolfur Jonson hafde ologliga at sier tekit ȷordina Einarstade fra þui er domurinn var áfallinn. og logmans vrskurdur. þa dæmdum vier Sera Halldore fullrette enn konginum iiij merkur enn sera Halldor eiga logved i ollum ȷordum Bryniolfs. enn Bryniolfe fulla aura fyrir sina fasta eign þa hann villde selia sinar ȷarder epter þui sem Bok seiger. oll þau kaup omýndug upp fra þui er siera Halldor atte logved i hans peninga þau meire væri enn fimm hundrut sem þeirra Giorningsbref vtvisar.

Sam[þykkti] þennan̄ vorn dom adur nefndur syslumadur og setti sitt ȷncigle med vorum ȷnsiglum fyrir þetta domsbref. skrifad sio nottum sıȷdar enn fyr seiger[1]).

---

## 482. 8. ágúst 1554. í Spjaldhaga.

Tylftardómr, kvaddr af Oddi lögmanni Gottskálkssyni, dæmir síra Torfa Jónssyni ráðspjöll dóttur sinnar, Arnfríðar, er síra Oddr Þorsteinsson hafði lokkað til saurlífis, þótt hún væri í ómegð, og að af síra Oddi skyldu skorin bæði eyrun, ef hann gyldi eigi ráðspjöllin, en útlægr úr Norðlendingafjórðungi alla ævi, „og þar með af honum höndina hægri í kongssökina, nema þeir vili meiri miskunn á gera, er refsingunni eiga að ráða að lögum“.

Dómabók þjóðskjalasafnsins í fol. (fyrrum í eigu Jóns dómstjóra Pétrssonar) bl. 142—3, skr. ca. 1600 (= *a*). — Lbs. 63, 4to., bl. 343—5, skr. ca. 1640. — Thottssafn 595, 8vo., skr. ca. 1680. — Lbs. 115, 4to., I, 123—5, m. h. síra Jóns Halldórssonar ca. 1720—30. — Steph. 60, 4to., bls. 41—3 m. h. síra Eyjólfs á Völlum (d. 1745) (uppskrift Jóns Sigurðssonar þar af í JS. 372, 4to., bls. 369—72). — Ónýt ágrip eru og til af dómi þessum. (Uppskrift Jóns þjóðskjalavarðar Þorkelssonar er í þjóðskjalasafni).

Domur wm Sera Odd Þorsteinsson. [hann lockade stulcku til saurlijfis sem var ȷ omegd[2]).

Aullum Maunnum sem þetta Bref sia edur heyra senda[3])

1) þ. e. 10. ág. 2) [b. v. 63. 3) sendum vier.

Jon Magnusson[1]). Grijmur Þorleifsson. Gunnar Gijslason. Einar Bryniolfsson. Þorbergur Bessason. Jon Einarsson[2]). Þorsteinn Tumasarson[3]). Hallur Eigilsson. Gudmundur Nichulasson. Teitur Magnusson. Asgrimur Jonsson. Oddur Halldorsson q[uediu] Gudz og sina[4]) kunnugt giaurandi at þa lidit var fra gudz burd ꝏ. D. L. iiij a miduijkudaginn næztañ fyrir Laurentij[5]) vm sumarid j Spialldhaga j Eÿiafijrdi [a þriggia hreppa þijngi riettu[6]) at skipan og skickan forlagi oc fyrirsaugn Knuts Steinssonar hirdstiora og Bijfalningsmanns ÿfer allt Jsland worum vier j dom nefnder af heidarligum manne Oddi Gottschalkssyne laugmanne nordan oc ueztan a Jslandi til at skoda og ransaka og fullnadardoms atkuædi a at leggia vm̃ þa akiæru er Halldor Þorlacksson j laugligu vmbodi Sera Torfa Jonssonar [fram̃ bar og[7]) klagadi til sira Oddz Þorsteinssonar at hann hefdi suikit [sinn hvsbonda[7]) nefndañ sera Torfa j riettri tru og lockad hanz omaga til samlagz vid sig med sijnum[8]) konztrum og gaulldrum[9]) epter þui sem þær galldrabækur innehielldu er fundizt haufdu[10]) j [hanz geÿmslu[11]). Nu sakier þess at suo stendur j vorre landzlagabok at allar þær meÿiar og konur sem menn vilia rækt a leggia og verda þær legnar. þa skulu þad dæma xij skynsamer menn bædi riett og radspiaull epter þui sem þeir sia at hinn sie vel sæmdur af er riettinn a ad taka ad laugum. Suo og sannprofadizt þar fyrir oss at greindur sera Torfi fader sagdrar[12]) Arnfrijdar hafdi arfleidt hana laugliga til tijutijgi hundrada epter sinn dag. Jtem j annari grein vijsar suo laugmalid at madur skuli taka half manngiaulld a dottur sinne slijk sem sa er madur til er konu la ef hann væri[13]). saklaus drepinn. Jtem j þridiu grein uottar suo laugmalid at þa menn sem til refsingar hafa giort skal a þijng færa og epter domi refsing a leggia. Þui j gudz nafni fyrir þessar greiner og þær fleiri er j laugmalinu stañda og hier ad hnijga dæmdum vier fyrr nefnder domsmenn med fullu

1) Marteinsson 115. 2) Eiriksson 595. 3) Thumasson 63, 115; Simonarson 595; eyða *i* 60. 4) 60, 115; vora *a*, 63, 595. 5) messu b. v. 115; dag b. v. 595. 6) sl. 63, 60, 115; [þingstad Riettum 595. 7) [b. v. 595. 8) b. v. 63, 60. 9) galdra verkan 595. 10) hafa 595. 11) [geymslu sera Oddz 595. 12) sl. 595. 13) þa b. v. 595.

doms atkuædi þratt skrifudum sera Torfa suo mickla peninga ȷ rđdspiaull epter þessa sijna dottur Arnfridi sem hann mætti[1]) gefa henni at laugum. Enn fyrir þui at laugmđlid seigier at sa skuli suara lagarefsingum sem ei hefur fie til. eñ [goder menn uissu at þratt nefndur[2]) sera Oddur hafdi[3]) vnnid odadaverk med þessari ungri[4]) stulku dæmdum vier at af honum skylldu skierazt bædi eýrun ef hann gilldi ecki rđdspiaullin [ad næstum fardǒgum[5]). Enn ȷ riettarfarit dæmdum vier margnefndum sera Torfa þau xx[c] er hann sagdi[6]) at Bondinn Þorzteinn Gudmundzson hefdi gefid [sýne sıȷnum til kuonarmundar[8]) og hann bondan skylldugan at greida hit firzta sal innan manadar [ad heyrdum Dominum[5]). enn alltt golldit at næztum fardaugum. Þar med dæmdum vær fiolnefndañ sera Odd Þorzteiñsson [ad logum[5]) utlægan af þessum fiordungi [landsins. sem er Nordlendingafiordungur vm[5]) alla sıȷna æfi og þar med af honum hendina hægri ȷ kongz saukina[9]) nema þeir vilie meiri myskunn a giaura er refsingunne eiga at rada at laugum. Saumuleidis dæmdum vier adurnefnda Arnfridi skýllduga at taka lausn og skrifter af biskupinum at domkirkiunne med vmsia kongz vmbodsmanns [[Þui þad finnzt ȷ laugmalinu skrifad ef omagi uinnur utlegdarverk þa sie hann hýddur af biskupinum. kona [firrist sokina[10]) ef hun er naudug leigin eda er omagi. Eñ þad stendur huorgi at kongur eigi a omagaverkum. Þui aunguan a kongur riett a þeim sem ei a sialfur a sier[11]).

Samþýckti þennañ vorn dom adur skrifadur Oddur Laugmann[12]).

[Epttir þennañ dom geinginn fieck Sera Oddur Þorsteinsson kuittunarbref af Knvte Steıȷnssyni sem þa var hǒfudzmadur yfir Jslañde[13]).

---

483. **8. ágúst 1554.** **á Grund**

Vitnisburðr Brynjólfs Jónssonar, að hann hafi aldrei heyrt

1) mätte 595. 2) [oss synist suo at ădurtiedur 595. 3) hafe 595. 4) ungu 63, 60, 595. 5) [b. v. 595. 6) segir 595. 7) b. v. 595. 8) [sier 595. 9) sakeyrer 595. 10) [60, 63; firrizt soknina, *a;* frijast sokina 115. 11) [sl. 595. 12) -madur et cetera 115. 13) [b. v. 595.

sira Jón Filippusson átelja sölu sína a Vetrliðastöðum í hendr Jóni byskupi Arasyni.

AM. Apogr. 4593 „ur transscripto giördu laugardag næstan epter dyradag. 1555". — Apogr. 4598 eptir transscripto sunnd. næstan fyrir uppstigningardag 1595. (Uppskrift Jóns þjóðskjalavarðar Þorkelssonar er í þjóðskjalasafni).

Um Veturlidastade.

So felldan uitñesburd ber ec Bryniolfur Jonsson at ec heyrda sira Jon Filpusson lysa þui fyrir[1]) mier at hann hefde selltt og gefit biskup Jone ȷordena Veturlidastade til fullrar eignar. med handsaulum og uottum. halfa ȷ profentu. ok halfa fyrir peninga. ok er þad uel þo hann niote hennar fyrir þui eg hefur elfst[2]) af kirkiunar eign. sagde sira Jon at hans dotter hefde feingid nockra neyd af sinum syne Filpus. lyste hann þessu medan þeir lifdv bader. Ok alldre heyrda ec sira Jon æsaka þersa[3]) ȷord nie brigde[4]) a bera medan biskup Jon lifde. og uar ec j nægrenne vid hann. þa sira Jon fiek þersa ȷord ȷ burtt. Ok til saninda hier um set eg mitt jncigle fyrir þetta uitnesburdarbref er skrifat uar æ Grund ȷ Eyiafirde miduikvdagenn næstan fyrir Laureñtiusmessv. anno domini ꝏ dc l og iiij.

---

## 484. 17. ágúst 1554. í Hafrafellstungu.

Jarðaskipti þeirra feðga Þorsteins Finnbogasonar og Vigfúsar, sonar hans, og kaupir Þorsteinn vegna Jóns Sigurðssonar og Þórunnar Árnadóttur, konu hans, Hafrafellstungu að Vigfúsi fyrir Hofstaði við Mývatn og Hólkot í Laxárdal.

Frumbréfasafn JS. nr. 12, frumrit á skinni, komið frá „S[igfúsi] Schules[en] 4/9 [18]58". Öll (4) innsiglin eru dottin frá. (Uppskrift Jóns þjóðskjalavarðar Þorkelssonar er í þjóðskjalasafni). — AM. Apogr. 70 „Ex originali, sem vered hefur Sira Skúla Þorlákssonar, og sidan minn. Eg feck brefed fra Halldori Einarssyne, Brefed er ritad á plumpt þyckt illa skrifad kalfskinn. Originalinn sende eg 1724 Sira Magnuse Markússyne, til ad gefa eiganda Hafrafellztungu"

1) Vantar í transskr. 1595. 2) „lege eflst" (AM.), og svo transskr. 1595. 3) þeirra, Apogr.; AM. leiðrétti; þessa, transskr. 1595. 4) brigd, transskr. 1595.

(AM.). Þegar Arni hafði bréfið í höndum, var það með öllum innsiglum. — AM. 255. 4to., bls 206—7 (uppskrift Einars Þorkelssonar þar af í þjóðskjalasafni.)

## Hafrafellstungu Bref 1554[1])

Þat giorum vier Hiorleifur Skvlason. Kolbeirn Tumasson. Gottskalk Solfvason og Tumas Kolbeinsson. godum mon[n]um vitvrligt med þessu uoru oppnu brefi. at þa er lidit var fra gudz bvrd ꝏ. uc. l. og iiii ar. a fostvdagin næstan epter ascumpcio Marię. ȷ Hafrafellztungu. uorum uier ȷ hia saum og heyrdum æ ord og handaband þessara manna. Þorsteins Finnbogasonar. og Vigfusar Þorsteinssonar at greindur Þorsteirn keypti ȷordina Hafrafellztungu uegna Jons Sigvrdzsonar. og hans kuinu Þorunar Arnadotter[3]) med ollvm þeim gognvm og giædum sem greindri ȷordu fylger og fylgt hefur at fornu og nyiv. og fyrr greindur Uigfus var fremst eigandi at ordin. med ȷayrde og samþycki hans heidarligrar dandi kuinu. Hier ȷ mote gaf Þorsteirn Finbogason. uegna Jons og Þorunar. fyrr skrifadra hiona. ȷordina Hofstadi. fyrir xlc. sem liggur ȷ Reykiahlidar kirkiv sokn. og Holkot ȷ Laxardal ȷ Þuerar kirkiu sokn. og ȷordina Strandhofn sèm liggur ȷ Hofs kirkiu sokn. med ollum þeim gognum og giædum sem greindum ȷordum fylger og fylgt hefur at fornu og nyv og þrat[t] nefnd hion vrdu fremst eigandi at. med þeim skildaga ef af kyne at ganga Hofstader þa skildi fyrr skrifadur Uigfws sier adr[a]. xlc. ȷord. eda tvær. xxc. ȷarder sem honum uel likar ȷnnan syslv. og so ef Holkot kyne af at ganga. skylldi hann eiga so micid at dyrleika ȷ anare ȷordv. En kyne og med logvm af at ganga Hafrafellztunga af Jone Sigurdzsyne. þa skylldi hann at fyrr skrifvdvm peningum aptur ganga. og so somvleidis Uigfws at Tungv. ef þær ȷarder bregdaz sem fyrr skrifad stendur. Skildv þau hionen Uigfws og Þorbiorg eigin[4]) Þorunar ȷordina og hennar eckta barns epter hana. en ef audru vis fielle erfdin. þa skilldi Fusi eignaz Hafrafellztungu. en hennar erfingiar so hafa peninga ȷ ȷordum sem fyrir komv. Ok til sanenda hier um setium uier fyrr skrifader menn

1) Utan á bréfinu. Ártalið er m. h. Árna Magnússonar. 2) 255; Thorleiffur(!) 3) Svo. 4) Svo = eign.

uor ȷnsigli fyrir þetta ȷardarkaupsbref skrifad ȷ sama stad degi og are sem fyrr segier.

---

**485. 18. ágúst 1554. í Hafrafellstungu**

Kvittun Þorsteins Finnbogasonar til Jóns Sigurðssonar fyrir andvirði Mjölbrigðastaða.

Lbs. 122, 4to., bl. 41, m. h. síra Vigfúsar Jónssonar í Hítardal (d. 1776). Sbr. bréf frá 28. ág. 1553. (Dipl. Isl. XII. nr. 337). Uppskrift Jóns þjóðskjalavarðar Þorkelssonar er í þjóðskjalasafni).

Þad medkenne Jeg Þorsteinn Finnbogason, ad Eg hefe medteked xxvjᶜ i frijdum peningum og smiörum og vadmalum af Ione Sigurdssyne sem hann átte ad giallda mier fyrir ȷordena Miolbrijgdastadi sem Eg sellde hönum. þvi gef Eg hann fyrrgreindañ Ion Sigurdssonölldungis kvittañ fyrir ädur skrifad ȷardarverd. fyrir mier og öllum minum efterkomendum. þvi set Eg mitt ȷnnsigle fyrir þetta Bref. skrifad i Hafrafellstungu. laugardagen nærstan effter ascensio Mariæ. árum effter Guds burd 1554.

---

**486. 22. ágúst 1554. á Meli.**

Samningr Árna Gíslasonar og Ásgríms Einarssonar, og lofar Ásgrímr að selja Árna fyrstum 30 hundr. í Stóruborg í Vestrhópi fyrir 30 hundr. í jörðum í Húnavatnsþingi, svo að Ásgrími vel líkaði.

AM. Apogr. 4575 „Ex orig. Hlidarend. ordriett enn ei stafriett. Á brefinu er eigin hönd Árna Gíslasonar“ (AM.). (Uppskrift Jóns þjóðskjalavarðar Þorkelssonar er í þjóðskjalasafni).

Þath giorum vier Jon Þordarsson prestur. Jon Þorsteinsson Magnus Ellendsson godum monnum kunnigt. med þessu voru opnu Brefi ath Arum epter Gudz burd ꝏ. d. l. iiij. Midvikudaginn næstañ epter assumsio Marie um sumarid æ Mel ȷ Midfirde vorum vier ȷ hia sæum og heyrdum æ ord og handaband þessara manna. af Eȷnne alfu Asgrims Einarssonar. Enn af annare alfu Arna Gislasonar. ath suo fyrer skȷȷlldu ath adurnefndur Asgrȷȷmur lofade adurnefndum Arna

Gislasýne med handabande ath selia honum fyrstum. xxxc. ȷ ȷordunni storu Borg ȷ Vesturhőpe. hier ȷ mőt lofade Arne Gislason Asgrime Einarssine. xxxc. ȷ ȷordum ȷ Hunavatnzþȷȷnge suo Asgrime vel lȷȷkade. Og til sanninda hier vm setium vier fyrnefnder menn vor ȷnnsigli firer þetta [brief] er skrifad var ȷ sama stad deige og are sem fyr seiger.

---

487. 21. september 1554. á Grund.

Vitnisburðr síra Andrésar Jónssonar, að hann hafi heyrt síra Jón Filippusson lýsa því, að hann hafi selt Jóni byskupi Arasyni Vetrliðastaði til fullrar eignar.

AM. Apogr. 4596 „Ur transscripto giörðu laugardag næstan epter dýradag. 1555". „Þesse vitnisburdur stendur ordriett samhliöða i transscripto yfer mörg Veturlidastadabref, giörðu 1595" (Páll Hákonarson). (Uppskrift Jóns þjóðskjalavarðar Þorkelssonar er í þjóðskjalasafni).

Um Veturlidastade.

Þat giore ec sira Andries[1]) Jonsson godum monnum kunnigt med þersu minu opnu brefe þa lidid uar fra guds burd. ∞. dc L. ȷ kirkiunne ꜵ Munkaþuera um sumarit mꜵnudagen næstan fyrir Olafsmessu. heyrda ec sira Jon Filpusson lysa þui fyrir mier at hann hefde feingit og sellt med handsaulum til fullrar eignar biskup Jone Arasyne ȷordena Ueturlidastade. og alldre hefur ec annad heyrt medan biskup Jon lifde. voru hier uidstadder fleire goder menn adrer og hier epter vil eg sveria fullan bokareid ef þurfa þicir. Og til sanninda hier um set eg mitt ȷncigle fyrir þetta vitnesburdarbref huertt skrifat uar ꜵ Grund ȷ Eyiafirde. Mattheasmessu[2]) um haustid þa lidid uar frꜵ guds burd ∞ dc l. og iiij. ar.

---

488. 21. september 1554. á Grund.

Vitnisburðr Erlends Þórhallasonar, að hann hafi heyrt síra Jón Filippusson lýsa því, að „hann hefði fulla og alla pen-

1) Andres (transskr. 1595). 2) Svo (þ. e. Matthæusm.).

inga uppborið“ fyrir Vetrliðastaði, sem hann hafði fengið Jóni byskupi Arasyni til eignar.

AM. Apogr. 4594 „Ex originali chartaceo“. Innsigli Erlends var fyrir bréfinu. „Þetta bref er ritad sem sômu hendi sem transscriptum Sira Svarts Arnasonar og Magnuss Gunnsteinssonar 1555 yfir marga vitnisburde um Veturlidastada sôlu“ (AM.). „Þesse vitnisburdur Ellinds Þorhallasonar er ordriett samhlióda i þvi stora transscripto 1595“ (Páll Hákonarson). (Uppskrift Jóns þjóðskjalavarðar Þorkelssonar er í þjóðskjalasafni.)

Um Veturlidastade.
Jhesus.

Suo felldan vitnesburd ber eg Erleñdur Þorhallason at ec uar vid staddur og fleire goder menn adrer æ Grund ȷ Eyiafirde at sira Jon Filpusson lýste þui suo ec heyrda. at hann hefde selltt og feingit biskup Jone Arasyni til fullrar eignar med handsaulum jordena Ueturlidastade. ok þersu lýste hann ȷ annan tima ȷ Glæsebæ. suo ec heyrda. ok suo lyste sira Jon Filpusson fyrir mier at hann hefde fulla og alla peninga upp borid fyrir fyrr sagda ȷord Ueturlidastade. Ok alldre hefur ec annad heyrtt ꜳ medañ biskup Jon lifde. Enn ȷordeñ Ueturlidastader uæri. og uerid hefde. eigñ Jsleifz Sigurdzsonar. ok Þorunnar Jonsdottur. Eptter þui biskup Jon hafde þeim feingit og afeñt til fullrar eignar. og uar eg þeirra þienare og heimamadur upp ꜳ vı ꜳr. var eg vid staddur fyrgreint samtal og lysı̃ng sira Jons Filpussonar og Þorunnar Jonsdottur fyrir kirkiudyrunum ꜳ Grund ȷ Eyiafirde. Enn þau uoru at tala um ȷordeña Veturlidastade. ȷnne ȷ kirkiune. Ok hier eptter vil ec sueria fullañ bokareid ef þurfa þicir. Ok til sanninda hier um set ec mitt ȷnncigle fyrir þetta vitñesburdarbref. hvert gertt var og skrifat ꜳ Grund ȷ Eyiafirde. æ Mattheusmessu um haustid. þꜳ lidid var frꜳ guds burd. ꝏ. d^c l og iiii ær.

---

**489.** **21. september 1554.** **á Grund.**

Vitnisburðr Jóns Ólafssonar, að hann hafi heyrt síra Jón Filippusson lýsa því, að hann hafi selt Jóni byskupi Arasyni Vetrliðastaði til fullrar eignar.

AM. Apogr. 4592 „Ur transscripto giördu laugardag næstan epter dýradag. 1555“. (Uppskrift Jóns þjóðskjalavarðar Þorkelssonar er í þjóðskjalasafni.

Um Veturlidastade.

So felldan uitñesburd ber ec Jõn Olᾶfsson at ec heyrda sira Jon Filpusson lysa þui fyrir mier j Glæsebæ og Huassafelle at hann hefde feingit og selltt med handsolum biskup Jone Arasyne ȷordeña Ueturlidastade til fullrar eignar ok alldre hefur eg annat heyrtt enn þerse ȷord Ueturlidastader uære eign Jsleifs og Þorunnar Jonsdottur. medan biskup Jon lifde. So heyrda ec fyrnefndur Jon Olæfsson sira Jon Filpusson lysa þersu fyrir mier i Huassafelle æ Nichulᾶsmessu um veturin godum monnum fleirum hiæ uerande og hier eptter uil ec sueria fullan bokareid ef þurfa þiker. Ok til sanninda hier um set eg mitt ȷnncigle fyrir þetta vitnesburdarbref. huertt skrifat uar ᾶ Grund ȷ Eyiafirde. Mattheasmessu um hausted þa lidit uar frᾶ guds burd. ᴍ. dc l. og iiij. ᾶr.

---

**490. 22. september 1554. á Auðunarstöðum.**

Vitnisburðr Ólafs Þorleifssonar, að Einar Ólafsson hafi búið á Stóru-Borg og að hann hafi aldrei annað heyrt en að sú jörð hefði verið eign Einars, fengin honum af Gottskálki byskupi fyrir Auðkúlu.

AM. Fasc. LXXII, 4, frumrit á skinni (m. h. Árna Gíslasonar), og er innsiglið fyrir. — AM. Apogr. 1005, m. h. Styrs Þorvaldssonar („Ex originali Sæmundar Magnussonar a Holi j Bolungarvik“). (Uppskriftir eru í þjóðskjalasafni, Jóns þjóðskjalavarðar Þorkelssonar af hinu fyrra skjali, Einars Þorkelssonar af hinu síðara).

Witnisburdur Olæfs wm[1]) Borg ȷ Westurhőpi.

Þath giori Eg Olæfur Þorleȷjfsson godum monnum[2]) kunnigth med þessu minu opnu brefi ath Ec biő æ minne Borg i Westurhőpi vi ær. hafdi eg greiñda ȷord thil byggingar af Eíjnari Olæfssyni. Gallt Ec honum leijgur og landskylldir. Biő greiñdur Eȷjnar æ Stőru Borg i aull þau ær

1) tvíritað. 2) godum, hér ofskrifað.

og alldreij hefi ec annad heyrth Enn fyʀ nefnd ȷord Stőra Borg hefdi werid Eign Einars Olæfssonar og biskup Gottskælk hefdi feingid nefndum Einari greinda ȷord Borg fyrir iordina Audkulu. hefi ec hier aldreij heyrth tuijmæli æ leıȷka Og thil sanniñda hier wm̄ set ec mitt innsigli fyrir þetta bref Efter hueriu eg wil sueria ef þurfa þikier. war þetta bref skrifath æ Audunarstaudum ȷ Wıȷdidal laugardaginn efter ymbruwiku wm̄ haustid ærum Efter Gudz burd ꟾꟾ d l iiij.

---

491. 24. september 1554. á Krossi.

Vitnisburðr Einars Eyjólfssonar, að Jón Árnason á Geithellum hefði á banastundu lýst því, að hann hefði ranglega dregið Hrómundarey og hálfan reka frá Melrakkanesi og „innskrifað í máldagann Geithellakirkju"; hafi hann því „beðið prestinn fyrir guðs skuld og sinn heiðr burtu að skafa".

AM. Apogr. 4313, tvær uppskriftir, „Ex orig." frá „Petre Asmundssyne á Ketilsstödum á Völlum", önnur m. h. Styrs Þorvaldssonar, en hin staðfest 1708, og er henni fylgt hér. (Uppskrift Einars Þorkelssonar er í þjóðskjalasafni).

Um Hromundarey[1]).

Þat giore ec Einar Eyiolfsson godum monnum kunnigt med þessu minu opnv brefi at ec heyrde faudur minn Eyiolf Asbiarnarson opt þui lysa og godum monnum fraseigia at hann hefdi verit vid staddur og vppi yfir verit þa Jon heiten Arnason sem atte Geithella. j Alptafirde giorde sina testamentum[2]). fyrir sina daudstid. og þesse fyrgreindur Jon Arnason hefdi opinberliga lyst fyrir preste sira Einare. er þann tid hiellt Hofstad j greindum firde. og sier og morgum audrum monnum. at hann hefdi sier rangliga eignad og vndir sig dreigid med fölsk heit oc ranginde Hromundarey fra Melrackanese. og halfañ reka. og hann hefdi med sinne sialfs hendi rangliga og falsliga þessa Hromundarey og reka fra Melrackanesi jnnskrifad j maldagan Geithellakirkiu og hann hefdi bedit presten fyrir gudz skulld. og sinn heidur burttu ad skafa. or maldaganum þetta sitt ranginda skrif suo

1) m. h. Árna Magnússonar. 2) Svo.

at siner epterkomendur hielldi ecki eptir sig þessare eign rangliga. hier eptir vil ec sueria ef þurfa þiker. og til sannenda hier vm set eg mitt jnsigle fyrir þetta vitnisburdar bref skrifat a Krosse. a. Strǫnd. árum eptir Gudz burd þushundrud fimm hundrud fimmtigir. og fiǫgur. manudagenn nęstan epter jmbru daga vm haustid.

Þetta fyrir framan- og ofan-skrifad er riett utskrift af originalbrefe ritudu á kalfskinn vel læseligu, óskornu, ó-skófnu, og j allan mata falslausu, hvert originalbref med underhangandi heilu og læselegu innsigle Einars Eÿiolfssonar vier underskrifader sáum og lásum j Skalhollte þann 18. Martij Anno Christi 1708.

Magnus Markusson. Haflide Bergsveinsson.
Snorre Jonsson. Ormur Dadason.

---

**492.** [haustið 1554]. á Seylu.

Brot úr dómi, er dæmir Þórunni Jónsdóttur á Grund að leiða tvö lögleg vitni að því, að síra Jón Filippusson hafi selt Jóni byskupi Arasyni jörðina Vetrliðastaði, ella sé jörðin fallin síra Geirmundi, syni síra Jóns Filippussonar, eftir ættleiðingarbréfi hans.

AM. Apogr. 4590 „ur transscripto giördu laugardag næstan epter dýradag 1555“. Árni ritar í bréfsbornið ártalið „1554“. (Uppskrift Jóns þjóðskjalavarðar Þorkelssonar er í þjóðskjalasafni).

Um Veturlidastade.

Jn primis stendur so j uore landzlagabok at [epter] gognum og vitnum skal hvertt mæl dæma. J annare grein st[endur so]. Nu uill madur selia land sitt med uerde et cetera. Jtem j sama kapitula et cetera. jtem j þridiu grein huervitna þar sem menn skiptast husum uid edur kaupa j[ordum]. jtem j. v. grein. aull skilord sem menn gera j kuennagipptingum. og so ef menn kaupa jarder. jtem j siottu grein. Nu skulv halldast handsaulud mal. fyrir þessar greiner og fleire adrar sem hier at hniga og j laugmalenu standa dæmdum vier fyrnefnder domsmenn med fullnadardoms atkuæde. Þorunne Jonsdotter edur hennar logligan umbodsmann skylldugan at leida ii lauglig vitne sira Geir-

munde hia verañda. þau at svo suære. þau hefde hia verid. at sira Jon Fillpusson sellde. feck og afente biskup Jone med fullum handsolum jordena alla Ueturlidastade skal þerse uitne leid[a] fyrır fardaga næsta eptter komande ǎ̃rs. fallest þau uitne þa leidde[1]) hun þæ ii logliga uotta. þæ heyrtt hefde sira Jon lysa þui at hann hefde sellt biskup Jone fyrsagda ȷord med handsaulum. leiddest þau þǎ̃ stæde ȷord sem komin uære. En hun greidde so mikit fie sem ecki [er] ædur bitalat fyrir adur greinda ȷord. fallest þersse vitne. þa dæmdum vær ȷordena prestenum eptter sinu ættleidingarbrefe. en Þorunne aura sina af þrattnefndum Geirmunde.

---

**493. 26. september 1554. undir Núpi.**

Jón Nikulásson og kona hans, Helga Jónsdóttir, fá Eggert lögmanni Hannessyni jörðina Rauðsdal efra á Barðaströnd, en Eggert kvittar þau „um umboð og peningameðferð“ „hans vegna í næstu tvö ár og svo um allar aðrar áklögur“.

AM. Apogr. 1338, m. h. Orms Daðasonar 1729, eftir frumriti, sem læst var saman við kaupbréf um Rauðsdal frá 21. febr. 1554. (Dipl. Isl. XII. nr. 431) — Jarðabókarskjöl Árna Magnússonar, Barðastrandarsýsla 12, uppskrift gerð í Haga á Barðaströnd 15. júní 1703, samlesin af tveim tilgreindum mönnum. (Uppskriftir eru í þjóðskjalasafni, Jóns þjóðskjalavarðar Þorkelssonar að hinu fyrra, Einars Þorkelssonar að hinu síðara).

Þat giorum vær Torfi Fvsason. Sygurdur Þormodson. Einar Gislason. Sveinn Arason. godum monnum kunnigt med þessv voru opnu brefi. arum epter gudz burd. ꝺ. d. l. iiij ar ǎ̃ þridiudaginn næstan fyrir Mikalsmesso um hustit[2]) vñder Nupi ȷ Dyrafirdi uorum uær ȷ hia saum og heyrdum ǎ̃. at Jon Nikulasson og Helga Jonsdotter hans kuinna at lostvgligvm vilia med fullu ȷayrdi oc hañdabañde. fiengu þau Eggert Hannessyne ȷordina efre Raudsdal er liggur ǎ̃ Bardastroñd ȷ Briamslækiar kirkiu sokñ til fullrar eignar og frials forrædis auñdan[1]) sier oc sinum erfing[i]um Enn under adurgreindan Eggert oc hans erfingia med

1) Svo. 2) Svo; haustid Jb. 12. — Dagsetning hér er 25. sept.

aullum þeim gognum oc gædum sem greindre jordu fylger oc fyllt hefer at fornu og nyu bædi til sios og lañ[d]s og þau vrdu fremst eigandi at epter sinu kaupi. Enn hier j mot gaf Eggert Hannesson fyrsogd hion aulldvngis kuitt og ǻkiærulaus fyrir sier og sinum erfing[i]vm og epterkomeñdvm. um vmbod oc peniñga medferd sem fyrskrifud hion hofdu haftt hans vegna j næstv. ij. ar og so vm allar adrar aklogur sem hann matti til fyrgreindra hiona tala sinna vegña. skylldi fyrskrifadur Eggert hallda fyrgreindri jordu til laga. Enn optskrifut hion svara lagariptingum. Og til sanninda hier vm festvm vier fyrgreinder menn vor jnnsigle fyrir þetta giorningsbref. hvert er skrifat var j sama stad og ari deigi sijdar Enn fyr seiger.

---

**494. 3. október 1554. í Nýborg.**

Konungr býðr Pétri Godske að flytja tilgreind matvæli til Nýborgar (hér einungis tekið það, sem greint er íslenzkt, eða ætla má, að íslenzkt sé).

Ríkisskjalasafn Dana, Tegn. p. a. L. 4, 433. Uppskrift Laursens ríkisskjalavarðar er í þjóðskjalasafni.

Peder Goske fick breff att skulle sende thette eptherschreffne godtz tiill Nyborg aar etc. m d l iiij then ottensdag nest epther sanctj Michaelis dag.

. . . . . . . . . .

[Item Islandtz fish i lest skruffuit[1]).
recklen viij kipper

. . . . . . . . . .

item Islandtz fisk viij m.

. . . . . . . . . .

sundemage iiij tder.

. . . . . . . . . .

---

1) Strikað út í hdr.

495. **4. október 1554.** **í Nýborg.**

Kvittun Kristjáns konungs þriðja til Páls Hvítfelds fyrir peningum, er hann færði honum af Íslandi.

Ríkisskjalasafn Dana, Reg. p. a. L. 6, 602. Uppskriftir eru: Jóns Sigurðssonar í JS. 369, 4to. (Jóns þjóðskjalavarðar Þorkelssonar þaðan í þjóðskjalasafni), og Laursens ríkisskjalavarðar í þjóðskjalasafni.

Pouell Huiittfeld

Fiich ko. maiestettz quitanntze paa. v^c xxv dalere och .j. ortt.

xxiiij lub[ske] marcke stôckett. xxj. sk. lub[ske].

xij marck lub[ske] och iiij sk. lub[ske]. vdj mônntt.

viiij enngellotter.

j. stemppett gyldenn.

j. rinske gyldenn. och .l. lodt ½ quinthyn brodett sôlff somm hannd offueranttuordett jnnd vdj ko. maiestettz kammer paa Nyborgh och hannd hagde vppeborett paa ko. maiestettz wegnne aff Jslanndt vdj thette aar.

Datum Nyborgh torsdagen post Michaeli[s] anno 1554. dominus rex manu propria subscripsit.

---

496. **6. október 1554.** **á Grenjaðarstöðum.**

Arfaskiptabréf síra Lopts Pétrssonar með börnum sínum.

Dr. Jón þjóðskjalavörður Þorkelsson gerði uppskrift af bréfinu 1891 (nú í þjóðskjalasafni) eftir fúnum og skemmdum blöðum, skr., að því er honum virtist, m h. síra Ketils Jörundarsonar í Hvammi (d. 1670), er hann hafði fengið að láni að vestan. Þar með fylgdi nýleg uppskrift, „m. h. Gísla Konráðssonar“, og eru eftir henni fylltir fúaskallarnir, sem á voru fornu uppskriftinni, að svo miklu leyti, sem þeir hafa ekki verið dottnir á, þegar yngri uppskriftin var gerð. „Fyrir þessu bréfi eitt hangandi innsigli“. Sælingsdalstunguskjöl eru nú komin í þjóðskjalasafn (send þangað 1912 frá Benedikt hreppstjóra Magnússyni í Tjaldanesi), en þar vantar nú hina gömlu uppskrift þessa bréfs, en hin yngri er þar með.

Þad giore eg Loptur prestur Peturson godum monnum kunnigt med þessu mijnu opnu Briefi ad eg hefi skipt mijn-

um peningum med mijnum Erfingium. sem at eru mijnu[1] Born Eiginlig. suo sem hier epter skrifad stendur.

J fyrstu hef eg skipt. giefid og golldid Arngrijme syni mijnum enum ellsta halfa Sælingsdalstungu j Huamssueit. og þar med .x. kugilldi fyrir xlc.

Jtem sijra Jone syne mijnum hef eg skipt giefid nu og golldid. halfa fyrgreinda jord Sælingsdalstungu. med ollu þui er henni a med logum at fylgia fyrir xxxc [og] þar til .x. malnytu kugilldi.

Vilie annar huor þessara fyrnefndra Bræдra Jon eda Arngrijmur selia þessa halfa jord. Þa skal annar huor selia ödrum fyrstum med þui verdi. þui sem verdur Best vid Bodit. Eñ vilie þa hvorgi eda giete keypt. þa selie þeir fýrst sijnum Brædrum Pali eda Arna ef þeir eru þar helldur menn til. Enn giete þeir eige nie vilie þa selie þeir þessa jord ef hun verdur fol sijnum ættmonnum fyrstum þeim sem komner eru af mijnum fodur Petri Loptsyne huorium þeim sem þeim sialfum Best lijkar. A kirkian j Tungu jordina Saura j Laxardal er hun xvjc jord och þar til .x. malnytu kugilldi og nær .vc. j frijdum peningum. Hier med hef eg golldit kirkiunni j Tungu jordina Þambărvelle fyrir xvjc. og giort þar med [kirkiunnar reikningskap bædi] fornan og nyiañ og latid mier [þat lika þó Marteinn Einarsson yfirmann Skallholltz kirkiu hielldi greinda jord Þambarvelle suo leinge sem hann hefde yfervalld Skalholltz kirkiu og eg hielldi Tungu. Skulu nefnder Brædur Jon og Arngrijmur skipta med sier þessum og ollum odrum kirkiunnar peningum og hallda hana hvor þeirra med þessare jordu Tungu so sem gomul log til standa.

Jtem skipte eg og gaf Pale syne mijnum og gielld jordina Akureýar a Breidafirde j Skardskirkiu sokn fýrir xlc.

Jtem Arna syne mijnum skipti eg gef og gielld jordina Sydri Vijk j Bitru j Eyrar kirkiu sokn fyrir xxxc og þar med .x. kugilldi j malnytu.

Jtem Helgu dottur minni hef eg skipt og giefid og golldit x malnytu kugilldi og onnur god xc.

---

1) þannig *a;* mín *b;*

Eñ Sigrijdi dottur mÿna hef eg adur afleyst med jordunni Laugum og þar med iiij kugilldum.

Skulu þesse fyrnefnd Børn eignast strax alla adurgreinda peninga med þeim skilmala at eg vil hallda þa avaxtarlaust so leingi eg lifi. vtan eg vilie fyrri laust lata vid sierhvorn. Eñ kunni meire peningar epter minn dag at vera Eñ nu er[u] talder [þa] skiptist þeir med nefndum Bornum epter landz logum riettum. Och til sanninda hier vm set eg mitt jnncigle fyrir þetta Brief er giort var a Greniadarstad j Reykiadal laugardaginn næstan fyrir Dionisij martyris Anno ꝏ. d.l. iiij.

---

**497. 7. október 1554. í Saurbæ.**

Kaupbréf Eggerts lögmanns Hannessonar fyrir Arnórsstöðum á Barðaströnd að Sölmundi Erlingssyni fyrir 18 hundr. í lausafé, er Sölmundr hafði áðr fengið.

Jarðabókarskjöl Árna Magnússonar, Barðastrandarsýsla 10. Staðfest uppskr. á Geirröðsreyri 28. apr. 1704 af þrem mönnum (uppskrift Einars Þorkelssonar er í þjóðskjalasafni).

Copiur aff kaupbrefum fyrer Arnorsstødum jnnañ Bardastrandarsyslu[1]).

Þad giorum uier Biorn Biarnason. Sigurdur Þormődsson. Sueirn Arason. Gudmundur Jőnsson gődum monnum kunnugt med þessu uoru opnu brefe. ad ărum effter gudz burd ꝏ. D. L. fiegur. sunnudag hinn næsta efftir Fransiscuzmessu um haustid j Saurbæ ă Raudasandj uorum uær j hiä säum og heirdum ă ord oc handaband þessara manna af einne ălfu Eggerts Hannessonar eñ af annarj ălfu Solmundar Erlingssonar. eñ þad falldist oc skilldist undir þeirra handabandi ad firrskrifadur Solmundur Erlingsson. selldj ädurgreindum Eggert Hannessyni jordina Arnorsstadj 18c ad Dijrleika er liggur a Bardarstrȯnd i Briämslækiar kirkiusőkn med ȯllum þeim gognum og giædum rekum og renningum sem greindri jordu filger oc filgt hefur ad fornu oc

---

1) Aftan á bréfinu með bréfi frá 1547 um Arnórsstaði, sbr. Dipl. Isl. XI. bls. 594—5.

nyu bædj til siös oc landz undan sier oc sijnum erfingium. eñ under þrattgreından Eggert Hannesson og hanz erfingia til æfiñlegrar eignar oc rada oc nitsemda. nema fyrrgreindur Eggert uilldi annad räd fyrir giora eñ hier i möte sagdist firrgreindur Solmundur hafa uppborit. af þrattgreindum Eggert Hannessyni fyrir firrskrifada iörd xviijc. ȷ gödum oc geingelegum peningum̃ sem uæri mälnitu oc gielldum penıngum. smiórum uadmälum og hestum sem sier uel änægdi. þui ȷ gudznafne Amen oc ad Heilags anda nǻd tilkalladri. ad oss oc mǫrgum ǫdrum hiäuerandj ǻheirandi oc ä handabandit siäande. sem fram for firrskrifadra manna i millum. þä gaf tijttnefndur Solmundur Erlingsson þrǻttnefndan Eggert Hannesson oc hanz erfingia oc effterkommendur. ǫlldungis kuijttan oc akiærulausan fyrir sier oc sijnum erfingium oc effterkomendum um firrskrifad jardarverd. skilldj þrättnefndur Eggert Hannesson hallda til laga. eñ Sǫlmundur Erlingsson skilldj suara lagarifftingum ǻ firrsagdre jǫrdu. og til sanninda hier um̃ þä festum uier firrnefnder menn uor jncigli fyrir þetta kaupbrief. huort ad skrifad uar j sama stad ǻ ǻri oc Deigi sem fyrr seiger.

---

**498. 8. október 1554. í Bólstaðarhlíð.**

Tylftardómr, kvaddr af Oddi lögmanni Gottskálkssyni, dæmir síra Einari Úlfssyni aftr Strjúg og Refsstaði, en Páli bónda Grímssyni aftr Narfastaði og 12 hundr. í Hallbjarnarstöðum, er hann hafði áðr fyrir þessar jarðir látið í kaupi sínu við Ara lögmann Jónsson.

A.

AM. 198. 4to., bl. 21, safn frá Jóni lögmanni Jónssyni skr. ca. 1600. (Uppskrift Einars Þorkelssonar er í þjóðskjalasafni).

Ollum monnum sem þetta bref sia edur heyra senda Arngrimur Jonsson. Gudmundur Skulason. Ellindur Jonsson logrettumenn. Einar Bessason. Arne Gijslason. Jon Halldorsson. Einar Þorarinsson. Oddur Halldorsson. Biorn Filpusson. Einar Petursson. Þordur Gudmundsson og Jon Þorarinsson buediu gudz og sijna kunnigt giorandi þæ lidit var fra gudz

burd 1554[1]) manudaginn næstan fyrir Dionicij Episcupi[2]) j Bolstada hlijd ää þingstad Rettum vorum vier j dom nefnder af heidarligum herra Oddi Gottskalkssyni logmanni nordan og vestañ ää Islandi ad dæma Rannsaka og skoda og fullnadardom a ad leggia vm þær jardar Striug j Langadal og Refstadi er sijra Einar Vlfsson hafdi ää sest og ad sier tekid epter þeim domj og vrskurdi er Ormur logmadur hafdi þar ää lagt og þar var upplesinn. huad vier kunnum ecki ad Reingia hier j landit logmannz vrskurd. vtañ hallda hann epter bokarinnar ordum fram fyrir mijns herra kongsinz maistatis nad og ifersyn. suo og var þar upp lesin[n] Annar Domur med jnnsiglum ad Ormur logmann liet Dæma Pali bonda sina fodurleifd er hann vid gaf. sem var jördin Narfastader og 12c j Hallbiarnarstodum. huad oss virtist og sää domur skiælligur og myndugur. Kom þar og til suars ad Pall bondi Grimsson og baud sig ad hallda þessum jordum til riettra laga. epter sinu kaupbrefi sem hann þar upplas. og Are heitinn Jonsson hafdi honum sellt sem var Strijugur og Refstader. Stefndi hann þar strax Einare Vlfssyni stundarstefnu fyrir logmanninn Odd fyrir adtekt og asetu j moti sinum vilia. Suo og stefñdi Einar þar Pali Grimssyni ad hann hefdi sina jord keypt ad Ara heitnum Jonssyni sem hann hiellt sina eign epter sinn fodur og modur. Bar og Einar þar fram ad su jord sem biskup Jon fieck hañs faudur Vlfi sem var Barkastader j Suartardal. hafdi verid ää. laungu fyrir þad akiæra af Joni Finnbogasyne og hun geck af med logum. Stendur og suo skrifad j logbok uorri. Þar madur selur þad audrum er annar ää. þad kaup skal aptur ganga. enn hinum skipar sitt andvirdi. suo skipar þad j landabrigdum. þar sem jord hefur ad solum farid þää ää huer vid sinn heimilldarmann og snuist ää sinn sala epter slikum aurum sem hann gaf fyrer jord. og ad gudz nafni til kolludu og med fullnadar domz atkuædi jn primis. Dæmdum vier þää bada Pal Grimsson og sijra Einar Vlfsson þar logsokta epter sijnum stefnum ad suara þar huer odrum logum og sijra Einar Vlfsson riettilega eiga þessar jarder Striug og Ref-

1) 1550 4, hdr. 2) Svo.

stadi epter þeim domj og vrskurdi er Ormur logmann hafdi äälagt epter hanz lyritar eidi og epter sinn fodur og modur. J annare grein dæmdum vier Pali bonda Grimssyni sina fodur leifd hann vid gaf. sem j hanz kaupbrefi stendur Narfastadi 20c. og xijc j Hallbiarnarstodum. hanz eigñ vera og verid hafa med landskylldum epter þeim domj sem Ormur logmann liet honum dæma og sää domur virtist oss myndugur og skiælligur. og hann rettiliga mega ad sier taka þessa jord og jardar partt byggia þær og selia epter sinum vilia. Samþyckti þennañ vorn dom adurgreindur logmann og setti sitt jnsigli fyrir þennañ dom med fyr nefndra manna jnsiglum. huer ed dæmdist og upp sagdist j sama stad og dag sem fyrr seiger.

Þad giorum vier sira Ellendur Þorgrijmsson. Jon Jonsson og Einar Sigurdsson godum monnum kunnigt med þessu uoru opnu brefi. ad vier hofum sied heyrt og iferlesid suo latandi dom̄ ord fyrir ord sem hier fyrr skrifadur stendur med heilum og hangandi oskoddum̄ jnsiglum og til sanninda hier vm̄ setium vier vor jnsigli fyrir þetta domz bref huort ad skrifad var ää Stadarbacka j Midfirdi 24 dag maius manadar. Anno 1578.

## B.

JS. 66, 8vo., með hendi Grunnavíkr-Jóns ca. 1740 eftir transscripto frá 10. mars 1560 (uppskrift Jóns þjóðskjalavarðar Þorkelssonar er í þjóðskjalasafni). — Orðalag er hér allt annað, svo að prenta verðr dóminn í tvennu lagi.

Øllum mônnum sem þetta bref sia edur heyra sendum [vier] Arngrimur Jonsson. Gudmundur Skulason. Ellendur Jonsson. Einar Bessason. Einar Þorarinsson. Oddur Halldorsson. Jon Þorarensson. Arni Gijslason. Biorn Philpusson. Einar Peturzson. Jon Halldorsson. Þordur Gudmundsson. kuedio gudz og uora. kunnigt giorandi ath þa er lidit var fra gudz burde ꝏ d l og iiij ar. manudagin næstan fyrir Dionisij vm haustid i Bolstadarhlijd i Hunavatnzþijngi a þingstad riettum vorum vier i dom nefnder af heidarlegum manni Oddi Gottskalkzsýne Lôgmanne nordan og vestan a Jjslandi. thil at skoda og ransaka. og fullnadardoom ꞷ at leggia huerso logligast skylldi lyktazt su ꞷgreining. er var i

millum Pallz bonda Grimssonar. og Einars prests Ülfssonar. vm iordina Striug er liggur i Langadæl. og Refstadi sem þar fylger. og liggia i Holtastada kyrkiusokn. vær þetta mal dæmtt ä Sueinstodüm þangat i fyrr nefndan stad og dag. vnder Logmannsins vtnefning og yfersion. j fyrsto kom su sakargipt fram af hendi sagdz Einars. at greindur Pall bondi hefdi keypt hañs eigin odaliord olaugliga. haft sijdan og halldit i la[n]ga tijma. somuleidis kom þar fram fyrer oss dandomanna domur sæ. ed dæmdur var a Þorkielshuoli i Uijdedæl: og Ormur Stüllason er þa var Logmadur hafdi vtnefntt. vrskurdat og innsiglat. huer domur at oss leist myndugur i allan mæta. jtem i annare grein var su laugvorn af hendi Palz bonda i moti klogun prestzins. at Are Jonsson huers sal gud nadi hefdi selltt sier greinda iord Striug fyrir sina eigin fodurleifd. hier med adrer fleiri hluter er hann bondin[n] bar fram. huerier oss litust eckert afl hafa. Nü sakier þess at suo stendur i vorri Landslagabok. at þann vrskurd sem Logmadur veiter ma einginn madur riufa nema kongur sialfur med uitrustu manna samþyckt siai annad sannara. jtem i odrum stad uisar suo til Laugmalit. at huar sem vngum manni tæmist land i erfd. og selur fiarhalldzmadur hañs i burtt et cetera. þa niöti hinn vngi madur vitna sinna at þad er hañs jord. og hann selldi ej. og eigi gaf hann nie gallt. og eingi sa er hann baud vm̃. Sijdañ skulo domendur dæma honum jord enn hinum aura sijna af þeim er selldi et cetera. jtem stendur so i sama capitula. Nu ef honum fellst þessi brigd fyrer einhverra naudsynia sakier edur vankunnendi. epter þui sem. vj. skýnsamer menn meta. þa leggi hann brigd þeirre iord. þott sijdar sie. vissum vier fyrir full sannendi ad prestinum hafdi ollat mennskoleyse til at brigda: hafdi hann og suared fullan eid og ij menn med honum. epter þvi sem honum hafdi adur dæmt verit: jtem seiger suo i Kaupabælke. At þat er kaupfox er madur kauper þat er hinn atti ecki i er sellde. Þui i Gudz nafne. fyrir þessar greiner. og þær fleire. er i logmalino standa og hier at hniga. dæmdum vier fyrr nefnder menn med fullo doms atkuædi þessar þrattskrifadar iarder. Striug og Refstadi. uera og uerid hafa eign Sera Einarz

Wlfzsonar sidan Barkastader geingo af honum. og logmadur skilade[1]) fyrsta sinn þeirra a mille bondanz og hañz. og prestinn riettiliga mega hafa þær og hallda. byggia og bæla þar til uor nadugasti herra konguren[n] skipar þær af honum med logum. Svo dæmdum uier bondanum Pali aptur sinar odaliarder. þær sem hann gaf fyrir þessar badar epter þui sem bok skrifar[1]) og dandomannadomur þar vm giordur innehelldur.

Samþyckti þennan vorn dom adurgreindur Oddur logmann og setti sitt ȷnnsigli med vorum fyrrgreindra manna insiglum fyrir þetta domsbref huertt ed skrifat var a Stad i Reynenese vij dogum sijdar enn fyrr seiger[2]).

---

## 499 8. október 1554. í Bólstaðarhlíð.

Sjöttardómr, kvaddr af Oddi lögmanni Gottskálkssyni, dæmir Þórði Guðmundssyni hest þann, er síra Gunnlaugr lét til hans sækja, og prestinum sekt til Þórðar og konungs.

ÍB. 309, 8vo., bl. 59—60, Öxnafellsbók, skr. ca. 1600—1620. — Dómabók í eigu erfingja Árna landfógeta Thorsteinssonar, úr fórum Jóns lögmanns Sigurðssonar, skr. ca. 1620—30 (= *b*). — ÍB. 125 A, 4to., bl. 58--9, skr. ca. 1650. — Lbs. 790, 4to., bls. 150—2, m. h. Ara Magnússonar í Ögri ca. 1642. — Uppskriftir af þessum dómi eru auk þessa fjölvíða í dómabókum frá 17. og 18. öld (uppskrift Jóns þjóðskjalavarðar Þorkelssonar er í þjóðskjalasafni).

Domur [Odds laugmans[3]) Gottskalkssonar[4]) [vm̄ grip a heste[5]).

Ollum monnum sem þetta Bref sia edur heyra sendum vier Gisle Jonsson. Gudmundur Skulason. Ellindur Jonsson. Jon Gislason. Oddur Halldorsson og[6]) Asgrimur Þorsteinsson quediu gudz og vora kunnigtt gioraudi ad arum eptir gudz burd ꝏ D L iiij manudagin næstan fyrir Dionisij[7]) ȷ Bolstadahlid ȷ Hunavatssþingi ꝺ́ þingstad riettum vorum vier j dom nefndir af heidarligum manni Oddi Gottskalkssyne Logmanni nordañ og westañ ꝺ́ Jslandi til

1) Svo. 2) þ. e. 15. okt. 3) [sl. *b*, 125. 4) [sl. 790. 5) [b. v. 125,790; wm̄ hestgrip *b*. 6) b. v. 790. 7) 125; Dionicij *b*; Dionisi 309, 790. þ. e. 8. okt.

